# Leidarvísir

til

# ad lesa hid Nýa Testament

med gudrækni og greind,

einkum handa ólærdum lesurum.

Ritadur á dønsku

af

Mag. N. Møller,

Dr. Theol., Riddara af Dannebrogsordunni, Sóknar-presti til Kiøbelov's og Vindeby's Safnada.

Snúinn á íslendsku.

Sídari parturinn.



Kaupmannahøfn, 1823.

Þrykt hiá Þorsteini E. Rangel.

# Innihald.

## Sidara partsins.

# Formáli.

Hér framberum vér fyrir augsyn almennings á Islandi sídari part leidarvísis Dr. N. Møllers til ad lesa hid N. T. med gudrækni og greind, í þeirri von, ad hann ei sídur enn sá í fyrra sumar heimsendi fyrri partur fái gódar vidtökur hiá öllum skynsömum og gudræknum bibliu-elskendum; og ad hann jafnframt verdskuldi þann ordstyr og velþóknan, er allmargir lærdir og leikir trúmenn hafa í ordi og verki í lióst látid, og í því tilliti fetad hafa i fótspor allmikils þorra hinnar donsku þiódar, er ei hefir á seinni árum nokkurri bók liúfligar fagnad né fúsligar keypt. Þyki nokkrum medal enna bókvísu landa vorra, ad vér ei hofum leyst verkesni þad, er vér á hendur tókumst, svo vel sem vera ber, þá medkénnum vér fúsliga, ad ei er útlegging þessi hvervetna svo litalaus sem vér æskia mundum; en vér vonum þó ad ei sé vikid frá

meining frumritsins, né þau ord edur orda-tiltæki brukud, er ei séu og beri ad vera sér-hverium innfæddum Isléndíng, svo lærdum sem ólærdum fullkomliga skilianlig. Þeir sem vanir eru þess konar störfum og ad fullu vita skyldu þess, er snúr bókum á adrar túngur, géta best um dæmt, hve vandasamt verk það er, ad snúa þvílíkri bók, sem frumritid er, á íslendsku og ei brúka önnur ord enn þau, sem alkunn eru af eldri andligum bókum Isléndínga. Ad lyktum óskum vér öllum þeim, er eignast og lesa bók þessa, sannrar uppbyggingar og þeirra heilla, er lestur heil. ritningar og óqvikul totning fyrir hennar lærdómum, med sér færa.

Kaupmannahöfn, þann 30 Aprilis 1823.

G. Oddsen. Th. Gudmundsen.

# 1ta Sendibréf til Korinthumanna.

Lúkas skírir oss frá uppruna ens korinthiska safnaðar i Postgb. 18, 1-18. Megum vér þar af sia, að Páll stiptaði þennan sǫfnuð, þá hann kom til Korintuborgar frá Athenu, hvört han hlaut að flya frá Macedoniu fyrir offsóknum Júda. Í Korinthuborg dvaldist hann í hálft annað ár, boðaði Judum og Heiðíngum kristna trú, fyrst einsaman og síðan með samfylgi sinna Meðhiálpara Silas og Thimotheus, hvörja hann hafði þángað boðað frá Thessalonicu og feingu þeir svo mikið atgjort, að ecki einúngis í Korinthuborg hóist fjǫlmennr sǫfnuðr, helldr líka í téðs Bæar hǫfn, Kenchrœa, og ǫðrum minni þorpum Achaju (Grikklands) stiptuðu menn Kristinn félǫg, þrátt fyrer allar þær hindranir er vantrúaðir Gyðíngar ei síðar þar, enn annarstaðar lǫgðu i veginn fyrir Kristi kénnaugar. Korinthuborg var einhver hinn auðugasti og merkasti verslunarstaðr i fornǫld, og nafntoguð borg með

A

því hún var ein af aðalsetrum enna grisku íþrótta og menta, hugvits og málsnildar; þar komu og grískar þjóðir saman til veðhlaupa og kappleika, en í tilliti til siðferðis var borg þessi einhver hin lastafyllsta á þeim dögum, so at lasti og lausIæti, er meðal heiðingja var glæpa tíðust og afguðadýrkuninni samfara, hvergi drottnaði með þvílíkri ofstæki og frekiu, sem þar. Ameðal þessara auðugu, mentuðu og fínu, en undir eins ósiðvöndu og lastafullu, bæarmanna, var það, að Páll hafði stiptað félag af Guðs og Christs dýrkendum.

Postulinn hafði verið fjærverandi frá söfnuði þessum herumbil í 4 ár, hafði á meðan dvalið Jerusalem, heimsókt ýmsa söfnuði í Asiu, og 3 ár setið um kyrrt í Ephesus höfuðborg minni Asiu, þá hann þaðan ritaði Corinthumönnum sendi bréf þetta. Tilefni þess var að nokkru leyti, að siálfir enir kristnu menn í Corinthuborg höfðu skrifað postulanum og lagt fyrir hann áríðandi spurníngar og jafnframt beðið hann náqvæmari skírslu um innihald brefs nokkurs, er hann hafði áður skrifað þeim; að nokkru leyti ávisun, er hann hafði af sögusögn feingið um óreglur þær, er tíðkuðust í söfnuði þessum. Ameðan Postulinn hafði í huga siálfr að ferðast frá Ephesus gégnum Macedoniu til Achajn að nokkru leyti til þess að safna Peninga tillögum handa kristnum fátæklingum í Gyðingalandi, og hafði látið tvo af sínum

mederfiðurum, Timotheus og Erastus, fara á undan sér, til að búa í haginn, sem henta þótti; um þetta leyti komu nokkrir af kénnifeðrum og meðlimum eins corinthiska safnaðar á fund Postulans í Ephesus, sem bæði færðu honum umgétið bréf frá söfnuðinum og jafnframt skírðu honum munnliga frá ástandi hans.

Í tilliti til útvortis kringumstæðna og ásigkomulags sýnist Corinthuborgar söfnuðr að hafa notið rósemdar og friðsrædis, eptir að þeim stormi slotaði, er hófst undir einum rómverska Jarli Gallion (Postul Gb. 18, 12 17), en oeiníng og deilur sködudi mjög safnaðarins innvortis ástand. Hann hafði skipt sér í flokka, sem kéndu sig við þá ymisligu kénnara er þeir haft höfðu, sér hvor þeirra upphafði sig, eðrum til niðurdreps; eins og Christur væri ekki einn, og allir sannleikans kénnendr væru ekki hans Lærisveinar. Þar höfðu jafnvel einn eðr fleiri falskir kennarar smeigt sér inn á meðal kristinna manna í Korintuborg er veittu bæði Pauli sjálfum og hans kenningum megna mótstöðu; til að upphefja sjálfa sig, sín inubyrludu vísindi og blómstrandi mælsku töludu þeirhädugliga um Postulann og neituðu að honum væri nokkur málsnild lient, því hann kendi Jesu Evangelium í tilgerðarlausum og óbrotnum ræðumáta er best hæfir truarbragð, anna heilögu lærdómum. Svo sýnist sem þeim

hafi þókt minkun að Christindómsins höfuðlærdómi um mannanna frelsun fyrir þann krossfesta Messias, og þessvegna að þeir annaðhvört hafi hlaupið yfir þessa fræði eðr niðrað hönum. Til vóru líka þeir sem neituðu upprisu enna dauðu, og jafnframt Jesu upprisu, á hvorri vor kristiliga trú er bygð.

Fleiri storkósligar óreglur og misbrúkanir höfðu þaraðauki feingið yfirhönd í þessum söfnuði. Einn hafði ektað stjúpmóður sína og þó var ecki sá maður er vakið hafði þvílík hneixli rekinn úr söfnuðinum. Postulans kénníngar um þið kristiliga friálerœði (nefnil. frelsi frá þrældóms ótta fyrir guði, frelsun frá Mosis reglugiörðum viðvíkiandi Frahaldi frá nautn ymisligra matvœla, o. s. frv.) misbrukuðu sumir svo miøg, að þeir undir þeirri yfirhylmingu, að afguðirnir væru ekkert, tóku þátt i offurmáltiðum heiðíngianna og þannig greiddu á ny afguðadyrkuninni götu; já, svo miøg qvað að þessu hiá sumum að þeir drygðu lesti og lostasemi i skióli frelsis þessa. Í staðin fyrir at setia giørðarmenn ámeðal þeirra kristnu meðbrœðra til at dœma um misklíðir þeirra, báru sumir mál sín i heiðinna manna dóma, að nokkru leyti til að fá því betra færi á að þrøngia at hvør annars kosti. Við tiðagiørðir þeirra voru einnin storkostligar óreglur alltíðar Enar svókolluðu kiærleiksmáltíðir, við hvoriar þeir fyrstu kristnu pløguðu, að teingia ena heilögu qvøldmáltið og til hvorra

hvor og einn eptir efnum flutti með sér mat og drykk i samkomuhús þeirra; vóru ordnar svo urkyniadar, að þær fremr voktu hatur enn kiær-leika; því i stadinn fyrir að máltidir þessar skyldu vera sameiginligar, sátu þeir ríku einir að faun-gum sínum, svo að á medan sumir lifdu i sæl-lífi og ofáti, sátu adrir matlausir og neitta ein-kis. Auk er á það vikið hvorsu lítið kristnir menn í Korintuborg gáfu gaum að þá drottnandi mei-ning manna um kurteisi, þar konur birtust þar berhofdadar á mannfundum. En annar ósidur til tídkadist þar Medal þeirra, ádur umgétnu, yfirnáttúrligu gáfna, er hinni guddómligu speki þótti naudsynlig til að grundvalla krists Kyrkiu á Jordinni, var einnin sú gáfa, að mæla framan-di túngur; en med því að þessi sem adrar þvíli-kar gáfur féllu ei alleina þeim eiginligu kénnu-rum heldr og einnin ástundum ödrum kristnum i skaut, þa var það bædi þeim fyrri og sídari leyft, þá þeir fundu hiá sér köllun til þess, að standa upp og halda rædur vid Gudsþiónustugiördina; en hégómadyrd og lyst til að syna iþrótt sina knúi di optsinnis Korintumenn til að neyla gáfunnar að mæla framandi túngumál, hvort sem þeir, sem voru viðstaddir, skildu þá edr ei; já, ástundum hreif lystinn að giora iþrótt þessa heyrum kunna þá svo, að einn gaf ei ödrum tíd til að tala út og taladi frammí; af þessu gékk ei alleina öll upp-

bregging að forgerðum heldr og ennin trubladist hin góða háttsemi og regla.

En einsog vér nú ei meigum undrast yfir, að þessar og þvílíkar óreglur og vanbrúkanir, er bréf þetta talar um, gátu fundið opinn að: gang hiá svo nýliga stiptuðum söfnuði og í svo lastafullum stað, sem Korintuborg var: svo ber oss þarhiá einganveginn leiða oss í hug, að þau klögumál, er Postulum framsetur, viðkomi giör: vollum söfnuðinum, eður meiri hluta hans, nei, að allur þorri medlima þessa kristna sambands hafi unnt Postulanum, það getum vér ráðið af anda bréfsins, er að vísu lýsir eins föðurs hug: sýki fyri barna sinna ysirsionum, en jafnframt hans trausti til þeirra barnligu hlýðnis; en sér: lagi sannfærumst vér um það, þá vér lesum an: nað bréf til Korintumanna og vér verðum þeirra verkana varir, er áminníngar Postulans giort höfðu á safnaðarins sinnislag. Innihald ens fyr: sta bréfs, er í stuttu máli, sem fylgir:

## Innihald.

Eptir þá postulaligu heilsun, géldur postulinn gudi þakkir í glaðværum anda fyrir þær marg: háttuðu heillir er korintumönnum opnaðist að: gángur til, þá þeir tóku kristna trú, og talar um sína óbyfikulu von, að guð muni frammvegis styrkia þá í framhaldi ens góða, er þeir byriað höfðu (1, 1–9). Það væri fiflsligt, að þeir

létu dragast í flokka með því að kénna sig við Pál, við Apollos (les um hann Post. gr. 18—28. 19, 1). við Kephas (Petur) eður einnin við Krist (nl. í þeirri meiníng, að þeir hefðu hans postula að vettugi) því Kristur væri einn og að það væri hans Evangelíum, sem kénnendurnir kunngiörðu (1, 10—16). Þenna sannleika hefði einnin Postulinn siálfur giört heyrum kunnugan og hverki meingað hann með veraldligri vitsku né skreytt með tilgérðarsullum skrautyrðum (einsog mótstöðumenn hans giörðu) því kristi Evangelíum þyrfti ei þesshâttar glisligs priáls við, en yrðr þaraméti giört með því viðskila við þann eiginliga kraft er það hefði í sinni hreinu einfeldni fremur allri veraldligri vitsku, á hiörtum trúaðra. Hvað hefði sú veraldliga speki fengið aðgiört til mannanna sönnu uppfræðíngar og betrunar, í samanburði við það, sem su einfalda, í Júða og Heiðíngia augum svo sáviðliga, predikun um þann krastfesta Krist, hafði afrekað. (1, 16—25)? At Korintumenn skyldu alleina renna augum sínum til þeirra eiginn safnaðar og þeir mundi ei marga finna meðal hans meðlima, er í heimsins augum væru vitir og voldugir: þat væru að mestu leyti ólærðir og lítt heidraðir menn er guð hefði útvalið til að olla þeim innbyrlúðu spekíngum niðurdreps; því með þekkíngunni á Krist hefði guð greiðt Korintumönnum vegina til

innar sønnu speki og allrar andligrar blessunar (1, 26—31).

Einsog Postulinn ekki hafdi leitad sér hegómi adýrdar med veraldligri vitsku, edur skrautligri mælsku ámedal Korintumanna; med því ad hans giörvøllu vísindi væru fólgiun í þekkíngunni á Kristo og honum krossfestum, svo hefdi hann í sínu framferdi og hegdan verid hóglátr og varkár. Hann hefdi ei med mannligri mælindis-kunst leitast við at yfirtala þa, heldur med gudi dómligum kropti, sem med Krists Evangelio hefdi samverkad á þa, til þess ad kristindomurinn ei skyldi álitast manna, heldur Guds verk (2, 1—5).

Samtsemádr var það sønn speki, sem hann og hans trulyndu medhialparar kéndu, þeim ein speki, er gátu skyniad hana; einasta var það ekki þess háttar vitska sem heimsins stórmenni og klóku siálfbyrgíngar nefndu svo: helldur sá vísdómur sem frá eylífd hófst hiá Gudi, og nú opinberadist fyrir Jesum (sú djúpsærari meiníng sem hulinn var í Mosis og spámannanna bókum) sem ekki var af mønnum uppfundinn, heldur opinberadr af anda Drottins; því enginn nema Guds andi gétr vitad Guds huldu þánka. En af þessum anda var Guds rád til mannanna frelsis medsdeilt Postulunum, er sídan kunngiørdu það sem þeim var veitt, ekki med brotafullu ordalagi helldr med einfeldum rædumáta, hvorn hinn sami andi kéndi þeim; en þá speki, er Guds andi kénnir

géta þeir einir skilið sem eru andliga sinnadir; því hann dæmir um alt (hvað trúarbrøgdunum tilheyrir), án þess að nockr annar géti verið hans yfirdómari enn sá Drottinn, hvørs andi hrærist í hønum (2, 6—16.)

Ecki átti Postulinn í Korintuborg þvílíka andligasinnaða tilheyrendur. Eins og børn hafði hann orðið að fara með þá; og að þeir voru lítt þroskaðir í andligum efnum, sýna þeir flokkadrættir, sem drottnuðu medal þeirra, og sá dáruskapur, að hvør stærði sig af sínum kénnara (3, 1—3). Fræðarar þeirra Páll og Apollos vóru eins yfirherra þjónar. Grundvøllinn hafði Páll lagt (hafði fyrstr manna boðað þeim kristna trú); Appollos hafði trúliga bygt á þennann góða grundvøll. Nú kom alt uppá það af hvøriu efni hinir aðrir kénnendur héldu áfram byggíngunni, hvert það var gull, silfur, gimsteinar (hrein guðdómlig sannindi), eða það var viður, strá, hálmr (hiegómligar, mannligar meiníngar); prófeldúrinn (hinar yfirvofandi þreingíngar) mun sýna, hvørs kyns byggíngarefnið var; þá mundu þeir fáseingilegu lærdómar ecki staðist fá, og kénnendurnir siálfir varla frelsast géta. Sá kristni søfnuðr væri heilags anda musteri, og á móti hønum syndgaði sá kénnari, sem afvegaleiddi søfnuðinn. Sérhvør kénnari ætti þá að forðast drambsemi og fáseingilega vitsku; því hún væri dáruskapr fyrir Guði (3, 5—20.) Þessvegna

væri það fávíslegt af Korintumönnum, að þeir stærðu sig af mannligum kénnurum; því kénnendurnir, eins og alt annað í heiminum, vóru einasta meðöl í Guðs hendi til að efla þeirra heillir, þeir ætti að álíta sína kénnara sem Kristi þjóna og Guðs ármenn. Af þeim útkrefdist að þeir væri Guði trúir. En um það gæti eingin að fullu dæmt, utann siálfr Guð. Korintumenn mætti þesövegna ecki láta sig leiða af Postulans mótstöðumönnum til að hlaupa á sig í dómum sínum um hann (3, 21—4, 1—5). —

Það sem Postulinn hingað til sagt hefði um siálfan sig og Apollos (af því hann vildi ecki giöra mótstöðumönnum sínum þá minkun að nefna þá á nafn), það skyldu korintumenn alíta sagt að vera um alla þeirra kénnara. Af eingum þeirra skyldu þeir stæra sig; því jafnvel þeir mest gáfuðu af þeim hefðu eckert af siálfum sér, helldr allt frá Guði. En svo liti það út, sem Korintumenn eru orðnir so lærðir og vísir að þeir ei fremur við þyrftu Jesú Postula. — Það kæmi svo fyri siónir, sem Postulanna hlutfall einasta skyldi vera djúpasta vanvirða, neyð og armóðr! (4, 6—14). Samt sem áðr skrifaði hann þetta ecki til að sneipa Korintuborgarmenn heldur til að aðvara þá, sem sá, er fremr öllum öðrum þeirra kénnurum hefði rétt til að nefna sig þeirra föður. Þesövegna hefði hann á undan sendt sinn andliga son, Timotheus, að hann

skyldi minna þá á Postulans kénslu máta, svo að þegar hann kjæmi siálfur (og að hans mótstandarar ecki skyldu gledia sig við þá von að hann ecki koma mundi), hann ecki þyrfti að neydast til að vera strángur við þá. (4, 15—21.

Korintumanna drambsemi væri því dárligri, sem þeir, eptir rikti, jafnvel sóvirdtu sofnudinn, med því að þola návist þess, sem drygt hafdi blod skomm; nú baud Postulinn þeim, í krapti þess myndugleika, sem Christur háfdi honum veitt að útiloka þennan af þeirra sofnudi; svo þótt hans líkami kynni að foreydast af sorg yfir þessu, hans sála þó frelsast mætti (5, 1—5). Stærilætið sæti illa á þeim, med því þeir ecki skyniudu, að eitt dæmi uppá þvílíkan ógudligan glæp sem blodskomm væri, hneixladi giorvallan sofnudinn; þeir ættu því að útiloka þann, sem tedan glæp drygt haldi, af þeirra samqvæmi, svo þeir giætu haldið páskahátídina med hreinum hiortum. Sendibréfið hafa þeir að líkindum feingið um páskana; og þessvegna eru ordatiltækinn tekinn af gydínganna páskahátíð, sem þeir heldu heilaga med nautn páskalambsins og enna ósyrdu brauda. — og kristnir júdar gaumgiæfdu enn þá, so lengi sem musterið stod uppi. Mosis sidareglur, (4, 6—8).

Það sem Postulinn hafdi skrifað í undangéngnu bréfi, «að hinir korintisku kristnu ecki mættu lifa í samblendi med saurlifismonnum,» væri ecki að skilja (eins og korintumenn í þeirra

bréfi hefdu vikid á), um saurlífismenn utansafnadar; því kristnir giætu ecki fordast oll mök og umgeingni med lostafullum medal gydínga og heidingia; en hans meining væri, ad þeir ecki mættu þola nokkurn uppvísann glæpamann í þeirra sofnudi. Um þá lastafullu, sem vóru utan þeirra safnadar væri Guds eins ad dæma (5, —13).

En fremur væri þad mikil yfirsión medal þeirra, ad þeir áttu smálaferlum hvor vid annann, fyrir heidnum dómstólum. Þad væri bædi kristnum óverdigt, og stór vanvirda fyrir hinn korinthiska sofnud, findist einginn svo viti borinn medal safnadarins lima, ad menn giætu sett hann giordarmann milli medbrædra sinna. Ad vísu væri þad lyti á þeim ad þeir áttu í mála þrasi innbyrdis; þeir ættu helldur ad þola rángíndi enn ad deila illdeilum. En einnin syndust þeir á medal þeirra, er létu medbrædur sína sæta rangsleyfni. Þvílíkir ættu einga hlutdeild í von kristinna manna, ei heldur þeir, sem lifdu í annars lags lostum og vommum, frá hvörjum Korintumenn vóru hreinir ordnir, þá þeir tóku kristna trú (6, 1—11).

Þeir ættu ad varast ad misbrúka hid kristilega friálsrædi til yfirhylmíngar saurugum gyrndum. Ad vísu væri þeim kristnu alt leyfilegt; (þad sem gydíngar eptir sidareglum sínum álitu óleyfit ad vera) en ecki væri allt gagnlegt edr uppbyggilegt; og kristnir menn ættu eingu

þrælbundnir að vera. Þótt það væri kristnum leyst að neyta þeirrar fæðu, er fyrirboðin var í Mósis lögum, samt sem aðr væri lángt frá, að saurlífi væri meðal þeirra hluta er að einu þætti um gylda (sem heiðingiar giörðu sér í hugarlund), því líkamirnr væru Drottni helgaðir til þjónustu, mundu verða uppvaktir af hönum, væru líkasem hans limir; þaraðauki syndgaði saurlífis maðurinn með sínum egin líkama; og kristnir menn ættu að álíta sinn líkama sem musteri heilags anda, og sv. (6, 12—20).

Hvað það spursmál áhrærði, sem Korintumenn höfðu lagt fyrir Postulann, hvört fremur bæri at meta ektastand edr einlífi, þá réði Postulinn þeim fremur til einlífis, en hverki væri það þessvegna, að hann niðraði hiónabandinu, sem væri nauðsynligt til að fyrirbyggia frillulifnað; né helldr af því, að kristnir menn skyldu álíta nockurn heilagleika í því falinn, að halda sér frá ektastands samlífi og þeirri umgeingni, sem hión eru hvört öðru skyldug um, helldur, (eins og hann síðar ítrekar) vegna yfirvofandi offókna yfirhöfuð væri það eigi boðorð, helldr velmeint ráðlegging, sem hann gæfi þeim ógiptu, er giæddir væru því bindindi; því þeir, hvörjum þess væri ej unnt, ættu að qvongast (7, 1—9).

Þaramót væri það ei hans ráð til þeirra, er giptir væru, helldur Drottins boðorð að hiónabands giörníngurinn skuli heilagur og óbrygðan-

legr haldast, svo einginn hiónaskilnadr mætti ské, (utan þá svo bæri vid sem Drottinn siálfr hefdi tiltekid). Um þad, þá kristinn hafdi ókristinn ektamaka, hafdi Drottinn eckert fastsett; en þá kéndi Postulinn, ad sá trúadi ektamaki ætti ad una vid hiúskapinn med þeim vantrúada, þá sá sídari svo vildi; því sá vantrúadi ættar medlimur væri söfnudinum teingdur vegna sameiníngar vid þann trúada; og þad gæti, líka skéd, ad sá trúadi feingi þann vantruada leiddan til kristinnar trúar. Yfir höfud ætti sérhvör kristinn ad una vid þad stand í hvöriu hann var, þá hann umvendtist, hvört heldur hann væri umskorinn edr óumskorinn; þræll eda frelsingi, og svo frv. (7, 10—24). Þegar Postulinn rédi þeim til ad vera ógyptir, hefdi hann einganvegin sagt þad í því skyni ad giöra lítid úr hiónabandinu, heldur fyrir sakir yfirvofandi ofsókna, í hvörium sá væri tvöfalt verr vidkominn, er hefir konu og hyski ad siá farborda fyrir. Yfirhöfud ætti sérhvör Kristinn því heldur ad varast ad festa hiarta sitt vid nokkurn jardneskann hlut, sem þær umbreytíngar mundu ad höndum bera, er ummyndadi útliti heimsins. Og ad hann gladur sæi, ad þeir kristnu frídust fyrir þeim mörgu hugrannum, er (einkum á þvílíkum tídum) væru ektastandinu samfara. Samt sem ádr, segdi hann þetta alleina í tilliti til þeirra eigin Gagnsemis og til ad samteingia þá þess fastara Drottni, en eingan veginn

til at leggia þeim nokkurskonar ok á herdar. Sérhver Kristinn hefdi í þessu sinn frívilja. Einúngis væri hans meiníng sú, að þeir breittu forsiállegar og sæu betur fyrir rósemi síuni, sem í þvílíkum tídum, þá þess væri kostur, veldu einlífi (7, 24—40).

Í tillti til spurníngar þeirrar, er Korintumenn þaradauki hefdu í bréfi sinu lagt fyri Postulann um það, hvørt þeim ei væri leyfiligt, að eiga motuneyti með heidingium í offur máltídum þeirra, með því þeir væru nu svo viti bornir, að þeir vissu að einn afgud væri heilagrillur einar og að einúngis einn sannr Gud væri til, þá mættu þeir varast, að verda hrokafullir af frodleik sínum og að vanrækia kiærleikans bod. Að vísu væri hiágud ecert, en þó fynduft svo breiskir í søfnudi þeirra, sem ímindudu sér hiágudi verulega að vera og sem þessvegna breittu móti samvitsku sinni, þá þeir neyttu kiøts offur dyranna. Að vísu væri nautn sérhvørrar fædu í siálfu sér leyfilig; en þeir mættu ecki brúka friálsrædi sitt þeim breisku til ásteytíngar; því þegar þvílíkir sæu, að sá betur uppfræddi neytti offurdyra kiøts í skúrgoda musterunum, þá letu þeir sig hæglega leida til, gegn betri sannfæríngu, að giøra það sama, og þannig giøra á móti samvitsku sinni og svo framv. Hvað sig siálfan snerti, vildi hann heldur aldrei neyta kiøts, enn hneixla sinu medkristinn (8 Cap.) Þeir ættu að

taka dæmi af sér, sem hefdi neitad sér um svo margt, sem hann þó bædi eins og manneskja, sem kristinn, og einkum sem postuli hefdi rétt til, svo ad hann ecki tálmadi kristindómsins utbreidslu. Jafnvel þótt hann hefdi rétt til ad neyta þess sem hann vildi *); rétt til ad gypta sig, og láta konu sína fylgia sér; rétt til ad krefjast launa af søfnudinum, og þetta sidstnefnda væri þó samqvæmt nátturlegri sanngyrni og Guds ordi: þó hefdi hann, fyrir Evangeliums útbreidslu sakir, affalad sér allar þessar krøfur og rétti (og hvørsu fremr ættu þá ecki korintumenn, at neyta sér um ad eiga þátt í heidíngianna offur máltídum, svo ad þeir ecki hneixludu þá, sem breiskari vóru)? þótt hann væri frí fyrir øllum, hefdi hann þó giørt sig ad hvørs manns þjón, med því ad lempa sig eptir heidíngium, eptir Gydingium, og eptir øllum þeim er hann umgeingist hafdi (ad svo miklu leyti sem ædri skyldur tilléttu) til ad ávinna til Jesu Ríki þess fleiri af þeim. (Hæfdi þad þá ecki Korintumonnum ad lempa sig eptir hinum breiskari brædrum)? þeir sæu med eiginn augum hve margir, til þess ad bera í vedhlaupum og vopnaleikum sigurlaun úr bytum, drægu vid sig mat og drykk og lifdu hørdu lífi; þar nú þvílíkir neitudu sér frjálsrædis síns vegna forgeng-

*) Edr máské: rétt til ad krefjast uppheldis síns af søfnudinum. Ritb.

ilegs heiðurskrands, bæri þá kristnum ekki að giøra það, til að oðlast þann óþorgeingilega (Cap. 9.) Ísraelitarnir, sem Guð fyrir hönd Mósis hefði leidt út af enu hiágudasulla Egyptalandi, gætu verið þeim Korintisku kristnu til aðvörunar, er fyrir skömmu væru sloppnir frá afguðadyrkuninni, til aðvörunar fyrir hlutteknìngu í offur maltíðu-num, af hvörju þeir á ný kynnu að leiðast til skúrgoða dyrkunar. Jafnvel þótt Ísraelitarnir forðum allir ásamt heitu aðniótandi orðið Guðs dásemdarfullu handleiðslu og yfirnáttúrlegu Velgiørninga, hefðu þó flestir af þeim verið niðurslegnir í eyðimørku, með því þeir féllu til afguðadyrkunar og laus-lætis, af því þeir freistuðu Drottins og mögluðu gégn hönum; þetta dæmi ætti því að vara þá Kristnu við afneitun kristinnar trúar til hvørrar enar hoiðu þreingíngar ennþá ekki freistuðu þeirra; og Guð mundi stýkja þá á enum bágbornari tíðum, sem læu fyrir þeim, ef þeir siálfir ekki steyptu sér í hættu (10, 1—13); það mætti þeim og auðsært þykia, að eins og þeir með hlutdeild sinni í hinni heilogu qvøldmáltíð, opinberliga meðkéndu sig að vera sameinaða Kristo; svo þætti og einnin þeirra hlutteknìng í heiðingianna hát-íðlegu offurmáltíðum að lýsa því, að þeir enn þá blótuðu goð. Það notaði þessvegna ekki, að vitna til þess, að alt væri tilltíð (allskonar fæða leifilig) — því þeir mættu ekki láta sig um

þad varda, er fridadi fyrir þeirra, sem þad er væri Náúnganum til Gagns og uppbyggíngar; allskyns kiots, er selt væri á slátrtorgum, mættu þeir annars ad ésekiu neyta (og ei sturlast af því ad þad sé af offurdýrum) samuleidis leyfdist þeim ad þyggia heimbod heidinna manna (ei til fornarhátída), heldur til géstaboda. Ef einhvor segdi: þetta er offur kiot, þá bæri þeim ad halda sér frá því, ecki þessvegna ad þeir giordu sér siálfir sámvitsku af því, helldur hins, ad hvorki hinn heidni, né breiskr kristni, er vera kynnu nærverandi, hneixludust á því. Í giorvallri breitni þeirra ættu þeir ad heidra Gud, og hvorki olla kristnum né ókristnum hneixlis (10, 14—33)

Í opinberum gudsdyrkunar samqvæmum, sæmdi þad ecki (eptir þeirra tída meiningu um kurteysi), ad konur séu berhøfdadar og kallmenn med høfudsfati Bert høfud væri teikn uppa mannsins ædri virdugleik, og høfudskylan jarteiknadi undirgéfni qvenna Og Gud hefdi siálfur í ondverdu sett manninn til ædri virdíngar sem qvinnunnar høfud og svo v. (siá Pag. 79, 11, 1—16).

Onnur stór órégla væri þad, ad þær kiærleiksmáltídir, sem helldust ásamt altaris sakramentinu ei væru sameiginnligar fyrir alla, heldur lifdu þeir ríku í óhófi medan þeir fátæku ekkert høfdu til matar. Þeir ættu ad halda þá heilogu qvøldmáltíd eptir hans fyrirsøgn, samqvæmt Jesu eigi

in innsetníngu — fordast ad vanbrúka þetta heilaga borðhald, að þeir ei með því giörðu sig strafsæka, og undirbúa sig til að neyta þess verðugliga, o. s. frv. (11, 17—34).

En hvað þær yfirnáttúrligu gáfur snerti, sem Drottins andi útdeildi; þá væri þetta einkénni á fólskum og sönnum spámönnum; sá sem andtignaði Jesum, gæti ecki verið knúður af anda Drottins, af hve stórum gáfum hann annars stærði sig; sá sem vidurkéndi Jesum Messías að vera, hann væri upplýstr af sannleikans anda. Annars væru gáfurnar og hlutu að vera margvíslegar söfnuðinum til uppbyggingar, en allar væru þær af einum sama anda. Kristi söfnuði væri eins háttað og mannligum líkama. Sá eini líkami væri samansettur af mörgum limum, og hver limur hefði sína yðju, líkamanum til þiónustunar — allir væru limirnir naudsynligir — einnin þeirra ósálitligri giæti líkaminn ecki án verið; þeir veikustu og lítilfiörligustu væru opt þeir mikilvægustu — líði einum limnum vel edur illa, svo viðurferst þeim öllum hið sama. Þannig er líka háttað Kristi söfnuði; allir kristnir eru eitt félag; séthver hlýtur sínar gáfur af Gudi, með hvörjum hann á að efla heill ens giörvalla; ymislig þörf útkrefur margbreytt gafualag; jafnvel lítilmennið og hinn gáfnaminsti eru samavæminu þarfsamir, opt naudsynlegri enn gáfumaðurinn. Sér-

hvers hagur og vanhagur verkar á hið giervalla félag. Þessvegna hefur nú Kristus, sem höfuð safnaðarins, sett þeim kénnara og þióna, sem eru margvíslegum gáfum búnir, og hverum þeirra er ymisligt verk ætlað (12 Cap.)

Kjærleikurinn er band eins kristins félags; án hans eru þær yppurstu gáfur, þit mesta afreksverk lítt nyt; kjærleikurin er höfuðskörungur allra dygða, rót alls þess sem er ágiætt og gott hiá manneskjunni; hann mun æ uppi vera; allar enar aðri gáfur og vitsmunir, sem alleina koma á jörðu þessari að notum, og ávalt mun verða ábótavant, skulu ásiðan ryma mega fyrir því, sem algiört er Trú, von og kjærleiki vara þari ámóti, og af þessum þremur er kjærleikurinn mesti ur (13 Cap.)

Létu Korintumenn sig alleina leiða af kjærs leikanum, þá mundu þeir fremur sýsast þær gáfur, er þeir giætu gagnað með., enn þær, með hverium þeir leitudu sér fáfengiligs orðstýrs, og þessvegna fremur spádómsgáfuna (líklega gáfu til að útleggia ritninguna, og bruka hana til uppbyggíngar) en túngumála vísi; því með þeirri íþrótt uppbygði hinn kristni alleina sig siálfann, en með hinni fyrrtéðu þaraðauki aðra. Postulinn unnti þeim giarnann þeirrar gáfu að mæla framandi tungur, en miklu fremur æskti hann að þeir hefðu spádómsgáfu; því hvað gagnaði það að tala þeim túngum, er nærstaddir ecki skildu og

svo fr.? Þeir mættu þessvegna ecki misbrúka þessa gáfu til skrilætis eins; vegna þess þeir með því efludu sér spotts enna vantrúudu; allt ætti til uppbyggíngar að stofnast, í ollu ætti regla að vera.

Það sæmdi ei að qvennfólk héldu opinberlitga ræður í samkunduuni. Þvilíkar reglugiørdir fyrirskrifaði Postulinn ollum sofnudum, og Korinthumenn áttu einnin að breyta eptir þeim (14 Cap.).

Jesu Evangelium áttu þeir að kénna hreint og ómeingað eins og Postulinn hefði kénnt þeim það, án þess að láta sig afvega leiða af folskum kénnurum. Hofudlærdomarnir í þessu Evangelio væru, að Kristur sé dáinn fyrir vorar syndir, og að hann sé aptr upprisinn fra daudum. Á hans upprisu væri kristinna manna trú bygð og þeirra von um betra líf. Eins og hann hefði gengið á undan sínum áhángendum inn í eylift líf, eins skyldu hans trúmenn eptirfylgia honum, endur lifgaðir við hans tilkomu (15, 1—23) Þá væri Jesu verk, sem mannkynsins endurlausnara fullkomnað; þá væru hans fiandmenn, ja, sá síðsti óvinur, dauðinn, yfirunnir; og þá skylldi það sérliga ríki, sem Jesus hefði haft yfir sinni kyrkju, gánga undir Guðs almennilegu stjórnan yfir ollum skynsomum. Án þessarar vonar um betra líf væri það til ónytis að taka skírn i Krists nafni, til ónytis að kristnir menn, einkum Postu-

hinn sjálfur, lidu svo margar ofsóknir vegna trú-ar sinnar. En þesari von ættu Korintumenn eki að láta sig svipta af skrok-spámønnum (15, 13—34)

Þeir ættu ecki að efast um uppriśu enna dauða, þótt þeir eki gætu giørt sér audsæra hugmind um þat. Það væri þó einganvegin ósskiljanlegra, enn þau náttúrunnar undur, sem þeir sæu fyrir augum sér. Þeir giætu að lita, að Guð af frækorninu, sem sáð væri í jørðina, og líkt sem dæi og rotnaði, framleiddi vexti, samsvarandi sérhvørri vaxtaríkis tegund: að hann hefir útbúið þær ótølulegu lifandi skepnur á jørðunni þeim líkamá, er samsvaraði sérhvørju kyni dýraríkisins; þeir sæu líka á himninum aðra og dýrdlegri líkami, enn þá sem væru á jørðu-niðri; og þannig mundi Guð kunna að géfa manneskjunum í upprisunni þvílíka líkami er ættu við Eylífðina. Eins og vér hér bærum hins jarðneska Adams líking, svo skyldum vér þar veiða ímynd ens himneska Jesu (15, 34—50). Paradauki væri það Postulanum opinberad af Guði, að þeir sem lífðu þegar kirstr kæmi, skyldu ecki deya, helldur mundu líkamir þeirra umbreytast svo, að þeir hæfilegir yrðu fyrir Eylifdina. Þesi dyrmæta von um eylíft líf ætti að frelsa hina kristnu frá óttanum fyrir dauða og grøf, géfa þeim djørfúng til að viðkénna Jesum fyrir heiminum, og krapt til að sýna trú

sína í góðum verkum (15, 50—58). Í hinum 16 Kapítula býðr Postulinn Korintumönnum, að þeir hafiliga greiði einum frívilugu sambur-ðargáfum veg, er hann hefði skorat á þá um heim kristnu safnaðlingum í Jerúsalem til handa, og, að tillögðum ýmsum áviísunum og áminníngi um, endar hann bréfið og qveður þá á postula vísu og með bestu ósk.

## Síðara bréf til Korintumanna.

Eptir að Postulinn hafði skrifað hið fyrra bréf til Korintumanna frá Ephesus, dvaldi hann þar um hríð með því hans þarvera þókti nauðsynlig vrra fleiri orsaka vegna. En á meðan hófst ógnarlig offókn (máské það upphlaup hvörs gétið er í Post. g. 19, 24 og sylg. þá gullsmiðurinn Demetrius uppæsti borgarskrílinn), í hvörri Postulinn nær var af dögum ráðinn. Hann dróg því nauðung til að fara frá Ephesus, og hóf ferð þá, er hann fyrir laungu hafði ásett sér, til Macedoniu og Korintuborgar; hann kom til Troas, hvar hann hugði að hann hitta mundi Titus, lærisvein sinn og meðerviðara er hann fyrr sendt hafði til Korintuborgar, til að rannsaka safnaðarins ástand; því ógiarnann vildi Postulinn siálfur heimsækja þennann söfnuð, fyrri enn hann fengi ávísun um þá verkun, er hans bityrðta bréf giort hefði á hugarfar borgarmanna. En til Troas var Titus enn þá ecki kominn; og

Postulinn heldur ahygginfullur áfram ferd sinni, i von um ad mæta honum á leidinni, yfir til Macedoniu; og eptir ad hann einnin hafdi bedid þar um hríd, einkar hugsjúkur, sem fadir fyrir börnum sínum, kémur Titus loksins frá Korintuborg og hefir góda sögu ad segia. Postulans bréf hafdi giørdt æskiliga verkan, blódskammarinn var útrekinn úr söfnudinum, og ymsar óreglur, er Postulinn hafdi í fyrra bréfi sínu klagad yfir vóru, sem syndist, lagfærdar; og hvervetna hefdi mestur þorri safnadarins medlima látid inniliga lotning og velvilja i lióst fyrir hinum fiærstadda Postula. Svoleidis huggadist hreldr fadir.

Alt ad einu var lángt frá því, ad giørvallur söfnudurinn rækt hefdi skyldur sínar; en þá sanst allmargur flokkur medal Korintumanna, er lét sig afvegaleida af Postulans mótstødumønnum, hvorra einn þykir sérílagi hafa helltr oddviti verid. Auk þeirra svipteikna, er hid fyrra bréf lysir þá þad afmálar þessa menn, verdum vér af þessu sídara bréfi þess vísari; ad þessir Postulans og sannleikans mótstødumenn vóru Gydíngar ad ætt, er hø,da smeigt sér inn i hinn Korintiska sofnud, ad nockrulepti med annara fyrirbóna bresum. Þeir bióu yfir sama hugarfari gégn Pali sem Pharisæar og Sadducæar gégn Jesu. Þeir snéru øllum Postulans ordum og verkum til hins versta. Þá hann vegna ymsra kríng-

umsláda, varð að umbreyta ferdar áformi sínu, og fara adra leið til Korintuborgar, enn hann hafði áselt sér, sögdu þeir að hann væri madur sviplyndur, er segði nú eitt, nú annað, nú ja, nú nei. Þá hann af ásettu rádi sló á frest að koma til Korintuborgar, af því hann af födurligri viðqvæmni við sín andligu börn, er vóru afvegaleidd af fölskum kénnurum, heldr vildi skriflega leitast við að leidrétta þau og gefa þeim tíma til betrunar, heldr enn í egin persónu að brúka þann myndugleika, sem Gud hefdi lénad honum til að refsa þeim; þá sögdu menn: að hann væri madur hugblaudur, sem fráverandi að vísu þyrdi að skrifa þeim skorinordt, en nærstaddur væri blautgedia; í stuttu máli þeir gripu sérhvert tækifæri til að sverta Postulan i augum Korintumanna; já þeir vóru svo svæsnir að þeir sögdu, að hann ekki væri ekta Postuli; og svo sem þeir áreittu Postulan siálfan, svo rángfærdu þeir hans lærdóm, með því, að samannblanda Júdadómi og Kristindómi.

Vér megum því ei undrast yfir þeim misMunandi anda og tón, er vér verdum varir i bréfi þessu; því ödruvísi mátti Postulinn tala við sína og sannleikans vini, og á annann hátt við rógsmenn sína og þeirra flock. Postulinn huggar og áminnir i bréfi þessu, þá ámedal safnadarins medlima, sem betur var farið og sem ángrast höfðu af hans

fyrra bréfi, med því þeir ollað höfðu sínum föðurliga lénnara óánægiu, en sem höfðu nú óþyggianlega í ljósi látið sølskvalaust ángur og betrun. Þessum mønnum vottar hann sína hiartans gledi yfir fréttum þeim, er Titus hafði sært hønum, um laungun þeirra eptir komu Postulans, um þeirra barnligu hlýðni við hann, samt þeirri virdingu og kjærleika, med hverium þeir høfðu móttekið hans sendiboða og medþjón Titus. En ødruvísi mátti hann ávarpa afvegaleidara safnaðarins, og þeirra um of audsveipu lærisveina, þar þeir vóru svo lángt frá að sjá að sér af Postulans fyrra bréfi, að þeir jafnvel høfðu giørst dyrsskufyllri og óbilgiarnari, enn áður. Nú þótti honum sem ei mætti lengur hlífast við þá dramblátu og fáfengiligu frædara, sem hann giørdt hafði i hinu fyrra bréfi. Guðs dyrð og sannleikinn útkrafði, að Postulinn forsvara skyldi sinn postulaliga myndugleik, og til þess að opna augunn' á hinum trugiørnu Korintumønnum, ef þess væri kostur, að rífa grímuna af þeim svikurum sem blektu þá. Og svo ógéðfeldt sem það var hinum hógværa Postula, i hvørs augum øll sjálfhælni var dáraskapr, já, nærstum vitleysa ein, að géta afreks sins og forþénustu, til þess að giøra hans mótstøðumanna stærilæti þess ámátligra; svo uppfrædandi er oss að lesa, hve þessi milli Postuli skírir frá, hvørsu mikið

hann hafdi afrekad, og lidid vegna Kristindóms síns. Her segir i stuttu máli frá þessa bréfs.

### Innihaldi.

Ad lokinni sidvanalegri heilsan, þackar Postulinn Gudi fyrir þá huggun, sem Jesu Evangelium hefdi sér veitt i øllum sínum þiáníngum og þreingíngum, fyrir hvørt hann var sær um ad hughreysta adra er hefdu vid likan kost ad búa. I Asíu hefdi hann nyliga vssóktur verid og þvínær af døgum rádinn; en Gud hefdi frelsad hann, einnin fyrir bænastad vina sina i Korintuborg; því þess væri hann sér medvitandi ad hann væri þeirra kiærleika verdugur med því hann hefdi synt øllum, og einkum þeim sitt hreinskilna hugarfar; svo ad þeir rétt þeinkjandi medal þeirra ecki efudust eda gætu efast um þad (1, 1—14).

Og med þvílíku trausti á þeim hefdi hann ásett sér ad heimsækja þá ádr, og komandi adra leid. En ei hefdi hann af qviklyndi edr í sáfengiligum tilgángi breytt ásormi sinn. Þeir hefdu í kénníngum hans rok fyrir því, ad ei plagadi hann ad segia eitt í dag og annad á morgun. Svo stadsøst og óbrygdul sem Jesu fyrirheit væru, svo stødug væri og hans og þeirra von á hønum, er grundvøllud væri af þeim anda, er hann hefdi veitt þeim. En Gud væri hønum til vitnis um, ad hann slegid hefdi ferd sinni til

Korintuborgar á frest til þess, að hann ecki með sinni nærveru hrelldi þá. Hann vildi því helldur skriflega finna að þeirra ávirðíngum. Óveinokað hefði hann sér við að skrifa þeim. Þó hefði bleðsleckarinn verið það, er hrygt hefði postulan og hina betri menn i sofnuðinum. En sú opinbera refsíng sem téður glæpamaðr hefði feingið, væri fullnóg, þareð hún hefði borið ávort. Þeir ættu nú að fyrirgéfa honum, eins og Postulinn hafði honum fyrirgéfið; menn mættu ei heldr vera um of stréngir (1, 15—2, 11).

Það hefði einnin allmiøg sturlað Postulann, að hann ecki hitti Titus i Tróas; En hann þackaði Guði fyrir, að hann þar, sem hvervetna, fengið hefði tækifæri til að utbreiða Jesu Evangelium, er vekja mætti qvíðafult hugboð hiá þess forachtendum, en sáluhiálplega von hiá elskurum þess. Hann væri af siálfum sér eingan vegin þessa megnugur, en einúngis væri hann sér meðvitandi að hann hefði án eigingyrnis og í flecklausum tilgángi kendt Guðs orð; þó skrifaði hann ecki þetta til að stæra sig af því; Pall þyrfti ei fyrirbeiðslu af sér né øðrum hiá Korintumønnum; óvinir hans þorfnuðust þess miklu fremur; er hefðu fært söfnuðinum meðmælabréf. Korintumenn siálfir, hverja hann hefði kristnað, vóru honum það besta hólobréf, er væri fyrir allra augum, og sem útgéfið af siálfum Krist og frv. (2, 12—3, 1—3).

Sjálfum sér eignaði hann ecki, sem ádur er sagt, dugnað sinn, heldur Guði. sem fyrir Kristum hefði útbúið hann með dug til að boða hinn nýa sáttmála, Kristinndóminn nefnilega, ecki Júdadóm, (er hans Júdasinnuðu fiandmenn samanublönduðu); því hvað væri Júdadóms boðan, þótt hann i vissum tilgángi væri hið ytra skrautligur, i samanburdi við boðun Kristindóms sins. Því hinn fyrri olli skéljíngu og dauða, og væri einúngis áqvarðaðr fyrir stutta stund lítt siðaðri þióð, er var fikin i þá hluti, er skilnfugarvitinn fysast eptir. Jesu Evangelium þarámóti, sem væri andi (meiníng og tilgángur) Mosis reglugiörda boðaði Náð, veitti líf, og væri viðvarandi. Hin skrautliga viðhöfn Mosis tíðagiörda væri að vettugi að meta hiá dýrð Jesu lærdóms; þenna lærdóm kunngiörði Postulinn einarðliga, ecki eins og Mosis, sem varð að heingia skylu fyrir andlit sér, til að hlífa Israelitanna veiku augum (og. þessi skýla lá enn yfir Mosis þá Gyðíngar lásu rit hans; því að eins þá Gyðíngar i sannleika viðurkéndu Jesum Messiam að vera, þá væri skýlan aftekin). Nei með skylulausu andliti skoðuðu allir sannkristnir Guðs dýrð i Jesu persónu, upplýstir af honum, sem væri andi Mosis reglugiörda (3. 4—8).

Af náð Guðs settir til svo mikilvægs embættis boðuðu þeir, Postulinn og hans meðþiónar, með kostgæfni og einlægni Jesu Evang-

elium ófalsad og hreint, svo þess dýrd skín fyrir öllum þeim, sem ecki væru blindadir af vantrú. En það ljós, sem þannveg útbreyddist á jördu, hefdi Postulinn ecki af siálfum sér, helldr af mætti Guds. Og svo það sæist ad Postulinn einúngis væri veikt verkfæri i Guds hendi, lægi sér sifeldt vid lifs og lima tióni, en frelsadist þó ávalt, svo eins og hann líktist Jesu á hans banastundu svo opinberadist einnin Jesu dýrdliga líf á honum. Því það, sem gæfi honum hug og krapt til ad þola allar þessar þrautir og lifsvoda væri sú lifandi medvitund, ad Gud, sem vakti Jesum frá daudum, einnin mundi uppvekja hann ásamt öllum trúudum til eylífs lífs. Vegna þessarar medvitundar áliti hann allar þiáníngar stundlegar og léttar ad vera, og frv. Ad vísu andvarpadi hann i þeim daudliga líkama; og þrádi all miög, ef ad Gudi svo þóknast mætti, ad honum mætti endast aldur til Kristur kæmi; med því hann þá, án þess eginlega ad deya, mundi med umbreyttum og forklárudum líkama flytjast til eins óforgengiligs lífs; en þetta feldi hann treystandi Gudi i hans hönd; og ámedann honum hvervetna lengdist um sitt rétta heimkynni, væri það hans einasta augnamid her i heimi, ad þóknast þeim Herra, hvørs þiónustumadur hann væri og fyrir hvørs dómstól hann og heims almenni mæta skyldu. Gudi væri það kunnugt, ad lofning fyrir hinum réttláta dómara styrdi öllum Postulans fyrirtæk-

jum, og um það vonaði hann að Korintumenn væru sannfærðir (4, 1—18. 5, 1—11).

En þetta hefði Postulinn á ny ei sagt Korintumonnum sér til hróss, heldur þeim til aðvörunar, að þeir ei skyldu dæma um kénnara sína eptir útvortis yfirburðum (t. d. af ætterni, skrautyrðti mælsku). Ef þeim máské þækti hann segia ofmikið um siálfan sig, svo væri það fyrir Guðs sakir, og segði hann minna, væri það fyrir þeirra skuld. Ei tilhvetti hann neinn hégómligur tilgángr til að boða Jesu Evangelium. Nei, einasta þacklátsemi við hann, sem gaf sig út, fyrir alla, knúði sig til að kosta ollu til fyrir hann. Hann hefði því eingan augastað á utvortis kiorum þá hann dæmdi um aðra. Allt hið gamla (gydinganna innbyrludu yfirburðir) væri liðið undir lok. Allt væri fyrir Kristum nytt orðið, hvor með sinum eiginn dauða hefði sætt alla, sem syndara, (svo Gydínga sem heiðingia) við Guð, og sem hefði á hendur falið sér og sínum medhiálpurum boðun þessarar sáttargiörðar og svo frv. (5, 12—21).

Í krapti þessa embættis, sem Guðs og Kristi sendiboði, áminnti Postulinn Korintumenn, að þeir ecki skyldu láta þessa Guðs Náð, sem á svo hagqvæmum tíma var þeim i skaut fallinn, verða þeim að ónytu; til þess upporfaði hann þá, sem sá maður, er af trulyndi við Guð hefði liðið svo mikið fyrir þá; er væri sér hins hreinskilnasta tilgángs meðvitandi; sem i ollu vanrikti, ollum

lífshættum, í allri neyð og óbyrgð, byggði sína einustu von og huggun á Jesu Evangelio. Hiarta sitt opnaði hann hér fyrir sínum kjæru Korintu-búum; þeir ættu þvílíka að gefa hönum rúm i þeirra hiörtum; yfir alla hluti framm bad hann þá að forðast afguðadýrkan; (og því einnin þær heiðnu offur máltíðir) því hiágudir og Kristin-dómur ættu ekkert hlutskipti samann; þeim bæri með öllu að skiliast við afgudadýrkarana, þareð þeir siálfir væru Gudi og Jesu helgað fólk. (6 Cap. og 7—1.)

Hann vonaði að þessar hans áminníngar finna mundu aðgáng hiá Korintumönnum: hann hefði þó (i það minnsta) ecki afsegalreidt né dregið neinn á tálar; ecki segði hann þetta til að ávíta enn betri menn i söfnudinum, þverámóti væri hann sín Glédi og huggun; hann hefði hrest sig sorg mæddan i Macedoniu, með þeim gledilegu tidind-um er Titus færdi hönum. Að vísu ángraðist hann yfir því, að hann með sínu fyrra bréfi hlaut að hryggia þá; en þessi hrygð, sem væri eptir Guði, hafði dýrmæta verkun; hann hefði skrifað bréfið ecki svo mikið fyrir þess skuld, sem rángindi (blodskömm) drygt hafði, edur fyri þess sakir, sem leið rángindi (líkliga sérhvor góður madur i söfuudinum, edur Postulinn siálfur), sem þessvegna, að hans vandlætíng fyrir söfnudinum opinber yrði. Þessi tilgángur væri uppfylltur.

Badi Postulinn og Titus gleddust af bréfsins gódu verkunum (7 Cap)

Hinir tveir næstfylgiandi kapitular tala um Collectuna (samburdar peníngana) handa Kristnum fátækíngum i Jerusalem. Pessir samburdar peníngar voru allareidu safnadir af þeim kristnu søfnudum i Macedoniu, og þad med stærstu velvild og giafmildi, þótt þessir sefnudir væru sára fátækir. Postulinn hælir nú þessu fagra eptirdæmi fyrir Korintumønnum og ødrum søfnudum i Achaja, og bád med því stærra trúnadartrausti, sem þeir allareidu árinu ádur hefdu trúliga fylgt ad þessu máli, eins og þeir væru fyrir ødrum sefnudum um marga hluti. Pessvegna hefdi hann sendt Titum med ødrum verdigum bródur (máské Lucas) á undann til Korintuborgar, svo tillagginn gætu verid af hendi leyst, þá Postulinn siálfur kiæmi, og bad svoleidis, ad hann þyrfti ecki ad verda sér til minkunar fyrir þeim Macedóniskú kristnu, fyrir hverjum hann hrósad hefdi gódvilld Korintumanna. Annars setiast i bádum Kapitulunum oss fyrir siónir sannkristiileg gódfysi, samt kreptugleguftu áfysíngar til velgiørda (8di og 9di Cap)

I eptirfylgiandi hluta brefsins, snyr Postulinn rædu sinni til øfundarmanna sinna, og þeirra medlima safnadarins, sem høfdu látid sig á tálar draga af þeim. Peir báru uppá hann (sem vikid

er á (inngánginum) að hann, meðal annars, væri maðr huglítill er einasta fiærstaddur i bréfum sínum værí myndugur og bitur, en nærverandi þyrdi ecki að brúka sinn myndugleika. Postulinn bidur inniliga þá afvega leiddu Korintumenn (því að betra þá, sem þá hefði vélað, hefði hann einga von um) að þeir þó ecki vilðu neyða sig til að syna hann myndugleika sem Guð hefði sér géfið, til að ressa þeim þrióskufullu. Væri hann sem manneskja breisker; þá væru þó hau vopn, hann bæri, ecki veik, það væru sannleikans vopn, nægiliga sterk til brots hervirkja lygi og siálfhælnis, er óvinir hans giort hefði Jesu hreina lærdómi. Korintumenn mættu því ecki láta hina útvortis ásynd blekkia sig og srv. (10, 1—11). Að vísu hefði Postulinn ei hug til að hæla sér af því, er hann ei hafði afrekat (það giørdu þó hans mótstødumenn, er sléttu sér inní hans embætti i þeim søfnudi er hann stiptað hefði). Hann mældi sig einasta með sínum egin qvarða. Og nær hann hrósaði sér af að vera stiptari hins Korintiska safnaðar, hefði hann að vísu satt að mæla. Korintuborg væri á meðal þeirra heinum af Guði ávísuðu staða hvar hann grédursett hefði Jesu Evangelium; já, hann vonaði ennþá, þa trú Korintumanna væri rótfest orðin, að hann, eptir som Drottins køllun, mundi flytia þenna gleðiboðskap lengra hinu megina þeirra; en því síður vildi hann heldur hæla sér af þessu, sem það i

rann réttri ei væri hans heldur Drottins verk (10, 11—18).

Það væri þætti honum einber dáraskapur að hæla siálfum sér. En Korintumenn yrðu að virða sér það á hægri veg, þareð hans óvinir neyddu hann til þess; honum var þúngt i skapi, að siá þann sofnuð, hvørn hann samtengt hefði Kristo, af svikurum að dragast frá honum og hans hreina lærdómi. Hann visti þó ecki, i hvørju hann var þeßum svo vegsamligu (siálfs-giörðu) Postulum minni, nema það væri ysirsión sín, að hann hefði boðað Korintumønnum kristna trú, án þeß i minsta máta að vera þeim til þyngsla, ja, hefði jafnvel þegið styrk af øðrum sofnuðum, til að hlífa þeim. Þó hefðu óvinir hans einnin útlagt þetta sem merki uppá kiær-leiksleysi hans til Korintumanna. En Guð væri hans vottur, að hann einúngis hefði giört það, til að tálma aðgáng hinna trygðarlausu kénnara, er komið hefðu að eins til að lifa á þeirra kostnað, og, þótt þeir væru lyginnar spámenn, kølluðu sig Krists postula. Hann vildi nú giøra samjøfn-uð millum sín og þeßsara fáfengiligu skrumara, en samt mættu Korintumenn ecki álíta þeßsa hans afneyddu siálfhælni að vera dáraskap, eða ysir höfuð, heyra hann sem hann heimskíngi væri; þó þeir liðu fúsliga heimskíngia, þareð þeir væru nú svo vitrir orðnir, já, svo þolinmóðir, að þeir

léti sér lynda að þessir nybreytnisfrædarar hefdu þá að hádi og spotti, sésletti þá, já slægu þá á munnin, sá myndugleiki, sem Postulinn, sér til hneisu, mætti játa, að hann ecki hefdi viljað brúka! (11, 1—21).

Nú fylgir samjøsnuðuriun, með hvorjum Postulinn synir, að einnin þá útvortis yfirburdi, er hans óvinir stærdu sig af, hafdi hann sameiginlega með þeim. En i tilliti til sannrar forþénustu, þess verks er hann fullgiørt hefdi, þeirra misþyrmínga er hann fyrir Krists sakir liðið hefdi, þeirra lífs hætta, hann hefdi ratað i, hans dagligu og margvíslegu áhyggju fyrir Kristindóms sins málefni, yfirgengi hann svo miøg þessa hégómaligu dára, að eingum samjøfnudi mætti við koma 11, 2 —33. Miøg ógiarnann vildi Postulinn hæla siálsum sér; því þá mætti hann géta þeirra sióna og opinberana, er Drottinn hafdi virdt hann (ámeðal hvorra hann gétur einkum þeirrar, sem bar fyrir hann fyrir 14 árum). En svo hann ecki stærdi sig af þessum yfirnáttúrlegu opinberunum, hefdi Guð lagt á hann stóra (oss ókunna) plágu, er minna skyldi hann á sinu breiskleik, og kénna honum að géfa Guði dyrdina yfir alla hluti fram. (12, 1—10).

Korintumenn hefdu giørt illa i því, að þeir neyddu hann til þess, sem i hans augum var dáraskapr, að hæla siálfum sér; hann hafði þó með furduverkum sannað sitt postulega embætti

medal þeirra. Í eingu hefdi hann giørt þeim fremur ájveigt enn ødrum søfnudum, nema ef það væri óréttur kalladr, að hann ei hefdi verið þeim til þyngsla. En þannig ætladi hann framvegis að breyta, þaved hann ecki gyrntist audæfa þeirra, helldr þeirra sálar heill Þeir gætu helldur ei sagt með sanni að hann fyrir Titus hønd edar annara hefdi plægt þá. Þetta ítrekadi hann ecki siálfum sér til forsvars, helldur einasta fyrir Guðs og Krists sakir, þaved hann væri áhyggiufullur af því, að hann, þá hann brádum heimsækti þá, mundi finna flokkadrætti medal þeirra og þeirra ógæfusamligu verkánir (12, 11—21).

Það væri nú í þridia sinni, að hann hefði áfett sér að heimsækia þá. hann bædi þá því inniliga að betra ráð sitt, að hann ei þyrfti að vera svo strángur við þá, sem hans postula-embætti gæfi hønum fullrétti og makt til. Í stadinn fyrir að æskia fleiri rokfemda um, hvørt hann væri postuli eda ecki, ættu þeir helldur að prófa siálfa sig, hvørt þeir eunþá væru kristnir edr ecki. Naudigur olli hann þeim ucins ills; og helldur vildi hann, med því að hlífast við þá, tilfæra eina rokfemd minna til að sanna að hann væri ekta postuli; ef að eins þeir mættu finnast sann kristnir að vera og svo. Bréfið endar hann med óskum fyrir þeim og qveð,u.

## Skíríngargreinir yfir bædi bréfinn til Korintumanna.

Gaumgiæfinn lesari mun brádum verda þess var ad mikill hluti innihallds þessara bréfa midar til ad bæta hag enna fyrstu Kristnu, til þess, er vidvék sérligu asigkomulagi safnadarins i Korintuborg, og sem sérílagi þótti henta á þeim tídum, t. d. hvad skrád er um offurmáltídir, um þad er sæmdi i útvortis hegdun á mannfundum kristinna manna, um þær kiærleiksmáltidir, er voru samfara qvøldmáltídinni; um hinar yfirnátturligu Gáfur, Postulans forsvar móti ofundarmønnum sínum og fleira: en hvørnveg, einnin þessi hluti N. T. géti verid til sannrar og mikillar uppbyggíngar á øllum øldum a þad er vikid ad undanfornu. Ad ødru leyti eru bréf þessi audugir fiársiódir af ævarandi sannindum, er á øllum øldum má vid hafa og ad nøkkru leyti eiga svóvel vid á vorum døgum, sem þau nyliga væru ritud. Er ei á vorum døgum þørf á mørgum af þeim advørunum, er þar standa, vid lauslæti, vid falskénnúrum, er rángsnúa Jesu kénníngum, og vid misbrúkun heimsligrar vitsku til nidrunar hinni himnesku speki, o. s. frv. Og veitir ei ollt, hvad i þessum bréfum stendr, þá óvartarsømustu, og á øllum tídum haggvæmustu ródurnærsng trúnni, voninni, kiærleikanum? t. d. þad sem i þeim stendr um hinnar heiløgu qvølldmáltídar veraldligu nautn, um kiærleikan,

sem er band, hins kristiliga samfélags, um kristinna manna mikilvægu von, og þann óbifanliga Grundvöll, er þessi von er bygd á, um það hvörsu kristindómurinn er Júdadomi fremri, það er sennudur og kennarar eru hvör ødrum skyldugir um, um ávøxtina af Jesu dauda, um hið sanna ángur syndanna, um góðverk við fátæka, um Páls føðurlega hugarþel við þá søfnudi er hann stiptað hafði, hans óttalausu siálfsafneitan fyrir Kristi sakir, hans djørfung að standa framm fyrir óvini sína, og vitna til þeirra kraptaverka, sem giørd vóru i allra augsyn og framv. En til að finna og nota þessa sálarfæðu, þarf lesarinn eingann annann leiðarvísir, en egin þørfnun til hennar, er hann siálfur finnur til.

Vér viliun þá einasta vikja á einn og annann stað i bréfum þessum, sem hættast er við að misskiljist. Þegar Páll 1 Cor. 2. varar við mannlegri vitsku, edur veraldligri speki og málsnild; þá hafa sumir skilið hans orð svo, sem hann hefði alla þá fræði að vettugi, sem leidd væri af annari uppsprettu, enn heilagri ritningu, og útilokaði alla málsnilld frá kristiligum kénningum. En vér gétum vissast komist að raun um af Páls eginn dæmi, að það var ecki hans meining; því bæði bendir hann oss, eins og Jesus giørði, til náttúrunnar, sem uppsprettu þeckíngarinnar á guði (siá Røm 1, 19—20. 2, 14. 15.) og einnin lysir hann því i bréfum sínum,

að hann ei alleina var kunnigur Mesíts og spá-mannanna skrifum, helldur og líka hinum heiðnu rithøfundum (Tit. 1, 12. Postgb. 17, 28.) Og hvernin gat fá maðr fyrirdæmt sanna málsnilld, hverri hann, sem hans egin bréf syna, var svo forkunnar vel giæddur? Alleina sú rángt svokall-aða vitska, sem upphrokar, ístaðinn fyrir að upp-byggia; sem giorir manneskjuna ofvitra yfir það sem skrifað stendr; sem, eins og hann qveður að orði (1 Cor. 1, 17 fylg.) spottast að því að byggia trú sína og von á þeim kross festa Mesí-as — það er sú veraldarspeki sem Páll fyrir-dæmir. Og eins litið er það hin sanna málsnilld, er flytur frá hiartanu, helldr sú viðhafnarfulla, er með orðaprjáli og þekta skrautyrðum formyrk-var Jesu einfallda lærdóm, sem P.ll vill að trúar-bragðanna kénnarar brúki. En þvílík mælska og heimsspeki tíðkaðist á Páls døgum; og er enn all þeckjanleg í margra dára tæðum og ritum.

Af 1 Cor. 6, 7. hafa menn viljað sanna, að það gæti ecki verið samqvæmt þeirri hreinu kristi-legu dygað, að sækja rétt sinn fyrir borgara-ligum dómstólum. En einnin í þessu, gétur Páls egið dæmi verið orðum hans til upplýsingar Því nær hann siálfur optar enn eitt skipti (t. d. Postgb. 16 36.-38. 22, 25) sókti rétt sinn, hvernin gat hann þá viljað, að sérhver Kristinn skyldi í hverju tilfelli falla á máli sínu, þó rétt væri? en þá vér lesum téðan stað í samhengi með því und-

angengna og efterfarandi, Þá siaum vér, að Páll vill einasta að kristnir miklu fremur óttist að giøra órétt, enn að líða órétt, og að þeir því, í tvíſynum málum heldur þoli óréttinn enn með málasóknum hætti á að gánga á hluta náúngans. Þetta er ecki heimskins siðvani; enn það er bæði Krists og Páls kénníng og væri hugarfar almennings samqvæmt þessari lífsreglu, mundu einnin málaferli, sem optast eru bæði óviturlig og óvinsamlig, minna tíðkast meðal Kristinna manna Þá Paulus annars (6, 1 eptirf.) ávítar Korintumenn fyrir það, að þeir sóktu mál sín, fyrir dómstólum heidíngianna; er það auðsært, að það ecki, án undantekníngar, gétur átt við vorar tíðir, þá kristinn yfirvöld klæða dómstólana. Einasta á það við allar tíðir, að það er betra að láta siálfvalda skynsama giørðarmenn skéra úr þrætum, enn í lítilfiørlegum málum að krefiast strax yfirvaldsins úrskurðar.

Sá 7di Kapituli fyrra bréfs má allur lesast með tilliti til tíða og kríngumstæða þeirra i hvørjum hinir fyrstu kristnu vóru staddir. Postulinn fyrirsá, að harðar afsóknir læu fyrir þeim; og einúngis þessvegna réði hann þeim ógiptu, ef það stæði i þeirra valdi, að lifa heldur ógiptir enn giptir. En ver eigum að géfa giætur að, með hve stórri varkárni hann ráðleggur þetta, hve viturliga hann aðgreinir siálfs sins meiníngu frá Drottins skylausa boði (1 Cor. 7, 6. 10. 12. 35.

40); og hve n.´qvæmliga hann leitast vid ad fyri• byggia hann misskilning sinna orda, ad hann álíti þad nockurn sérligan heilagleik, ad qvongast ei. Og ver skynjum þá létt, hve mieg þeir fara á mis vid Postulans ongnamid, sem meina sig ad finna i þessum Kapitula hrós múnkalifnadar og nidrun hiónabandsins, sem þad væri sidur heilagt enn einlífi; þad er sú meining, sem postul: inn i sínum seinni bréfum alvarliga mótsegir (1 Tim 4. 3).

Sá fagri stadur, (1 Cor. 9, 19—22), hvar Páll segist, sem kénnari, haga sér eptir ollum þeim mannesskjum, sem hann umgékst, hvort þad væru gydíngar eda heidíngiar, svo hann leiddi þess fleiri til Kristinndómsins; i þessum stad hafa menn ástundum þókkst finna medmæli þeirra, er þykiast allra vinir og eru eingum trúir, styggia eingan, og eru hálfvolgir i Gudsdyrkun sinni og skyldu• verka nöfum. Hve fiærlægt þetta lundarlag verid hafi Pauli, synir og sannar hans giorvalla líf• erni, er var sífelld barátta vid sannleikans fiand• menn. Samhengid synir, ad hann hér med sín• um vanaligu kroptugu ordatiltæ*jum útmálár þá siálfsafneitan, med hvorri hann sumpart afneitadi eigin gagnsemi og blídari kiorum og sumpart i lítt áríðandi efnum lempadi sig eptir gydínga og heidingia breiskleik, ad hann ecki legdi neina hindrun i vegin fyrir Kristindómsins útbreydslu. Þegar t. d. trúarbragda kénnarar neita sér um

jafnvel saklausa ánægiu, svo þeir ecki olli þeim breiskara hneixlunar, þá lísa þeir eptir þessum dýrmætu grundvallar reglum er Postulinn hér framsetur.

Eins litid fær fáfengilig, og illa tilfallin siálfhælni medmæli i Postulans afneyddu forsvari, er var svo vel grundad, og finst hér og hvar í þessum bréfum, einkum i seinna bréfs seinasta Kapitula. J inngánginum er þess gétid, hvorsu Postulinn var neyddur til, ad skrifa frá eigin forþénustu, til ad efla sannleikans ordstyr, þótt hann i raun réttri ei væri siálfhælinn. En eins og allir hégómligir skrumarar, er svo fúsliga tala um siálfa sig, mega fyrirvirda sig, þá þeir siá, hvørsu naudigur þessi afbragsmadur sannarliga grípur til þessarar honum þúngbæru skyldu, ad leida i ljós sínar forþjenustur; ei sídur lærdómsríkt dæmi géfur Postulinn þeim hreinskilninnar elskara, sem verdur ad færa sannleikanum þvílíka fórn. Því eins og eingum hefir verid þad ugud ynlegra ad hæla siálfum sér enn Páli i þetta sinn, svo hefir einginn talad um þetta efni, sem er hinum háværa svo þúngbært og vidbjódsligt, hvorki med stærri audmykt fyrir Gudi né med hæverskari varsemi, enn þessi mikli Postuli

Hid annad af innihaldi þessara bréfa, sem vera kynni lesaranum þúngskilid, er ad undann förnu umtalad, vid a nad tækifæri.

## Bréfid til Galata.

### Inngángur.

Þiódarnafnid, Galatar, báru ei innbúar einstakrar borgar, heldur þiód nokkur, er bygdi ríki þat i litlu Asíu, er Galatia hét. Þeir vóru i ondverdu heidíngiar er Páll siálfur, (sem 1 Kap. 6—12 v. lysir) kristnadi. En nær hann þat giørt hafi, þess finst hvorgi skilmerkiliga gétid i Post. giørninga-bók; nema Galatar séu þeir, sem Lucas talar um, en kallar ødrum nøfnum, i tédrar bókar 13da og 14 Kap. Sumir hafa fyrir satt, ad undir nafninu: Galatia, skiljist ríki þau, er Pisidia og Lycaonia hétu, i hvorium vóru borgirnar Antiochia, Iconíum Lystra og Derbe; og ad þeirra innbúar ad minsta kosti verid hafi ad nokkru leyti þeir sømu, er i þessu bréfi kallist almennu nafni, Galatar. Sé þessi meining, sem á gódum grundvelli er bygd, sønn, þá finnum vér á tédum stad skilmerkiliga frásøgu um umvendun þeirra til sannrar trúar. Þad eru þá þeir, hvorium Páll á kristnibodsferd sinni frá Antiochia á Syrlandi, ásamt Barnabas, bodadi kristna trú og hiá hvorium hann fékk fagnadarfullar vidtøkur, en fyrir hvørra sakir hann og lída mátti hardar ofsóknir og misþyrmíngar af hinum vantrúudu Judum.

En hvort heldur þad er um Galatana, ad þeir tóku kristni, er vér finum hiá Lucas i letur fært á tédum stad, edur ei, þá er þad þó audsætt af siálfu bréfinu, ad þeir i fyrstu numid høfdu Jesu

óspilludu kénníngar af Páli, og þótt það fagnaðarsæla giæ'u vera fyrir sig; en einnin verdum vèr þess vísir, að hörmuliga hafdi breytst andligr hagur þessara safnaða. Í Galatia bíuggu nl., sem hvervetna allmargir Gýdíngar, medal hvørra nokkrir høfdu að visu tekið trú á Jesum Messias, en einnin meingað trú þessa med øllum þeim hleypidómum, er áttu heima hiá ættþióð þeirra, sem oss er kunnugt af undangángandi bréfum. Og jafnvel þótt søfnudirnir i Galatia væru að mestu leyti umvendtir heidíngiar, høfdu þó margir af þeim, ef ei flestir, verið, ádur þeir tóku kristni, Proselytar (nybærfngar i trúnni) þ. e. þeir høfdu tekið trú á einn Guð og meir edur minna hátt hlutdeild i tídagiørdum Júda. Af þessari sameiníngu, er þeir høfdu ádur verið i med Júdum, er þá hægt að skilia, hve miøg gydíngar, er kristnast høfdu, gátu haft svo mikið að segia medal medbrædra sinna, er heidnir verið høfdu, að þeir gætu neydt edur laumað uppá þá oki Mósis reglugiørda. Annars megum vèr ei ímynda oss, að þessum júdadóm ræktiandi kristnum hafi hvervetna verið eins illa farið. Sumir vóru, (sins og bréfið til Rómv. 14, 1 fylg. lýsir þeim) alleina breiskir og ólu hugraun um matvæla val, o. s. frv. og við þvílíka rædur Páll þeim kristnu, sem betur væru viti bornir, at hafa umburdlyndi eptir sínu eigin dæmi. En ámedal Galatiumanna voru sumir þessara verstir og líktust Pharisæum að lunderni.

Svo mjög héldu þeir Mesis lögmáli fram, að þeim tókst að innbyrla hinum trúgiörnu Galatiumönnum, að ei mundi þeim sáluhiálpar auðið, ef þeir ei létu umskérast og hlýddu ei að því skapi öðrum Mesis lagasetníngum.

En ætti þess auðið að verða, að hrinda þessu oki á herðar Galata, þótti þeim nauðsyn tilqveða að niðurdrepa hins sanna friálsræðis kénnara, Páls heiðri. Þeir qváðu hann ei vera sannan postula; með því hann hvorki hefði sem Petur, Jacob og Johannes, umgengist Jesu hér á jörðu né heyrt hans kénníngar, né séð hans dásemdarverk. En þó hefði hann dyrfst að rángfæra lærdóma hinna sönnu Postula (svo sæsin var lygi þeirra og, gagnstæð allra Postulanna samhlióða samníngi, er lesa má í Post. g. Bok 15 Kap.) með því, að hann, alleina til að ávinna sér mannhylli, qvað heiðíngia fría vera frá þúngbærri hlyðni við Mosis lög. Svoleiðis kostuðu þessir svikarar kapps um að lokka Galata frá Páli og Jesu hreina lærdómi, og Galatar vóru svo óhyggnir, að lána fortölum þessum eyru.

Með því að tilraunir þessar ei miðuðu til minna, enn að umminda Kristinndómin i nýan Júdadóm, þá gaungum vér úr skugga um, því Páll lætur svo alvarliga vandlæting i lióssi i bréfi þessu, sem er eitthvört hið bitrasta frá hans hendi. Ef Galatar ei skyldu fyrirsaia sínu trúnaðartrausti á honum, sem Postula Drottins, varð

hann ad sanna at hann hefdi þad Evangelíum, er hann bodadi, frá Drottni, en ei frá mönnum, og ætti Jesus-, sem mannkynsins frelsari ei ad verda honum gagnslaus, var naudsyn á, ad þau atridisord sonnudust: at menn ei med hlydni vid Mosis logmál réttlættust fyrir Gudi, heldur fyrir trúna á Jesum Krist. Þessi sannleikans atridi forsvarar Postulinn i þessu bréfi, hvors inntak er i stuttu máli, sem fylgir.

## Innihald.

Eptir ad Páll hefir á Postula vísu heilsad þeim (og strax vikid á þau atridi, er hann sídan útlystar, nl. sína kollun af Gudi og Jesu endurlausn) lætur Páll undrun sína í liósi yfir því, ad Galatar svo brádliga hofdu látid sig afvegaleida frá Jesu óspielludu kénníngum, er hann hefdi bodad þeim og lysir bolvun yfir þeim er folsudu Jesu lærdóma (1, 1—10). Til þess ad færa rok til, ad kénníngar hans ei væru komnar af mannligum, heldur guddómligum uppruna, segir hann þeim stuttliga frá lifssogu sinni, af hverri var andsært, ad hann var vandlátur Pharisæari og var af Gudi kalladur til Krists Postula og ad hann sídan hvorki hefdi rádsært sig vid hold né blód (vid mannesskiur), né numid nokkud af hinum odrum Postulunum, þar hann, sem optast hefdi lifad i fiarlægd frá þeim (1, 10 - 24.)

En til þess enn fremur ad sanna, ad sá af

honum bodadi lærdómur væri samhljóda hinna Postulanna kénníngum, minnist hann á þad, ad hann, þá hann fyrir falsbrædranna (júdasinnudu kristnu) sakir, er kúga vildu þá nyumvendtu heidíngia til umskurnar i Antíochia (s. Post. g. 15 Kap.) hafdi giört ferd sína til Jerúsalem, og þá útlistad fyrir þeim ypprurstu medal Postulanna (Petri, Jakob og Johannesi) þann lærdóm, er hann kéndi, og hefdu þeir verid honum samdóma um ad ei mætti þvínga Heidíngia til ad umskérast, edur ad rækia adrar reglugiördir Júda. Ecki hefdu heldur þessir ypparligu Postular bætt neinu vid hinar kénnínqar, heldur hefdu þeir bródurliga giört þad aftal sín á millum, ad ámedan þeir bodudu Júdum rétta trú, skyldi hann og Barnabas umvenda Heidíngiunum; alleina skyldu þeir ala önn fyrir þeim kristnu fátæklíngum i Jerúsalem; hvad og Páll trúliga giört hefdi (2, 1—10.)

Um þad væru þá ei sídur hinir Postularnir, enn hann fullvissir, ad Mósis lög ei séu Heidíngum til eptirbreytnis ritud. Ad vísu hefdi Petur i eitt skipti, um skamma stund, afneitad þessari sinni betri sannfærríngu, þá hann i Antiochia hafdi; af ótta fyrir júdadómsins vandlæturum, skilist vid þá Kristnu, er heidíngiar verid höfdu; en þá leiddi Páll honum fyrir siónir yfirsión hans og brýnt fyrir honum, ad þeim bæri bædi i framferdi og kénníngum ad afmá allan mismun milli kristnedra Júda og kristnadra Heidíngia; med því ad

allir Postularnir væru á það sáttir, að syndararnir eki fyrir hlýðni við Mosis løg, heldur fyrir trúna á Jesus Krist réttlættust fyrir Gudi. Annars giørdu þeir Jesum að syndarinnar þénara, ef þeir með eigin dæmi sønnuðu það synd að vera, að skeyta ei um Mosis løg, er Jesus með sínum dauða hefði afmáð. Hvað sig siálfan snerti, áliti Postulinn sig dáinn með Jesu, frá því forna løgmáli, en lifa nú alleina því nýa, því kiærleikans og þakklátseminnar løgmáli, er sameinaði hann Jesu er hefði géfið siálfan sig út fyrir hann. (2, 10—21.)

Viturt ávítar nú Postulinn Galata fyrir þann darasskap, að þeir hefðu látið vondra manna fortølur afvegaleiða sig frá þeirra fyrstu svo hiartnæmu trú á hinn, fyrir þá, krossfesta Jesum; þar þeir mættu þó vita, að þeir ei fyrir hlýðni sína við Mosis, heldur fyrir trúna á Jesum hefðu hluttakandi orðið í heil. anda yfirnáttúrligu gáfum; og þar Abrahams dæmi gæti frædt þá um, að syndarar ei á annan hátt giætu réttlætst fyrir Gudi, Heidíngiar ei orðvísi orðið Abrahams børn eður fengið hlutdeild í þeirri blessan, er Guð fyrir Abraham kunngiørði øllum þióðum, enn fyrir trúna; því Mosis løgmál lýsti bølvun yfir sérhvørn, er ei ítarliga uppfylti það (og það gat einginn) og frá þessari bannfæríngu giætu syndugir menn alleina frelsast fyrir hiartgróna trú á Jes-

um, sem með því að neglast á eitt krosstré, hefði likt sem tekið uppá sig bannfærínguna (3, 1—14.)

Postulinn upplýsir nu það, sem hann hingað til sagt hefir, með dæmi, teknu af því dagliga lífi. Plöguðu ei einusinni manneskiur að rifta eða breyta friðhelgaðan samníng; hvornin gæti Guð þá með hinum seinna útgéfnu Mósis lögum riftað þau fyrr géfnu fyriheit er hann gaf Abraham um þá blessun, sem skyldi öllum þióðum í skaut falla fyrir hans Afsprengi, Krist? En fyrir það væru þó Mósis lög hvorki gagnslaus, þar þau þvertámóti væru nauðsynlig til að reisa skorður misbrotum; og heldur ecki samqvæm Guðs fyriheitum. Nei þau væru alleina ónyt og maktarlaus til að friðþægia syndarana við Guð; en allir eru, sem ritningin segir, syndarar, og géta að eins fyrir trúna á Jesum hólpnir orðið. Mósis lög hefðu þá alleina verið uppfósturs-reglur handa heimsins bernsku aldri, og nauðsynligar til að halda Júdum i aga (frá afguðadyrkun), uns heimurinn gat þolað hið skiærara liós, er fyrir Krist skyldi upprenna öllum þióðum, og afmá allan mismun millum gyðínga og heidinna þióða, o. s. frv. (3, 14—29). Nú væri sú tíð komin, þá mannanna æðsti fóstursaðir, Guð, ei lengur vildi að hans börn, bæði Heiðíngiar og Júðar, skyldu ómyndugir standa undir kúgun Mósis laga, eðr bera ok heiðinna siðaregla; heldur skyldu þeir allir, sem myndigir, fá fullt frelsi fyrir Jes-

um. Fíflsliga hefðu Galatar farið að ráði sínu, þá þeir nú upplýstir um og af hinum sanna guði, gengu nú á ný undir okið og snéru aptur til eptirbreytnis þeirra siðaregla, er heimsins æsku skeiði að eins voru ætlaðar, og svoleiðis færu á mis við ávextina af Postulans atburðum meðal þeirra (4, 1—11). Galatar ættu að líkjast honum, sem ei hefði breytt sínu hiartalagi til þeirra, en elskaði þá eins mikið og áður, og eins og þeir fyrrum hefðu unnt honum. Þeim væri það fullkunnugt, hvað hann hefði liða mátt fyrir þeirra sakir og hve mjög þeir þá virðtu hann og elskuðu. Þessum kiærleika vildu Mósis laga vandlætarar firra hann, svo að þeir einir giætu virktum náð og áliti hiá þeim; því mætti hann nú á ný, eins og jóðsiúk kona, líða hina sárustu hugraun fyrir þeirra skuld, að þeir hversu vildu aptur til Jesu, o. s. frv. (4, 11—20).

Postulinn færir enn fremur rök til þess, hversu litt þeir, er þvínga vildu logmalinu uppá Galatinumenn, skildu logmálsins (Mósis bóka) anda. Jafnvel þótt Abraham hefði átt 2 sonu, annan með ambáttinni Agar (nl. Ísmael) og annan með friborinni konu Sara (Ísaak); þá viðkiæmu þó Guðs fyrirheit (eins og Júðar sialfir játuðu) ekki afkomendum sonar hinnar ánauðugu qvinnu, heldur affsprengi sonar hinnar friálsu Ambáttin Agar (hvoriu nafni Arabar ennþá kolluðu fiallið

Sinai, hvar lögmálið var útgéfið) samsvaradi hinni við Mósis lög þrælbundnu Jerusalem (Júða samkundu); sú friálsa qvinna Sara þarámóti hinni æðri Jerusalem (Krists kyrkiu), svo menn hér mættu tala undir með Spámanninum: óbyrian ól fleiri born (afkomendur) enn hin frióssama (Agar). En eins og ambáttarinnar sonur hefdi ofsókt son hinnar fribornu qvinnu, svoleiðis ofsæktu nú Judar þá krislnu. En arftökunnar mundi þó hinum arftæku bornum auðið verða (4, 20—31).

Í þeim hluta bréfsins, er þer á eptir fylgir, og sem er sérhvorium athugasömum lesara auðskilinn, hvetur Páll Galatana að standa stöðuga í frelsinu (frá Mósis laga oki), þar Jesu Evangelium annars yrði þeim að eingum notum o. s. frv. (5, 1—12). En þessar friálsræðis kénningar mætti þeir ei vanbruka né rángsnúa þeim svoleiðis sem að Jesu Evangelium gæfi þeim friálsræði til að seðia illar girndir sínar. Nei, í staðinn fyrir þrældóminn, legði Jesus kiærleikans þæga og gagnsama ok dyrkendum sínum á herðar, og hvílíka ávexti það af hans Evangelio lagaða lunderni bæri, hvornveg það léti sig í liósi í baráttu við það vonda, i alvarligum atburðum því góða til frama, í auðmykt, í umburðarlyndi við þá breisku o. s. frv., um það hliódar höfuðinnihald hins 5ta og 6ta Kap.

Skýríngargreinir.

Hvad höfud-atridin snertir, er inntak bréfs þessa, sem lesarinn siálfur hægliga kémst ad raun um, miøg líkt innihaldi bréfsins til Rómv: þar sá lærdómur "ad syndararnir réttlætist fyrir Gudi ekki med hlydni sinni vid Mosis løg, heldur fyrir truna á Jesum Krist» er framsettur í hvorut tveggiu, er ad mestu leyti sannadur med sömu røksemdum og brúkadur á sama hátt, nl. til ad uppqveikia óvartarsaman kiærleika til Guds og náúngans. Pad er því lesaranum rádligast ad samanbera bréf þessi þar þau upplysa hvort annad; sömuleidis á útþyding ordanna: løgmál, réttlæting og trú, er skrisud stendur í skýríngargreinum bréfsins til Rómv. eins vel vid téd ord í þessu bréfi.

Ekki ber oss ad hneyxlast á því, er vér lesum í þessu bréfi, ad Páll þóttist hafa rétt til ad ávíta sinn medpostula, Petur; fyri þad, ad hann af ótta fyrir hinum júdasinnudu kristnu lét sig um stundar sakir leida til ad vikia fra eigin sannfæríngu. Postularnir vóru og medkéndu sig ad vera syndara fyri Gudi; hvorinn var þad þá møguligt ad þeir aldrei røsudu fyri rád fram, á eingu augnabliki í lífi sínu gleymdu þeim lærdómi, er þeir siálfir kéndu *)? En þetta gétur ei

*) Samanber þetta med því, sem ádur er sagt um lika ávirdíng fyri Páli siálfum.

veikt hiá lésaranum trúnaðinn á siálfum lærdóm-
num, á sannleikanum siálfum, er þeir í nafni
Jesu og leiddir af hans anda boðuðu. Í þessu
efni vóru allir Postularnir á eitt sáttir. Og að
Pétur og Páll vóru samdóma um það málefni
sem vikið er á í 2 Kap. 11 v. fylg. um það gétur
lesarinn gengið úr skugga, þá hann samanber þenn-
na stað við þá af öllum Postulunum giörðu alyk-
tun, er skrifuð stendur í Post. g. 15 Kap. til
hvörrar Páll í þessu bréfi vitnar, og af hvörri er
auðsært, að Pétur, ei síður, enn hinir Postular-
nir, vóru sömu meiníngar og Páll, að ei mætti
leggia Mósis lög uppá Heiðíngia. Þetta mun
síðar skilianligra verða, þá vér rekium innihald
Péturs bréfa og jafnframt fáum færi til að sýna
hvörsu náqvæmliga samhlioða hvorutveggia þess-
ara Postula kénníngar vóru. Enn engu að síður
gat annar þeirra verið hinum strángari og óbif-
anligri í því, að fylgia, í hegðun sinni, sam-
eiginligri sannfæríngu; engu að síður gat Páll,
er, sem heiðíngia Postuli dagliga sá, hvörsu júi-
dasinnaðir kénnendur, með því að leggia Mósis
laga ok heiðíngiunum á herðar, tálmuðu kristinn-
dómsins framgángi, vandlætt alvarligar gégn
þessu, enn Pétur, sem að mestu leyti alleina fræd-
di innfædda Juda, fyrir hvöria Mósis lagasetn-
íngar hvörki gátu né áttu að rískast, fyrri enn
ríki Júda og musterið var til grunna gengið.

Hvörsvegna Páll verið hafi biturorðari í

bréfi þessu, enn vandi hans var til, er i inngángi bréfsins scáfkírt. Annars mun athugasamur lesari verða þess áskynia, að þessum hér svo naudsynliga strángleika er þó mildi og hlífdarsemi samfara og að þetta bréf vafalaust vottar um hið sanna viðqvæma og umhyggiusama fodur-hiarta, er svo fagurliga lysir sér i hinum Páls bréfum.

## Bréfið til þeirra í Ephesó.

Hve fiærri það hafi verið Páls skapi að skammast sín fyrir lærdóminn um þann krossfesta Messias, má ráða þaraf, að hann lagdi alla álúð á að boða hann i þeim fiolmennustu og merkilegustu stodum. Tvo ár dvaldi hann i Korintuborg, hofudborg Grikkia; þriú ár i Ephesó, hofudborg Asiu; og til Róm, heimsins hofudborgar ætladi hann að ferdast, fyrrenn hann hlaut sem fángi fángad að koma.

J Post. g. 18 og 19 Kapp. lesum vér, með hvilíkum framgángi Páll bodaði Jesu lærdóm i Ephesó og þar i grend; hvorsvegna hinn heidni lídur hóf miklar óeirdir (Post. g. 19, 23 f.) Sú snialla ræða (Post. g. 20, 17 f.), sem Postulinn að skilnaði héldt til safnaðarins biskupa i Ephesó, lysir hans alúð og stoduglyndi i að boða Jesu lærdóm þar, sem annarstaðar, þrátt fyrir margar hermúngar og ofsóknir af vantrúuðum Gyðíngum.

En þótt meiri hluti safnaðar þessa væru um-

vendtir heidíngiar, voru þar þó margir Gydínga-kristnir; því Postulinn bodadi Kristum veniulega fyrst i þeirra samkundum, og snéri sér sídan til heidíngia, þegar þeir vantrúudu Gydíngar giördu gis ad þeim krossfesta Messias. Bréfid er því skrifad til heidíngia og gydínga-kristna, þó einkum til enna syrri; og Postulinn gétur til kynna med ordunum vér (af fædíngu Gydíngar) og þid (af fædíngu heidíngiar), vid hvoria hann á tal.

Adalaugnamid bréfsins er: ad leida mönnum fyrir siónir Guds vísu og leindardómsfullu rádstöfun, í ad sameina gydínga og heidíngia, sem vid Móisis logmál ádur voru svo lángt adskildir, i eina kirkiu og sem i einn líkama, undir þeirra sameginiegt höfud Jesum Kristum. Þessi sannleiki útlystast i þeim 3 fyrstu Kapp. Þarnæst segir frá hvorsu Kristnir skulu færa sér þenna sannleika i nyt. Hér fylgir bréfsins stutta.

## Innihald.

Postulinn géldur Gudi þakkir fyrir þan andlegu giædi, er hann frá eilífd hafdi mannesskiunum fyrirhugad fyrir Jesum Kristum; því þad var þóknun Guds vilia, ad endurleysa sindara fyrir hans sonar blód, eptir sinni nád, og láta hann og hans postula kunngiöra heiminum leindardóm síns vilja, ad hann sameinadi alla hluti á himni og á jördu (engla og mannesskiur) i Kristo. Hon-

um hefdu því, bædi Gydíngar, sem ádur voru fyrirfram fyrirhugadir, og heidíngiar, sem heyrt höfdu sannleikans ord, ad þakka fyrir þenna velgiörníng og ad þeir feingid hefdu heil. anda sem pant þarfyrir (1, 1—14).

Postulinn bidur Gud innilega um ad þeir i Ephesó, er tekid hefdu kristná trú, mættu þekkia þenna stóra velgiörning, og leindardóm Guds rádstöfunar ad þeir hefdu hlotid hann; því svo stórann krapt Gud syndi þá hann uppvakti Jesum af dauda og setti hann i himinin, hátt upphafinn yfir allar skynsamar verur, svo stórann krapt syndi Gud nu, þá hann útbreiddi Jesu Evangelium medal gydínga og heidíngia (1, 14—23.)

Eins og Jesu líkami lá daudur i grefinni, svo voru heidíngiarnir daudir fyrir afbrot og syndir, og þrælar myrkursins anda; já gydíngar, fremiandi holdsins vilia, voru ei betri enn heidíngiar. Enn Gud, fyrir sína miklu elsku og náð, hefir giört þá lifandi i Kristo, uppvakid þá med honum, og sett þá med honum i himininn, uppá þad hann syndi ríkdóm sinnar nádar; Guds gáfa er þad; og ecki þeirra egin forþénusta (2, 1—10.)

Þeir kristnu heidíngiar skyldu minnast þess, ad þeir, sem fordum voru af gydíngum forsmádir sem óumskornir, og fyrir utan borgarrétt Israels og von um Messias, hefdu nú feingid adgáng þartil, fyrir Jesum Christum; sem med sínum dauda á krossinum, hafdi brotid þann

vegg (nefnil. Moisis lögmál) sem aðskildi gyðínga og heiðíngia, og giort af tveimur einn söfnuð, og forlikt hverutveggiu við guð, og látið sína postula kunngiöra bæði heiðíngiam og gyðíngum þetta friðarins Evangelium (2, 11—18). Þeir kristnu heiðíngiar voru því ei meir géstir og framandi, heldur Guðs heimamenn, sem Israelitarnir; þeir hverutveggiu voru sú andlega bygging (söfnuður trúaðra) hvartil Jesu postular höfðu lagt grundvöllinn, og hverrar hyrníngarsteinn Jesus siálfur er (á hvern allir trúa og vona), fyrir hvern Guðs heilaga musteri vex, (við kristindómsins útbreiðslu á jörðunni 2, 19—22). —

Postulinn var nú sem fángi í Róm (siá Postg 21—25 Kapp.), þareð hann hafði boðað heiðíngium þetta Evangelium; þeim kristnu heiðíngium var það kunnugt, að Guð hafði einkum kallað hann til að opinbera mönnunum leyndardóm Guðs álíktana: að hinir heiðnu skulu inntakast í söfnuð trúaðra Israelita, og verða hluttakendur Guðs fyrirheita i Christo (3, 1—6.).

Hönum var géfin sú náð af Guði, að hann, sem áður hafði ofsókt kristna, skyldi nú kunngiöra öllum mönnum þann eilífa leyndardóm Guðs ráðs, að allir skuli frelsast fyrir Christum (3, 6—12). Þeir kristnu heiðíngiar mættu því ecki tregast vegna hans hörmúnga; það væri hans inniligasta bæn til Guðs, að þeir styrkiast mættu

í þeirra trú á Jesum, og laga sitt hugarfar eptir honum, svo þeir giætu þekkt þá yfirgnæfanslegu náð, er þeir hlotið höfðu fyrir Christum, fyrir hveria Postulinn með hrærðu hiarta lofar Guð (3, 13—21).

Híngaðtil hefur Postulinn talað um Guðs náðarfullu ráðsløfun að heiðnar þióðir komu í samfélag með Christo. Nú minnist hann á þær skyldur, er þeim liggia á herðum. Þeir ættu að varðveita eindrægni og kiærleika, sem bræður er höfðu sømu trú og sømu von (4, 1—6). Þar eru margvíslegar gáfur, en þær koma fra einum og sama herra, Christo, sem útbió sína kénnara með marghátturðum gáfum, svo søfnuðurinn giæti framførum tekið og uppbygst. Þessar yfirnátturlegu gáfur skyldu einasta viðvara í Christí safnaðar barndómi, þangað til allir verða sem fullorðnir menn í Christo, er ei láta sig afvegaleiða af undirhyggiu manna, og heili søfnuðurinn, sem einn líkami, líktist høfðinu, Christo, fyrir hvern allir kristnir samteingiast hvør með øðrum, sem limir á einum líkama, og hvør øðrum hiálp veitir, eptir sínum gáfum (4, 7—16).

Þeir kristnu heldíngiar mættu nú ekki fremia þá lesti sem tíðkuðust meðal hinna annara heiðíngia, og sem þeir siálfir áður høfðu framið; þeir mættu nú afleggia sína fyrri breitni, og byria nytt líf og nya breitni, sem Guði líkar

(17—24). Postulinn varar þá við einstöku glæpum, einkum lauslæti, og skammarlegum orðum og verkum, sem voru samfara heiðingianna hátíðlegu samfundum og géstaboðum. Slíkt óguðlegt athæsi skyldu þeir kristnu fordast, og sem ljóssins börn vanda sitt framferði, gánga forsjálega meðal hinna vondu, og styrkia sig með bæn og andakt gégn freistingunum (4, 25 — 5, 1—21).

Nú talar Postulinn um skyldurnar í hússtéttinni, og kénnir oss hvornig þau kristnu hjón, foreldrar og börn, húsbændur og þiónustufólk skuli hegða sér (5, 22—6, 1—9). En þareð þeir kristnu hefðu við volduga óvini að beriast, og alt myrkursins ríki var þeim mótsnúið, og stórar ofsóknir vofðu yfir, svo hlýtu þeir jafnan að vera herklæddir, sem stríðsmenn, er gánga til orustu. En þeirra herklæði væru andleg: trúfesti við Guð og Jesum — góð samvitska — þekkíng lærdómsins sem þeir skulu forsvara — trú, von og Guðs orð — væru þau vopn þeir skyldu veria sig með mótstöðunni andlegu óvinum; þeir skyldu vaka og biðia fyrir sér siálfum, fyrir öllum heilögum og fyrir Postulanum, að hann diarflega mætti boða þann sannleika, hvorsvegna hann sat í fiötrum (6, 10—20). Bréfberarinn Tychicus mun segia þeim frá hvörsu Postulanum liði. Bréfið endast með Postulans óskum.

## Skýríngargreinir.

Þetta er hið fyrsta af þeim bréfum vér höfum, og sem Postulinn hefur skrifað í sínu fyrsta fángelsi í Róm; og þótt hin-önnur bréf vegna síns innihalds eru ei síður merkileg, svo mega bandíngjans Páls bréf vera sérhverium kristnum einka kiærkomin, bæði vegna þess hiartanæma anda hvarí þau eru skrifuð, og vegna þess þau vitna um Postulans fasta staðuglyndi i að játa Jesum fyrir heiminum; um þá föðurlegu umhyggiu, er hann, sem fángi, bar fyrir þeim kristnu; um þær mótlætíngar hann hefur þolað fyrir þá kristnu heiðíngia, og einnin fyrir oss, hvorra forfeður voru heiðíngiar.

Þessa bréfs innihald er því framar merkilegt, sem það ei lítur til einstöku safnaðar sérskildu þarfa, heldur flytir frá því sem öllum kristnum er jafn áríðandi, og býður þvílíkar skyldur, sem ætíð gylda. Nokkrir hafa því haldið, að bréf þetta (eins og máské bréfið til Galata) ei einasta sé skrifað til þess safnaðar, sem það er tileinkað, heldur til fleiri safnaða i Asíu; og að þetta sé orsökin, hvarfyrir ei i þessu bréfi, sem í hinum öðrum, finnast qveðiur til einstakra manna, sem Postulinn, er leingi dvaldi i Epheso, þekti mikið vel (s. Postg. 20, 17 fylg.)

Það getur skéð að margur lesari, sem frá barnsbeini af hefur numið þann sannleika, að Guð er allra manna faðir, steyti sig á því, að

Postulinn talar um heidíngianna inteku i Christi kirkiu, sem ohegrda og undrunarverda rádstøfun Guds. En vér meigum ei gleima því, hvorjum vér høfum ad þakka fyrir þá vissu, ad Gud er allra manna fadir. Ádurenn Jesus kom í heiminn, var þad eins óskilianlegt, hvornig gydíngar og heidíngiar giætu, sameinadir í einn søfnud, dyrkad þann sanna Gud og Messias, sem þad er nú hulid fyrir oss, hvornig sú von géti uppfylst, sem Jesus (Joh. 10, 16) og Páll (Rom. 11, 26) gésa oss, ad allir menn skuli verda ein hiord undir einum hyrdir.

Sidalærdómur bréfsins er svo agiætur, ad eigi þarf ad mæla fram med honum. Hvorgi útlystast hússléttarinnar skyldur svo vel sem í þeim fáu og nettu ordum (5, 22 — 6, 1—9). Þau forþéna ad lærast utanad. Hvad hér er sagt til kristinna þræla, hvort stand Jesu mildi lærdómur hefir smátt og smátt afmád, getur mikid vel heimfærst uppá vort þiónustufolk, þó þess kior séu lángt odruvísi.

## Bréfid til innbyggiaranna i Philippis.

Philippi, allmikil borg í Macedonia, var sá fyrsti stadur í nordrálfu heims, er Páll bodadi kristna trú. Eptir yfirnáttúrligri kollun frá Drottni ferdadist hann nl. frá Asia til Macedoniu, dvaldi þar hvorgi og fór beina leid til Philippi, ad

líkindum þessvegna að í borg þessari, þótt allur þorri innbúa hennar væri heidinn, höfðu allmargir Júðar sér bólfestu tekið, á hverra fund Postulinn hvervetna gékk fyrst og leytaði vinfengis og trausts. Þar predikaði Páll á sabbatsdögunum í Júðanna samkunduhúsum og ávann sér meðhald, sérílagi giörðu Proselytar, þeir nl. af heiðíngium er tóku hlutdeild í tíðagiörðum gyðínga, góðan róm að máli hans. Svo fór fram um hríð, að ekkert, sem það sýnist, talmaði þessum hans verknaði, uns það dró skyndiliga upp til ógurligs hreggviðurs yfir höfuð honum; þó ollu því ei, sem í ödrum stöðum i Macedonia; hans vanaligu fiandmenn, hinir vantrúuðu Júðar, heldur uppblaup af heiðnum almúga. Páll og hans meðerfiðari Silas voru, að yfirvaldanna boði, húðstrýktir og varpað i harðt fángelsi. En ósblifsa og ostóknir þiena, fyrir meðverkun og tilstuðlan hins Almáttuga, til að dásama Jesu nafn, til að auka tölu hans iátenda og styrkia bræðurnar í trúnni; og áður enn Postulinn var neyddur til að yfirgéfa Philippi, hafði hann stiptað þar félag af Guðs og Messíæ dyrkendum. Lángorðari frásögu um þetta má finna í Post. g. 16, 8—40.

Að vísu hafði Postulinn liðið mikið fyrir þessara sinna andligu barna sakir, en nu hafði hann líka sanna fodur-gledi af þeim. Með þa macedonisku söfnuði var Páll yfirhöfuð vel ánæg-

dur, en ámedal þeirra var þó einginn hönum svo ástfólginn, sem sofnuðurinn í Philippi. Ekki alleina hafði hann, ásamt hinum ödrum macedoniskum sofnuðum, góðviliugliga, þótt hann byggi við þraungan kost, lokið tillagi sínu til þeirrar samburdargáfu, er Páll hafði lagt drög fyrir í Macedonía og Achaja handa þeim naudstöddu Kristnu í Jerusalem (2 Kor. 8, 1 fylg.); en Philippensar höfðu þaradauki opt sendt Postulanum fríviliugar gáfur til uppheldis, þá hann dvaldi í þeim stödum, hvar hann af ásettu ei þádi kénslu-laun; og nu, þá su fregn barst þeim til eyrna, að hann væri fángi í Rómaborg, sendu þeir einn af safnadarins meðlimum, Epaphroditus að nafni, með gáfu til síns fángaða fræðara. Vér skynium að fullu, að þetta var ei endurgiald fyrir mannraunir þær, er Páll ratadi í fyrir þeirra skuld. Ei heldur girntist hann siálfr giafir; en það góðfúsa hiartalag, hvaðan giöfin kom, gladdi hann harla miög.

Bréf frá hinum fángaða Páli til þvílíks safnaðar, gétum vér fyrifram nærri getið; að lysa muni hinum hiartnæmastu saknaðar og kiærleiks tilfinníngum; og um það mun og serhvör lesari komast að raun, er trúir og vonar sem þessi fræðari og þessi sofnuður, og jafnframt imindar sér, hvörnveg ástatt var á milli hvörutveggiu. Eingu að sidur vóru þó í þessu félagi Jesu og Páls sonnu vina, nokkrir falskir bræður, líkir

þeim, er um finst skráð í brèfunum til Korintu-manna, er vóru kristnir, að kalla, en júðar í hug og hiarta og héngu í Mosis laga bókstaf, en skildu ei þeirra anda; móti tælingum þvílíkra manna inniheldur brèf þetta diarfyrdtar advaranir.

Eptir hinni almenniligustu meiníngu er brèfið ritað í hinu fyrra og lèttara fángelsi Postulans og ámeðan hann enn vænti að verða laus látinn; af því má ráða, hvörsvegna að frábreytt er brèf þetta að tón og anda sídara brèfi hins sama Postula til Timoteum, hvört hann skrifaði, þá kostur hans í fángelsinu var þyngri orðinn, enn áður, og hvörs endalykt var, at hann var af lífi tekinn. Sérílagi var það orsök til brèfs þessa, að téður Epaphroditus, er fært hafði Páli gáfu Philippensa og leged hafði um hríð mióg siúkur í Rómaborg, var nú albata og búinn til ferðar heim optur; með honum sendir Páll brèf þetta, hvörs innihald sérhvör athugull lesari mun svo hægliga numið fá, at ver að eins þykiumst með fám orðum þurfa að leiða hér fyrir siónir, ei svo inntak þess, sem alleina hvörnin þánki flytur af þánka.

## Innihald.

Eptir at Páll hefir vottað fyrir Philippensum sínar Guði goldnar þakkir fyrir það, að þeir giörst höfðu fèlagsmenn Jesu safnaðar, sína gruggu von um þeirra stöduglyndi og sinn hiart-

grǿna kiærleika til þeirra o. s. frv., huggar hann vini sína (1, 12.) með þeim glediliga boðskab, að einnin hans hallð í Rómaborg væri medal í Guðs hendi til að dásama Jesu nafn, með því að margir hvetkust af einorð hins fángaða Postula til einnin að kunngiora Krist — allir að vísu ei í hreinskilnum tilgángi: (því sumir hreldu Postulan með því að þeir samanmenguðu Kristindómi og Júðadóm). Eingu að síður giori dist þó Jesu nafn heyrum kunnugt; og það væri honum hið mesta fagnaðarefni; því Jesu alleina lifði hann; og svo miøg sem honum lengdist um samvist með Jesu, svo æskti hann þó ennþá at géta afrekað meira á Jorðu Krists Evangelio til framgángs. Og hann vonaði, að hann enn lifa mundi Philippensum til gagns og gleði (1, 1—26).

Þó qvidi hann ei þess, er fyrir sér lægi; en sú væri eina ósk hans, að Philippensar ávalt lifðu samqvæmt Jesu kénníngum og stæðu með eindrægni og fastheldni við játníngar trúar sinnar, og létu ei motstøðumenn sína á sér bug vinna; þvílík diorfúng, er frá Guði alleina kiæmi, væri þeim eitt frelsis teikn, en fiandmønnum þeirra fyrirboði niðurdreps o. s. frv. (v. 27—30.)

Við allt er kristnum þætti heilagt vera, við Jesu Evangelium, við kiærleika føðursins, við sameining heil. anda, við þá meðaumqvun, um hveria þeir væru sínum fángaða fræðara skyld-

ugir, færir Postulinn Philippensa, ad, hvar þeirra audsyni ødrum hiartgróna eindrægni, fridgirni, audmykt, óeigingiarna ástsemi, eptir Jesu dæmi, sem þótt hann sakir sinnar nágvæmu sameiníngar med guddóminum, sig hefdi synt gétad gudi lík-ann, lítillækkadi sig til mannanna heilla svo miøg og var því af gudi svo hátt upphafinn. (2, 1—12). Ef Philippensar sylgia vildu þessum áminn-íngum i Postulans fiærveru, syndu þeir, ad þeirra audsveipni i nærveru hans einlæg verid hafdi. Med lotníngu fyri Gudi skyldu þeir vinna ad sínu sáluhiálparverki; á hann, er verkadi alt gott hiá þeim, skyldu þeir setia sitt trúnadartraust, og ei møgla i þianíngunum, né efast um þeirra gódu endalykt, o. s. frv. Og þá væri Postulinn (v. 17) gladur, þótt hann siálfur yrdi utgéfinn (aflifadur) med því hann hefdi fornfært heidíngi-ana Gudi (snúid þeim til kristinnar trúar). Og því hefdu þeir orsøk til ad fagna og ad óska hon-um til lukku, (2, 12—18).

Hann vonadi til Drottins, ad hann brádliga mundi fyrir sinn elskada Timotheus géta skírt þeim frá málalokum sínum og sídan siálfur heim-sókt þá; en ádur þad gæti skéd, hefdi sér þótt naudsynligt, ad senda Epaphroditus, er fært hefdi hønum gáfu þeirra, tilbaka med bréf þetta o. s. frv. (2, 19—30). Eptir ad hann hefir hvatt þá til ad glediast yfir sameiníngu þeirra med Drott-

ní, varar hann þá við þeim júdasinnuðu kénnurum, er mæltu alleina ráu og reginn (Hundunum) er slipfuðu ílt eitt (vondir erfiðarar) ollu sundurlyndis (sundrúngar, sundurliðunar). Sú rétta umskurn (þeir sonnu, hvorra hiarta væri umskorið) væru þeir, er dyrkuðu Guð í anda og sannleika o. s. frv. (3, 1—3). Postulinn hafði fyrrum, sem Gyðíngur að ætt, haft þá somu yfirburði, er hinir júdasinnuðu stærðu sig af, og það að vissu öðrum fremur; en allt þetta var nú í hans augum einkis metandi. Kristur, hans endurlausnarverk og Evangelíum væri honum nu öllu öðru fremra. Að læra hann nákvæmar að þeckia, að verða honum, þeim krossfesta og uppristna æ líkari, væri það einasta takmark er hann keptist eptir; því fiærri færi því at hann meinti sig því náð hafa; nei, hann keptist að eins að fá það handsamað, eins og kristur hefði hann höndlaðan (á veginum til Damascus) En til að nálægiast markbakka þenna, gleymdi hann öllu á bak við sig (er hann allareiðu hefði afrekað í Krists þjónustu) og keptist ávalt framm á leið o. s. frv. (3, 4—15).

Sveleiðis ættu allir þeir at þeinkia, er, eins og Postulinn, væru fullfróðir um Jesu kenníngar. Og væru nokkrir á meðal þeirra miður að sér um þetta, þá mundi Guð hiálpa þeim framm á leið; en þess væri að óska að þeir að eins gengu hinn beina veg, þar þeir væru svo lángt

komnir. Hann hvetur þá enn fremur til að breyta eptir sínu og lundlíkra dæmi, en varar þá við þeim, sem alleina eru kristnir að nafninu, en eru óvildarmenn kristi kross, er ei léti sér annars annt vera enn að seðia losta sinn og lystíngar til jarðneskra hluta; með því vor borgararéttur er á himnum v. s. frv. (3, 15–4, 1.)

Að svo mæltu áminnir Postulinn Enodiu og Syntyche (að líkindum Diaconissur, diákninnur eður safnaðar þjónustukonur, sem, þótt báðar væru einlægar, voru sundurlyndar orðnar) til eindrægnis og biður sinn ekta-meðbróðir (líkliga safnaðarins forstöðumann) at hafa umhyggiu fyrir þeim. Eptir að Postulinn hefir hér við aukið fleirum, bædi andskilianligum og hiartanligum áminníngum, víkur hann (v. 10) ræðunni til hönum sendrar gáfu af Philippensum, er væri sér svo kiærkominn, ei svo miøg fyrir þá sok að hann þyrfti hennar við (því hann hefði lært að una við flest) sem fyrir sakir þess góða hiartalags, er veitendurnir hefðu synt; því af því sæi hann, að hans elskuðu innbyggiarar i Philippis væru siálfum sér líkir, sem þá þeir høfðu áður veitt hønum, og yfir høfud verið sá einasti søfnuður, er líkt sem giørt hefði fiárreiður eða reikníng við Postulan yfir inngiald (kénnsluna, er þeir fengið høfðu) og utgiald (giafirnar, er þeir høfðu sendt hønum). Gáfuna siálfa girntist hann ecki, heldur þá þeim miklu dyrmætari áverti (laun

af Gudi fyrir þeirra góda hiartalag), þessirværu hans fagnadarefni. Og nú hefdi hann nóg, já meir enn nóg o. s. frv. Hann endar med óskum og qvedium.

Skýríngargreinir.

Þeirra þarf kristiliga sinnadur lesari ecki margra til ad lesa bréf þetta sér til uppbyggíngar; og þad sáeina, er oss þótti ei svo greidfært til skilníngs, hefum ver leitast vid i ágripi innfalsins med fám ordum ad útskýra. Pad þykir einnin naudsynialaust, ad leida athygli þvílíks lesara á þad, sem er fagurt, hiartnæmt og elskuligt i bréfi þessu. Vér þurfum einasta ad vita og muna, ad bréfid er frá hinum fángada Páli, sem eptir 30 ára armædu og þrautir sat fiotradur fyrir Jesu sakir; og, þá vér siáum, hvørsu vel hann undi vid Guds vilia, já, fagnadi yfir því, ad fiotur hans vóru Jesu málefni til framgángs; þá vér merkium, hvørsu óqvidinn hann er fyrir forlögum sínum, þótt tvísynt væri um lausn hans, en þarámóti hvørsu áhyggiufullur hann er um ad styrkia innbúana i Philippis i trúnni og vardveita þá frá tælíngum falskennara; þá oss verdur litid, hvørsu lítils hann mat alt þad, er hann framqvæmt og lidid hafdi i þiénustu Drottins i samanburdi vid Krists óverdskuldada kiærleika til hans, og hvørsu óþreytanliga sál hans sókti eptir ad ná takmarkinu; og þá vér ennfremur komumst ad

raun um, hvörsu hin litla gáfa frá þeim fátœka søfnuði i Philippis gladdi hann, og það einasta fyrir þess góða hiartaþels sakir, hvaðan hún kom: svo finnum vér bæði i Postulans eigin dæmi og i þessa bréfs dyrmœta innihaldi, þá bestu útskíríng þess, hvað og hvílík sú trú á Krist sé er Páll kénnir, og vér sannfœrumst einnig um, að sú trú, er bar þvílíka ávexti, er svo vel heldst við, og var hvervetna frá byriun til lykta siálfri sér lík; eingan veginn má álíta grillur einar vera eður mannligan hiegóma, heldur Drottins eigið verk.

Ef vér merkium þann hiarta-hita, með hvörium Postulinn skrifaði bréf þetta, þá furðar oss ei heldur á þeim ákafa og vandlæti, með hvöriu hann varar sína ástfólgnu Philippensa, við tælíngamönnum meðal meðlima safnaðarins (3, 2 fylg.) Þeir vóru samlíkir þeim, sem oss eru kunnir af bréfinu til Galata; og Postulinn mátti því kalla þessa svikara og friðbriótsmenn þeirra rétta nafni, að hinir betri menn safnaðarins gætu lært að varast þá. Vér kunnumst her ány við hið sanna föðurhiarta, er lysir sér i öllum Páls bréfum, og sem einkum i þessu bréfi svo mjög lætur sig i liósi, nl. hið viðqvæmasta hiartaþel, samfara alvörugéfni og stránsleik, þá frelsa skyldi sannleikans heiður.

## Bréfid til Colossensa.

### Inngángur.

Søfnudurinn i Kólossaborg, stad nockrum i Phrygia í Asiu, er eigi stiptadur af Postulanum siálfum, sem segist (Col 2, 1) ekki hafa verid i Kolossaborg, heldur af Epaphra nokkrum frá tés ðri borg, sem einnin synist stiptad hafa søfnudina i Laodicea og Hieropolis, er lán allskamt fra Kolossaborg, og sem á er vikid í bréfi þessu. En þessi Epaphras þessi ad øllum líkindum var Páls lærisveinn, sem vottar ad hans lærdómur sé samhlióda sínum, svo géta søfnudir þessir álitist Postulans fósturbørn. Og i þad heila lét heidíngianna Postuli sér ant um alla kristna søfnudi, sem medal heidinna þióda voru stiptadir.

J þessa søfnudi høfdu júdasinnadir falskir kénnarar laumast inn, sem eigi voru alsladar af sømu tegund. Hér synist þad verid hafa þvílíkir hérvillíngar, er giættu allra Moisis lagasetnínga, en grubludu úti Englanna náttúru og edli, og bírludu sérinn, ad þeir, med ad pína líkamann þ. e. leggia hapt á allar saklausar tilhneigíngar og fordast alla sanfalega gledi, nú þegar hér á jørdunni koma mundu í nánara félag med þeim himnesku øndum. En þessi ímindadi englaheilagleiki var einasta andlegur hofmódur, sem forsmádi adra og ól kiærleikslaust hugarfar mót náunganum. Þad er líklegt, ad Epaphras, sem þarfnadist postulalegs álits, þár hann ekki var Posts

uli, hafi vegna þessara hleypidóma, ferdast til Páls er sat í fiötrum í Róm, hafandi med sér eitt bréf frá söfnudinum i Laodicæa, og skyrt Postulanum frá safnadanna ástandi i Kolossaborg og þar í grend, sem yfirhöfud var gott, en þó trublad af fölskum lærdómum. Postulinn skrifar þa (ekki med Epaphra, því hann var ogso (Philem. 23 v.) í:vardhaldi, heldur med ödrum) þetta bréf, til ad stadfesta Epaphras kénníngu, og vara söfnudina í Kolossaborg og Laodicæa, sem ogso skyldi lesa bréfid, vid því, ad rángsærra og misbrúka Jesu hreina Evangelium.

Bréfid til Colossensa er ritad um sama bil, sem þad til Ephesus manna, hvörju þad líkist mjög ad Innihaldi, svo þau skiliast betur, þegar þau lesast hvört á eptir annad. Þess sjyttra gétum vér drepid á innihald þessa bréfs, sem lesararnir þekkia þad mesta af því, einasta í ödrum búníngi, af brefinu til þeirra i Ephesó.

## Innihald.

Postulinn þakkar Gudi fyrir þær ávaxtar sömu verkanir sem Jesu Evangelium hafdi haft á Colossensa, sem þad alstadar hefdi, hvar þad væri vidurkénnt í sannleika, einsog þeir höfdu lært þad af Christi trúa þióni, Epaphra, (1, 1—8). Þarfyrir beiddi Postulinn jafnan Gud um, ad þeir mættu vaxa í þekkíngu Jesu lærdóms, og lifa þekkíngu sinni samkvæmt og styrk-

íafi í þolinmædi (9—11). Þeir mundu þá fannt færast um, hvílíkann velgiorníng Gud hefur audsýnt þeim, þegar hann frelsadi þá af yfirvaldi myrkvanna, og kéndi þeim ad þeckia sinn elskulega son, voru endurleusnara, hvorad er ímynd eins ósýnilega, hinn framgetni fyrir allar skepnur, frá eylísd skapari og vidhaldari allra hluta, og síns safnadar stiptari og herra (12—18). Því Gudi þócknadist, ad í honum skyldi oll fyllíng (alt sem vér hofum þorf á til vorrar andlegu velferdar) búa, og ad hann skyldi semia frid milli Guds og manna, heidíngia og gydínga, og sameina alt á himni og jordu í einn sofnud. Í þenna sofnud voru Colossensar innteknir, sem fordum voru heidíngiar og ecki þecktu þann fanna Gud (19—23). Postulinn, sem bodadi þetta Evangelium, var gladur í sínum hármkvælum, og fús til ad þola alt fyrir Christum og hans sofnud, þared Gud heldi kierid hann til ad kunngéra þann frá eylífd hulda leyndardóm (ad nefnil heidíngiar skyldu inntakast í sofnud trúadra Ísraelíta) (24—29).

Sem heidíngianna Postula var honum ant um þá sofnudi sem stiptadir vóru medal heidinna þióda, og þá sem eigi hofdu séd hann, svosem sofnudina i Kóloffaborg og Laodicea, ad þeir stadfestust í trú og kiærleika, og audgudust í skilníngi Jesu Evangelii, svoad einginn (einkum Júda sinnadir) tæli þá. Þó hann sé fiærverandi, var

hann þó hiá þeim i andanum, og gladdi sig vid ad siá þeirra gódu hegdan. Einsog þeir hefdu (af Epaphra) medtekid Jesu hreina lærdóm, svo skyldu þeir breyta eptir honum, og þakknæmir framsvrum taka (2, 1—7). Þeir mættu vara sig vid þeim, sem ginna vildu þá frá Kristo, bædi med því ad kénna þeim hégómlega heimsspeki, og ófullkomnar sidareglur. Því i Kristo, i hvörjum guddómurinn siálfur hefdi opinberad sig, hefdu þeir fullnóg; og honum voru þeir samteingdir sem líkaminn høfdinu; i honum voru þeir i hiartanu umskornir: (adra umskurn þyrftu þeir ecki) med honum voru þeir, fyrir skyrnina greftradir (þá þeim var dýft nidur i vatnid Róm. 6, 4) og ásamt honum upprisnir til ens nya lífs (Eph. 2, 4). Hann hefdi ásmád þá handskrift, sem móti oss var o. s. frv; (fyrir sinn dauda asmád Mosis lögmál, sem siálfir Gydíngar ei gátu uppfyllt); hann hefdi unnid fullkominn sigur yfir myrkursins ríki, fyrir sinn dauda og upprisu (8—15). Eingann mættu þeir því láta stuila sína samvitsku med atgiætslu Mósis sidaregla, sem var skuggi líkamans, Kristi fullkomna lærdóms; ecki láta sig villa af þeim, sem kostgiæsa audmykt og engladyrkan, án þess ad þeckia englanna náttúru og edli. Þetta vár einasta andlegur hroki. Þeir skyldu eigi halda sér til englanna, heldur til Kristis, sem var líkamans (síns safnadar) hofud. Séu þeir daudir med Kristo (fyrir hans dauda

fríteknir) frá veraldlegum setníngum, hvernin giætu þeir þá, líkasem þeir lifðu enn í heimsins barns-aldri, fundið heilagleik í að halda sér frá sak-lausri nautn; sem alt eru fáríegar manna kénn-íngar, jafnvel þótt þessi audmykt og líkamans misþyrming hafi heilagleikans yfirlit (16—23)

Þetta kristilega friálsræði mætti ecki misskil-jast. Séu þeir dauðir með Kristo, eru þeir ásamt hönum uppriśnir til ens nýa lífs; þeir skyldu því kostgiæfa það himneska og eylífa, og eigi það jarðneska, og forgengilega. En þess kristina líf í Guði (guðlega framferði) og farsæld fellur ecki heimsins börnum í augu (einsog hræsnaranna útvortis heilagleiki), en er fólgið með Kristo; en hvenærveggia mun opinberast, þegar Kristur kém-ur. Þeir skyldu því deyða (niðurkefia) sínar vondu girndir, hvartil þeir fordum hesðu misbrúk-að sína limu (3, 1—5). Þetta útlystar nú Post-ulinn í fylgiandi parsi bréfsins, á sama hátt sem í bréfinu til þeirra í Ephesó. Hann varar þá við þeim löstum, er almennir voru meðal gyðínga og heidíngia, og hvetur þá til að endurnýa sinn lifnað samkvæmt Kristi lærdómi (v. 5—11); ásý-sir þá til audmyktar, hóglyndis og umfram alt til kiærleika (v. 12—15; og þetta hugarfar skyldu þeir efla hiá sér med innbyrdis áminníngum og sameginlegri guðrækni (v. 16—17).

Eptir þessi almennu boðorð, talar Postulinn um skyldurnar í hússtéttinni (3, 18—4, 1.); ásy-

fir þá til árvekni, bæna og fyrirbæna, og að hegða sér vísslega móti þeim, sem eru fyrir utan söfnuðin (4, 2—6). Bréfberarin mun kunngéra þeim, hvörnig Postulanum líði; og, einsog þessi Pistill skyldi lesast i samkundunni i Laodicæa, svo skyldu þeir einnin lesa þann sem skrifaður er af þeim i Laodicæa (líklega þann sama sem Epaphras færði Postulanum, og sem Postulinn hefir látið fylgia með þessu bréfi, til að upplísa þess innihalds). Bréfið endast með heilsunum og sidvanalegum óskum.

Skyríngargreinir.

Jafnvel þó þetta bréf sé, hvað höfuðatriðin snertir, sama innihalds sem það til Ephesus manna, svo mun þó lesarinn merkia nockuð frá-brugðið i efni þess og búníngi; þartil má einkum telia þær skorinorðu aðvaranir mót sielfkum lærdómum, sem höfðu laumast inn i þá söfnuði sem bréfið er stílað til (2, 16—23), og sem fyrir oss eru lærdómsrikar. Að vísu verður ecki með vissu sagt, hvari sú hér aminnsta engla-dyrkan og heilagleiki hefur verið falinn. En svo mikið má ráða af Postulans eginn orðum, að þeir sem kéndu þessa speki, hafa viliað, nú þegar hér á jörðunni, giöra mennina til Anda, og ei bera þá tilbærilegu umhyggiu fyrir likamanum og hans nauðþurftum, sem vér, svo lengi lifum, erum honum umskyldugir. — Postulinn Páll hefur verið (sem áður er

ávikið) skuldadur fyrir það sama, vegna þess hann bædi í þessu og í ødrum bréfum sínum skipar oss "at stunda eftir því, sem þar uppi er, og eigi eftir því, sem á jørdu er", "að deyda líkamann" "að hegda oss ekki eftir þessum heimi» o. s. frv. En þetta bréf synir augliósslega, hve órímileg, og ástædulaus þessi ákiæra sé; því, efað Páll hefdi óskað, að kristnir skyldu nidurkefja þær saklausu girndir í líkamanum, og halda sér frá saklausri ánægiu: hvørnin gat hann þá í þessu bréfi svo krøptuglega varad við þeim mønnum, er kéndu slíkt? Nei, Páll mælir ekki fram med békta og mønnum ofvexnum heilagleik, eða Múnka og einsetumanna-lífnaði; hve fiærlægt er ei alt þetta þeirri framqvæmdarsömu elsku, sem Páll kénnir að sé fullkomlegleikans band? Hérum sann-særumst vér ennbetur, þá vér lesum hans bréf til Timotheus og Titus, sem ritud eru, þegar þessi falski heilagleiki útbreiddist ennú meir medal krist-inna manna. Að Páll brúkar svo sterk ordatil-tæki, sem þau áminnstu, þegar hann talar um að dempa þær saurugu girndir, það hafdi hann lært af vorum sameiginlegum meistara, Jesu siálf-um, sem skipar oss, nær auga vort hneixlar oss að rífa það út; nær vor hønd eda fótur hneixlar oss, að høggva hann af; að safna oss fiársiódu á himni, enn eigi á jørdu. Og þegar hreinsun hiartans frá saurugum girndum er høfudatridið í þeirri gudsfrædi, sem kénnir oss að dyrka Gud í

anda og sannleik; hvaða furða þá, að bæði Jesus og hans postular tala i kroptugum orðatiltækium um það markverdasta i Kristindóminum?

Annars géta þær athugasemdir, sem eru giørdar við bréfið til þeirra i Ephesó, fyrir það mesta átt við þetta bréf.

## Fyrsta Páls bréf til innbyggiaranna i Thessalóniku.

### Inngángur.

Bréf þetta meina lærdir menn sé hið fyrsta af þeim, sem nu eru til, er Páll hefi skrifað (þó halda sumir að bréfið til Galata hafi fyrr verið færk í letur). Thessalonica var, á Páls døgum hofuðborg í landsálfunni Macedoniu og vóru innbyggiarar hennar heiðnir; en þar biúggu og Júdar, er høfðu þar nafntogaða samkundu; — á hvørn hátt Páll stiptaði hinn thessalonitiska søfnuð og hvað hann leið fyrir hans sakir, skrifir Postul. g. bókar 17 Kap. 1—10 v. ofs frá. Það er einka goðt ráð, að áður vér lesum þetta og hin onnur Páls bréf til þeitra af honum siálfum stiptuðu søfnaða, að rifia upp fyrir sér, hvað Lúcas i téðri bók hefir sagt ofs um upphøf þessara safnaða; með því það upplýsir bréfin, eins og þau aptur ámóti giøra Lucasar frásøgur skilianligri.

Eptir því sem segir i Post. g. bók kom Páll, eptir hann hafði, avalt grimmiliga offóktur, boðað kristni i Philippis, til Thessalonica og kristnaði

þar ei allfáa Júða, en miklu fleiri heiðíngia. En sakir nýrra ofsokna af vantrúuðum Júðum hélst Postulinn um skamma hríð þar við og matti flýa til Beroa og þaðan til Athenuborgar. Í síðst-téðri borg lét hann sækia sína meðersiðara, Sylvanus og Timotheus, er hann hafði skilið eptir i Beroa, til að fullenda hið byriaða verk. Og þá hann af þeim varð þess visari, hvørsu harðþiakaðir þeir nýkristnuðu vóru, ásetti hinn umhyggiusami Postuli sér að hverfa aptur til Thessalonika frá Athenuborg til að hughreysta þá trúuðu. En sakir óumflýanligra meinbuga varð hann að láta sér nægia með að senda þeim Timotheus, sinn trygga vin, til að bera sér niósn um safnaðarins ásigkomulag. Meðan Timotheus var i þessari for, fer Páll frá Athenuborg til Korintu; þar finnur Timotheus hann aptur og færir hønum þá gleðifregn, að søfnuðurinn i Thessaloniku sé sínum læriføður tryggur, og Guði og sannleikanum trúr, þótt hann liða mætti grimmar ofsóknir og misþyrmíngar fyrir Jesu nafns játunar sakir.

Af því sem nú er frásagt, og bæði stendur i Postul. g. bók og i bréfi þessu, má ráða, að søfnuðurin i Thessalonika var, eins og flest annur kristinna manna samfélög blandaður eður samanstóð af kristnuðum gyðíngum og umvendtum heiðíngium, þó vóru þeir síðstnefndu miklu fleiri að tølu. Einnin er oss þær þiáníngar alkunnar, er Postulinn og søfnuðurinn liðið hafði og ennþá

leid fyrir Jesú Evangelii skuld. En einnin lætur þad ad líkindum, ad einum svo nýliga stiptadum söfnudi, þótt hiá öllum þorra medlima hans vandlæti fyrir Guds og sannleikans málefni hiartgróid væri, hafi i tilliti til fródleiks og sída ennþá verid harla ábótavant. Postulinn skrifar því bréf þetta med födurligum fögnudi yfir sinna andligu barna stödugglyndi i trúnni á Jesum, og med vidqvæmri hugraun yfir þeim þiáníngum, er þeir þola máttu, og inniligri laungun eptir ad færa þá lengra á veg i sönnum og ávaxtarsömum Kristindómi. Ágrip af innihaldi bréfs þessa, er sem fylgir.

## Innihald.

Eptir ad Postulinn hefir á vanaligan hátt varpad á þá heilsan sinni, vottar hann Gudi gladar þakkir fyrir þær verkanir, er Jesu Evangelium hafi hafdi á Thessaloníkanna hiartalag. Hann hrósar þeirri ótregu lyst, med hvorri þeir, hardþiakadir á margan hátt, veittu Drottins ordi móttöku, og med hvoriu þeir géfid hefdu fagurt eptirdæmi, er drægi gódan ard hiá ödrum söfnudum (1ti Kap.) Til ad rótfesta þetta sinnislag hiá þeim, minnir hann þá á þau einkénnisrök er sannfært géti þá um, ad þad trúnadartraust, er þeir settu til hans, sem Drottins postula (og sem væri óadskilianlegt frá trúnni á Drottni siálfum) væri á gódum grundvelli bygt. Eíngin illur til-

gángur hefdi áfyst hann til þeirra ad koma; því offóknum og motgángi hefdi hann mætt. Hann hefdi hvorki sókst eptir metnadi né mannhylli; því hann hvorki hefdi smiadrad fyrir þeim, né ødrum (hann fegradi einkis lyti né lesti). Hann hefdi ei sókst eptir tímanligum ágóda medal þeirra; því hann hefdi hafnad rétti sínum til launa, af þeirra hendi, til hvørra hann sem kénnari þeirra var tilkomin, og til þess ei ad vera neinum til þyngsla, hefdi hann med egin høndum unnid fyrir sér. Þetta hans hreinskilna og ásælnislausa atferdi hiá þeim og vandlæti hans fyrir upplýsíng þeirra og betrun, mætti því sannfæra þá um ad hann eptir Guds køllun kominn var til þeirra. Fyrir þad, ad þeir því trúat hefdu gyldi hann Gudi þakkir; og þessi þeirra trú hefdi nú einnin synt sig i stødugglyndi þeirra i offóknum vantrúadra Júda, er heldu áfram i sinni fornu forherdíng, uns þeir fyllt hefdu mælir synda sinna (2, 1—17). En þessar vidvarandi þiáníngar Thessalonikumanna hefdu nú einnig giørt hinn fodurliga sinnada Postula hardla áhyggiufullan fyrir sínum elskudu børnum, hvorium hann hefdi mátt siá á bák svo illa vidkomnum. Þessvegna hefdi hann, órór i huga af þessu, sendt Tímotheus þeim til hughreystíngar, med því ad meinbugir hindrudu hann siálfan frá ad heimsækia þá. Og sú æskiliga fregn, er Timotheus hefdi borid sér frá þeim, fylti sálu sína med inniligum fagnadi, er léti sig í livsi

með þakklæti til Guðs, með ítrekun þeirrar óskar, að sjá þá aptur og með hiartanligri bæn til Guðs um að vernda þennan elskaða söfnuð (2, 18—3, til enda). Að svo mæltu, áminnir Postulinn þá að laga líferni sitt eptir Guðs vilia, samqvæmt þeim lífsreglum, er hann í nafni Drottins hefði þeim kénnt. Honn varar þá sérílagi við þeim glæpum, er þráliga tíðkuðust meðal Heiðíngia, einkum í svo mikilli borg, sem Thessalonika var, nl. lostasemi og undirferli í orðum og háttum. Til bróðurkiærleika, segir hann, hefði Guð siálfur leidt þá, með því hann lét þeim Jesu Evangelíum í skaut falla; en hann áminnir þá, sem játendur sömu trúar, að samtengiast enn náqvæmar hvörir öðrum. Þeim bæri einnin að rækia yðiusemi, svo þeir verði siálfbiarga og ávinni sér virðíngu þeirra, er þeir lifðu ámeðal — ein áminníng, er Páll ítarligar ítrekar í fylgiandi bréfi, og sem sérílagi var nauðsynlig inubygginrum stórra staða, hvar svo margt lokkar til yðiuleysis (4, 1—12). Nú víkur Postulinn ræðunni til þeirrar raungu meiníngar ámeðal hinna fyrstu játenda Jesu trúar bragða. Þeir giörðu sér nl. í hugarlund, að þeir kristnu, er lifðu, þá Jesus kæmi til dómsins (er þeir bráðliga væntu) mundu í ríki hans hefiast til æðri sælu, enn þeir, er áður vóru framliðnir, og hörmuðu því þess meir fráfall vina sinna. Páll leiðréttir þá í þessu efni og telur

þeim trú um i nafni Drottins, að þeim áður dómsdag burtkölludu kristnu mundi einganveginn lakari sæludist hlotnast enn þeim, er þá væru á dögum uppi. Þeir fyrri mundu vekiast af gröfunum og ásamt þeim síðari mæta fyrir Drottni. Einnig itrekar hann það, er hann munnliga hafði sagt þeim, að þessi dagur Drottins, mundi skyndiliga koma og að eingum væri því unnt að vita, hve nær hann kæmi; en því fremur skyldu þeir með árvekni og i óþreytanligri iðkun kristiligra dygða vera viðbúnir Drottins ofyrisjáanligu komu (4, 13—5, 1—11). Ennfremur leggur Postulinn fleiri áminníngar til, og endar bréfið með hiartanligri fyrirbæn fyri söfnuðinum.

Skíríngargreinir bréfs þessa fylgia á eptir innтaks ágrip næsta bréfs, er að innihaldi er þessu harðla líkt.

## Páls annað bréf til innbyggiaranna i Thessaloníka.

### Inngángur.

Þetta bréf er skrifað skömmu seinna enn það næstundangéngna, og á meðan Páll dvaldi i Korintu. Tvöföld hugraun gaf Postulanum tilefni til að skrifa það. Sá villudómur að herrans tilkoma væri þegar fyrir höndum hafði útbreiðst i söfnuðinum, og svikarar höfðu með fölskum opinberunum og bréfum i Postulans nafni, staðfest hann. Einnin hafði sú, i fyrra bréfi gefna,

advørun móti ydiulrisi, ecki hafi þá tilætludu verkun. Þessar orsakir gáfu Postulanum tilefni til ad ítreka sínar advaranir i þessu bréfi, hvørs hofud innihald hér fylgir.

Innihald.

Postulinn ítrekar sitt þacklæti til Guds fyrir søfnudinn, sem vex i trú og innbyrdis kiærleika, og er ødrum søfnudum til eptirdæmis uppá støduglyndi i ofsóknum og hørmungum. Hann huggar þá med því, ad sá réttláti dómari muni launa þeim trúfesti þeirra vid Gud i ofsóknum, og straffa þeirra ofsóknarmenn, þegar Jesus kémur til ad stadfesta síns ords sannleika og opinbera dýrd sína øllum trúudum. Þarfyrir beiddi hann alla tíma fyrir þeim, ad Gud géri þá verduga þessarar kallanar og ad þeir mættu vera i trú og rádvendni (Iti Kap.) En hvad Herrans tilkomu áhrærir, þá mættu þeir ecki láta falska spámenn eda svikara birla sér inn, ad hún sé þegar fyrir høndum. Ádurenn dómadagur kiæmi, mundi ógudlegleikinn (fráfall) fá yfirhønd i Jesu kirkiu, og stór sinndari uppstánda, sem giæsi sig út fyrir Gud. Ádur hefdi hann munnlega sagt þeim þetta, og hvad þar ennú hindrar útbreidslu þessarar fordiørfunar, sem allareidu hreifir sér heimuglega; þegar hindrun þessi er úr vegi, mun hinn vondskufulli opinnskár verda. Drottinn mun ad vísu ad engu gera lygina fyrir sannleikans

krapt; enn þessir lyginar spámenn mundu þó með allsháttudum tálnum og kukli afvegaleida marga, sem heldur vilia fylgia lyginni enn sannleikanum (2, 1—12). Þess hiartanlegar þackar Postulinn Gudi fyrir, að Þessaloniku innbyggiarar svo snemma hefðu tekið Jesú sáluhiálplega lærdóm, og varast villudóminn. Þeir skyldu því trúlega halda þenna lærdóm og fylgia honum; og eptir margháttaðar áminníngar og óskir, áminnir hann þá með þessum orðum: "vèr vonum til ydar i Drottni, að þér gérið og géra munið, hvað vér bióðum ydur" (3, 13—3, 1—5). Nú ítrekar hann alvarlegar aðvörun sína móti ydiuleisi, sem hann i fyrra bréfi hafði með mildari ordum géfið þeim. Hann bydur þeim i Drottins nafni, að halda sér frá sérhvörjum ydiulausum og óskickanlegum bródur, og minnir þá á sitt dæmi, og það boðorð, hann gaf þeim, þá hann var hiá þeim; og ef nockur ei vildi hlýða þessum hans boðum, þá skyldu þeir halda sér frá honum, svo hann auðmýkist, en hata hann þó eigi sem óvin, heldur áminna hann sem bródur. Bréfið endast með bænum fyrir sösnuðinum og heilsan. Og þar Postulinn venjulega ei siálfur skrifaði bréf sín, en las öðrum þau fyrir, svo lætur hann þá hér vita það merki, hvaraf þeir giætu þeckt hans bréf, nl. hans egin handar undirskrift.

Skýríngargreinir til beggia bréfanna til innbyggiaranna í Thessaloniku.

Jafnvel þó bréf þessi séu skrifuð með tilliti til hinna fyrsta lesara þarfa, þéna þau þó kristnum til uppbyggíngar á øllum tídum. Þau vitna um það stedugllyndi vorir fyrstu kristnu brædur syndu i að viðurkénna Jesu nafn midt í stórum ofsóknum, og um þá bródurlegu elsku sem sameinadi þá hvørn med ødrum. Þau draga ei dulur yfir þau feil, sem héngu við hina fyrstu kristnu, enn stadfesta þó þarhiá með órækum merkium, hvada verkun vor heil. trúarbrøgd hafa á hiørtu þeirra, er adhyllast þau. Þau vitna einnin um Páls føðurlegu gledi yfir þessara hans barna stødugllyndi i þeirra trú, um hans bidkvæmu umhyggiu fyrir þeim i þeirra hørmungum, um hans óhægðir og amstur þeirra vegna, og hans umsorgun fyrir að betra þá. Þau eru því jafn lærdómsrík og uppbyggileg bædi fyrir leikmenn og lærda. Af bréfum þessum gétum vér sannfærst um, hve órèttlátt það sé, að skulda vor trúarbrøgð fyrir það, að þau skapi kosigiæfni og atorkusemi; því hvør hefur kreptugar i ordi og verki mælt fram með þessari dygð, en høfundur þessa bréfs?

Það má annars ei undra oss, að Postulinn talar um Jesu tilkomu til dómsins i þvílíkum tón og ordatiltækium, einsog hann siálfur vonadi að upplifa hana (1 Thess. 4, 17); ødruvísi gat hann ecki talad hérum; Jesus hafdi sagt (Matt. 24,

36): "en af þeim deígi og stundu veit einginn, og eigi englar á himnum, nema fadirinn alleina». Eptir þessum ordum mátti og átti Postulinn ad halda þad mögulegt ad hann kynni ad upplifa þann dag. Hvörnin gat hann annars notad óvissuna hérum, sem upphvatníng fyrir sig siálfann og adra til árvefnis? Enn þegar vér rennum huga vorum til þeirra hörmúnga, sem vorir fyrstu kristnu brædur lidu, svo gétum vér rádid, ad þad sem þeir, eptir Jesu ordum, gátu alitid mögulegt, þess máttu þeir ogsvo, eptir sínu ástandi naudsynlega vænta. Drottins dagur var þeim þessvegna kiær þánki, því þad var þeirra endurlausnardagur. Þetta var þad atridisord hvarmed þeir huggudu og hughreistu hvorn annann. Og eptir Páls og Jesu lærdómi, eru þeir hreinskilnu ecki á tálar dregnir i sinni von, því þeir eru daudir ádurenn Drottin synilega kom; þeirra daudadagur var fyrir þá sem Drottins tilkoma, sem einn endurlausnardagur. Ad enir kristnu lengdust eptir Drottins tilkomu, og glöddu sig þarvid, þad lastar ecki Postulinn; þad giördi hann siálfur. Enn þegar annadhvört grillumenn eda svikarar þóktust vita Guds leindardóm, og vildu vid falskar opinberanir, útreikníngu og lyga vélar tilgreina ár og dag Drottins tilkómu; þá máttu þeir kristnu advarast móti þvílíkum villudóm, sem gat haft, einsog kirkiusagan sannar, skadlegar verkanir. Og þetta giörir Postulinn einkum i því

síðara bréfi. Að hann ei siálfur hafði verið orsøk i þessari villu, er auðsætt þaraf, að hann i bréfunum (2 Thes. 2, 5) heldur sér til þess, sem hann munnlegn hafði kénnt þeim, og það var, að Drottinsdagur eigi var þegar fyrir hendum, enn að þar áður fyrri mundi stér fordiorfun trúbla Jesu kyrkiu og falskir spámenn uppstanda, sem mundu afvegaleiða marga.

Hvor þessi falski spámaður hafi verið, sem Postulinn afmálar svo herfilega, verður ecki með vissu sagt. Hvert hann meinar þarmeð einhvørn einstakann sannleiks óvin eða yfirhøfuð vill láta það segia svomikið, að áðurenn Drottinn kémur, mun sannleikinn hafa stóra baráttu með lyginni, það gétum vér verið i óvissu um, án þess uppbygging vor líði þarvið nockurn skaða. Þessi myrki staður — og eptir sínu eðli mega allir spádómar, sem Postulinn Pétur kénnir oss (2 Petr. 1, 19—21), vera myrkir, þángað til þeir uppfyllast — gétur þó þénað þeim trúandi bæði til aðvørunar og upphvatníngar. Vort tímabil hefur einnin marga falska kénnara. Vorra daga hiágúð, vantrúin, "upphrokar sér yfir Guð og hans orð, og setur sig i Guðs musteri og gefur sig út fyrir einn Guð". Hún lofar heiminum táknum og kraptaverkum af þeirri upplysingu, sem koma mun á jarðríki, ef trúin á Jesum, sem hún kallar hiátrú, útryddist. Margir kvéfalla þessum afguð, vegna þess það smiaðrar manna fáfeingilegleika

að géta stolað uppá sig siálfa og sína skynsemi, án þess að hafa þörf á Guði og hans orði, eða vegna þess að vantrúarinnar kénnarar vita að ná hylli léttferðugra manna. En reinslan hefur sýnt, hvaða verkun slík upplýsíng hefur. An þess að útþýða þenna Páls spádóm um einstaka mann eða tíma — sem er mjög ifiárverðt — skulum vér bruka hans kreptugu orðatiltæki til aðvörunar móti sérhverjum guðlastara, sem vogar að spotta kristna trú, og vill sífa vorum hiörtum frá Guðs orði, sem er hin einasta sanna uppspretta til vorrar rósemis og huggunar. En á aðra síðu skulum vér ekki heldur vera hugsiúkir fyrir trúarbregðunum, þó vantrúin ástundum uphroki sér, og þessa heims Guð formyrkvi margra sinni. Drottinn mun varðveita sinn söfnuð; „Han mun segir Postulinn (2 Thess. 2, 8)., með anda síns munns (með sannleikans eginn krapti) afmá lyginnar kénnara, og þá hann opinberast, að engu géra hann. Verum því glaðir, að Guðs orð aptur útbreidist í hans söfnuði, því það alleina gétur reist skorður ógudlegleikanum.

## Fyrra Páls bréf til Timotheus.

### Inngángur.

Þá Páll á sinni annari kristnibodsferð heimsókti áður stiptaða söfnuði i stöðunum: Derbe og Lystra i Asía, fann hann ámeðal hinna trúuðu mann nokkurn úngan, Timotheus að nafni, er

afbragdøliga hafdi framførum tekid i kristiligum frædum og med hrósverdri kostgiæfni fylgt sér ad sannleikans útbreidslu. Þenna valdi Páll sér til samferdamanns og medhiálpara (s. Postul. g. 16, 1 fylg.) og giordist hann Postulanum hinn handgengnasti lærisveinn, var opt i ferd med hønum og tók þátt i mørgum mannraunum og hættum med hønum.

Timotheus var, þá Postulinn skrifadi bréf þetta, af hønum siálfum settur biskup þ. e. kénnari og forstødumadur fiølmenns safnadar i þeirri miklu og frægu borg, Ephesus, hvar Páll hafdi siálfur dvalid i 3 ár. Hvenær og hvadan bréfid er skrifad, er ei unnt med vissu ad segia. Þó má þad med miklum líkindum ráda af bréfsins eginn innihaldi, ad søfnudurinn i Ephesusborg hafi þá ei verid ad eins nyliga stiptadur, heldur fastliga nidurskipadur, og hafi haft kénnimenn og kyrkiuþióna, og ad bréf þetta ei verid hafi medal hinna fyrstu, heldur hinna sídustu bréfa, er Páll reit, og þykir því sú tilgáta líkligust, ad hann skrifad hafi bréf þetta ímilli þess hann var i fyrra og sídara sinni i hoftum og halldi i Romaborg. Laus látinn úr fángelsinu, hefir þá Páll heimsókt, medal annara, einnin søfnudinn i Ephesusborg og vid burtfør sína þadan, skilid vid Timotheus sem ædsta kénnara og stiórnara safnadar þessa.

Svo markverdt þad embætti var, er Timotheusi var á hendur falid, ad vera umsiónarmadur

þess safnaðar, er var sem móðir og forspraKKi annarra safnaða í Asía, eins vandasamt var það fyrir mann úngan að aldri. Villudóms kénnarar, nærhæfis líkir þeim, sem oss eru kunnir af næstundangángandi bréfi höfðu smeigt sér inní söfnuðinn í Ephesusborg. Það vóru nl. júdadóm rækjandi grillumenn og skinnhelgir, er að vísu höfðu með vörunum tekið kristna trú, en, sem bæði með óhyggilígu vandlæti fyrir Mosis lögum og með margsháttar skröksögum, gagnslausum heilabrotum og orðabrellum öldungis rángfærðu Jesu lærdóm. Með hvörium hætti þær í bréfinu umgétnu skröksögur, ættartölur og notalausu spurdagar verið hafi, vita menn ei með vissu, sem oss má og einu gilda. Að líkindum var það þeir í inngángi bréfsins til Kollossaborgarmanna áminstir draumórar um himneska anda eðr álfa, hvörra ótöluliga flokka og innbyrðis skyldsemi (ættartölur) dárar þessir innbirluðu sér að bera kéunsl á og hvörra hylli þeir hugðu að ávinna sér með sjálfspinting og undirþrykking allrar fysnar skilníngsarvitanna. Þeim þótti afbragðsligur heilagleiki í því falinn vera, að qvongast ekki, að fasta opt sinnis, að drekka ei vín, að neyta hvörki kjöts né annarar kjötugrar fæðu. En eins og vér hægliga, fyrir aðstoð Jesú trúarbragða skjæra ljós, skyniað fáum, hve rángur þessi sjálfuppáfundni heilagleiki var, og hvörsu fíflslig þessi æfintyri um andanna oss litt kunnu veraldir vóru, svo

fengu skrökśögur þeśsar, sem nokkurs konar diúp-sær fródleikur, samt sá á þeim grundvalladi, falski heilagleiki engu ad sídur ærit medhald á þeim tídum og löndum, þá og hvar þvílík grilluśyki var svo almenn.

Til þess ad vara Timotheus vid þeśsum sannleikans fölsurum, og ad hvetja hann til med stödugIyndi og vandlæti ad giæta þess, ad Jesú kénningar ecki meingudust, skrifar Páll bréf þetta, i hvöriu hann einnin géfur allmargar ágiætar reglur um nidurskikkun hinnar opinberu gudsdýrkunar, um þá eginnleika, er mönnum bæri ad líta á, þá valdir væru kénnimenn og kyrkiuþiónar, og yfirhöfud um þá háttsemi, er safnadarins umsiónarmönnum bæri ad giæta.

Annars mun Páll an efa ei hafa tilætlast ad Timotheus alleina læsi bréf þetta, heldur ad þad skyldi lesast öllum söfnudinum; og því finnum vér margt í því er hvörutveggiu var eins markverdt og lærdómsríkt. Med því ad bréfsins innihald er audskilid, viliam vér ad eins framsetia þess höfudatridi.

## Innihald.

Fyrst áminnir Postulinn Timotheus ad hafa giætur á þeim falskénnurum er meingudu kristinndóminn med skröksögum, er öllu því, ad menn skeyttu ei höfudatridanna i Jesú heilögu trúarbrögdum, og sem óhyggiliga heldu Mosis lögum

fram með kappi, án þess að vita þeirra tilgáng (1, 1—7.) lögmálið væri í siálfu sér gott og naudsynligt sem fráhalds girdíng lasta og stórglæpa; en þá fordadist hvør madur sannkristinn, ei af otta fyrir lögmálsins hótunum, heldur af betri rokum, er falinn væru í Jesu lærdómi (v. 8—11). Og uppá það hvørsu heilladríug gudspiallinn væru syndurunum, já, þeim mestu glæpamønnum, tekur Postulinn siálfan sig til eptirdæmis, þeim sannidrandi til hughreystíngar, og lofar og prísar Drottinn, inniliga hrærdur í hiarta af þakklátsemi fyrir þessa dásamligu nád (v. 12—17).

Þetta Jesu evangelíum skyldi Timotheus þá innprenta, og undir þess merkium drengiliga strída, þá uppfylti hann það, er fyrir hønum var spád, þá hann var skikkadur til kénnimanns, nær hann, sem sannur Jesu strídsmadur, hreystiliga verdi Jesu óspiallada evangelíum fyrir hinum fölsku kénnendum, sem Hymenæus og Alexander, hvøria Postulinn hefdi mátt reka úr søfnudinum (v. 18—20.)

Því næst géfur hann reglur, áhrærandi hina opinberu gudsdyrkun, fyrst og framast um bæn og fyrirbænir fyrir øllum, ei alleina fyrir kristnum, heldur og fyrir júdum og heidíngium, samqvæmt Jesu háleitu verkstofnan, er engan undanskildi (2, 1—7). Mennirnir skyldu frambera bænina; konur skyldu birtast með sæmiligum klædaburdi, leytandi sér hróss og heidurs í Guds ótta

og siðprýði, en ei með skrautklæðum og sundurgérð. Það sæmdi ei konum, að kenna opinberliga, heldur alleina karlmönnum sakir þeirra yfirburða, er þeim i andverðu hefðu veittir verið, þó bæri enganvegin að niðra qvinnunum; þeim væri, sem mæðrum og fóstrum vegligt embætti af Guði á hendur falið (2, 8—15).

Að svo mæltu, giörir Postulinn grein á, hvoria Eiginleika menn skyldu líta á i kosníngu biskupa (þeir sömu sem hinir elðstu, eldúngar þ. e. kénnarar og tilsiónarmenn) (3, 1—7); i vali safnaðarins þénara (er ólu önn fyrir hinum fátæku, siúku og fyrir réttri háttsemi við tíða giörðir) og i kosi safnaðarins þiónustuqvenna (er höfðu sömu umsyslan á hendi, i tilliti til qvennfólks) (3, 8—13).

Sá grundvöllur, á hvörium allir kristiligir kénnendur byggia skyldu, væri hin heilaga, af Guði opinberaða fræði um Krist og mannanna endurlausn fyrir hann (v. 14—16). En það hefði Guð sér (Páli) kunngiört, að sá villulærdómur, er allareiðu bryddi á i söfnuðinum, mundi áfíðan enn fremur ná þeim þroska, að hræsnisfullir kénnendur, jafnvel þótt þeir viti betur (með brennimark á samvitskum þeirra) kénna mundu skröksögur og lygð, sem þær Krists lærdómur væri, og falsa þá hugmind er hann hefir gefið oss um hið sanna frómlyndi, með því að meina að i haldi frá hiúskapar samvitskum og frá visskyns

matvælum o. s. frv. sé heilagleiki falinn. Gégn þessum skrøksøgum og þekta heilagleika skyldi Timotheus strída af øllum kroptum med því ad leida þá kristnu til sannarligs Gudsótta (4, 1—7.) Því hin líkamliga sjálfprófun (føstur o. s. frv.) vardadi lítils, en þess dyrmætari væri sannur Gudsótti, fyrir hvørs útbreidslu Timotheus ásamt Postulanum ætti ad strída og lída; til þess hvetur Páll hann hardla kroptugliga i seinni hluta hins 4 Kap. 8—16 v.

Ad tveimur reglum framsettum (5, 1—2) sem sérhvørium kénnara eru einka árídandi, gefur Póstulinn ágiætar forsagnir áhrærandi naudstaddra ekkna framfærslu i søfnudinum. Þad mættu vera sannar ekkiur, þad er: af øllum, utan Gudi yfirgéfnar, er menn skyldu ala onn fyrir. Hefdu þær frændur, þá væri þad þeirra skylda ad forsorga þær; þær mættu ei vera søfnudinum til þyngsla: þær ættu ad vera aldradar, sidsamar og dygdugar. Ungum ekkium þarámóti skyldi ei almenn forsorgun veitast, því annars vendust þær til idiuleysis og leti, og af því til losta og annarra lasta. Þvílíkar skyldu því ei (af skinhelgi) halda sér frá ekkaskap, heldur giptast o. s. frv. (5, 3—16).

Eptir ad Postulinn þessu næst hefir talad um kénnaranna rétt til launa og virdíngar, segir hann fyrir, hvørsu med skuli fara, þá øldúngur nokkur (kénnimadur) ákærdur væri og hann sann-

arliga hefdi vakid hneixli i söfnudinum, þá mætti Timotheus sérílagi fordast ad vera vilhallur (5, 17—21). Þá hann skikkadi kénnimenn, er skédi med áleggíng handa og bæn, skyldi hann sérílagi varsamur vera og halda siálfum sér hreinum (ei eptir meiníngu hinna skinheilögu, er álitu hreinlæti i fráhaldi frá vini v. s. frv. fólgid vera) heldur hreinum af manngreinaráliti og i hlutteknıngu i annara syndum. Hér mætti þá náqvæma rannsokun vidhafa; því ad vísu væri sumra illa hugarfar audkéndt, en sumra þarámóti yrdi ad eins med rannsókn uppgötvad; á líkan hátt væri einnin hinna frómlyndu góda siunislag ásigkomid (5, 22—25). Med fám, en snoturligum ordum segir Postulinn fyrir, hvad kénnararnir ættu ad innprenta hinum kristnu þrælum, hvært heldur þeirra húsbændur væru kristnir menn edur ecki (6, 1—2.)

Postuliun ítrekar advaranir sínar vid falskénnendum og giörir grein á þeim gruggugu uppsprettum, hvadan þessar afbakanir Jesu hreina lærdóms vanaliga flytu, samt þad sér vilhalla sinnislag, er leiddi til ad brúka trúarbrögdinn til ávinníngs (v. 3—5). Ad vísu væru þau þeim nægiusama til mikils ágóda; en fégirni væri rót margra lasta (6—10 v.) Af heitu hiarta hvetur Postulinn lærisvein sinn og vin til ad reynast Gudi og sannleikanum trúr og ad vaka yfir, ad Jesu kénníngar vidhaldist óspialladar og ófalsadar, uns

hann kiæmi. En enginn gæti fyrirfram vitad edur áqvedid Drottins tilkomudag, nema sá alvísi og almáttugi, hvorium alleina bæri heidur og prís fyrir alt (v. 11—16). Postulinn bætir enn áminníngum vid í tilliti til hinna audugu medlima safnadarins, varar ennþá einu sinni Timotheus vid raungum og hégómligum lærdómi og endar med vanaligum hagsælda-óskum.

Þá vér hefum í stuttu máli framsett ágrip af innihaldi tveggia næstfylgiandi bréfa nl. hins sídara til Timotheum og til Titum, þykir oss best hæfa ad láta fáeinar skýríngargreinir yfir oll þessi 3 bréf fylgia á eptir í einu lagi, med því þau so miog eru lík hvort odru ad innihaldi og augnamidi.

## Annad bréf til Timotheum.

### Inngángur.

Þetta er ad ollum líkindum hid sídsta bréf, sem vér hofum frá Póstulanum Páli. Þegar hann, sloppin úr sínu fyrsta fángelsi í Róm, hafdi heimsókt fleiri sofnudi bædi í Evrópa og Asía; hefur hann a ny ferdast til Róm, hvar honum aptur, sem Jesu lærdóms prédikara, var varpad í hardara fangelsi, sem endtist med hans lífláti. Héraf gétum vér, einsog ádur er ávikid, skilid þau frábrugdna tón þessa bréfs, og þeirra annara, sem vér hofum frá þeim fángada Postula. Þegar hann reit þessi, vonadi hann um skamt ad

siá sína ástfólgnu vini; þá gaf hann, en þótt sem fángi, kroptuglega mælt fyrir Jesu sök, svo að hans fiötur hiálpuðu til Evangelii framgángs (Philipp. 1, 12. 25). Í þessu brési byrtist hann þarámót sem innvígðt slátrúnar offur, sem sá, er sér vissann dauðann fyrir sér; allir flýa, sem voru hiá honum i Róm, utan Lucas, af ótta fyrir að mæta sömu forlögum sem hann.

Kristinna ástand i Róm hafði mikið umbreytst síðan Páls fyrsta fángelsi. Í fyrstunni voru kristnir ecki svo mikið ofsóktir af heiðíngium sem af gyðíngum. Þareð Kristindómurinn útgéck frá Gyðíngadóminum, svo voru þeir kristnu i fyrstunni álitnir sem eitt gyðínga félag, og þessvegna, álitt og þessir liðnir af heiðíngium eða þó snarara foracktaðir enn ofsóktir. Nú þaramóti var það lióst orðið, að kristnir voru alt annað enn Gyðíngar, og að Kristinndómurinn ei hafði minna augnamið, enn að kollkasta heiðnum trúarbrögðum, sem voru svo náktvæmlega sameinuð því Rómverska stiórnarstandi. Sá grimdarfyllsti tyranni Nero var þaraðauki i þann tíma keisari i Róm. Einusinni hafði Páll, sem á ny var fángaður, mátt mæta frammi fyrir heiðnu yfirvaldi, og vegna sinnar kroptugu forsvarsræðu ennú sloppið frá því, honnum áqvarðaða straffi, að kastast fyrir lión. En sök hans var einasta skotið

á frest; hann vissi, að Neronis ógnðlega hof hafði fastráðið dauða sinn.

Svoleiðis var ástatt fyrir Postulanum, þá hann skrifaði þetta bréf, hann var einmana og vinalaus. Nockra af sínum meðþiónum hafði hann siálfur sendt burt til eins og annars safnaðar, um hvers efni honum var framar ant enn um sín egin. Nockrir hofðu af ótta yfirgéfið hann. Timotheus var austur i Asía og líklega ennú i Ephesus. Guð einasta var hans traust.

Postulinn óskar ennþá einusinni, ef það skéð giæti, að siá sinn kiæra Timotheum; enn um fram alt óskar hann, ef honum eigi hlotnaðist að siá hann framar á þessari jorðu, að eptirláta honum nockur eptirtakanleg orð. Hvort hann hefur náð sinni fyrri ósk, vitum vér eigi; þeirri síðari hefur hann án efa náð, því það er þess stóra lærimeistara skilnaðar bréf til trú'asts lærisveins, þess deyandi foðurs ræða til sins kiærasta sonar, sem vér lesum hér.

## Bréffins innihald.

Eptir þær veniulegu luckuóskir til Timotheum, lætur Postulinn sína gleði i lióst yfir þeirra sameiginlegu trú og von, og sína laungun eptir að siá hann, sem hafði tárfellt við skilnað þeirra (líklega i Ephesus). Hann áminnir hann að lífga hiá sér þær andansgáfur, sem hann hafði i lióst látið, þá hann vígðist til síns embættis, án þess

að hræðast (sem margir aðrir) nærverandi þreingíngar, eða þá hættu, sem Postulinn var i, og án þess að skammast sín fyrir það Evangelium, sem veitti trúuðum svo stóra og óverðskuldaða velgiörninga (v. 6—10). Sem prédikari þessa Evangelii meðal allra þióða, var Postulinn fús til að líða alt, fullviss um að von sín mundi eigi til skammar verða (v. 11—12). Timotheus skyldi varðveita þann hreina lærdóm (mót rángfærslu falskra kénnara) og útbreiða hann með kostgiæfni. Postulinn kvartar yfir að fleiri kénnarar frá Asia (sem líklega voru nú i Róm) hafi snúist frá honum, en hrósar og blessar Onesiphorus fyrir hans sloðuglyndi (v. 13—18).

Þannin skyldi Timotheus vera sterkur i trúnni á Christum, og fræða aðra, sem hæfilegir væru til kénnara embættis, i þeim heilsusamlega lærdómi, sem hann í margra vitna nærveru (líklega þa hann vígðist) hefði viðurkénnt. Einsog stríðsmaðurinn neitir orku til að gédiast stríðsherranum, og sá sem slæst, til að ná kórónunni, og bóndinn i von um ávöxt, þannin skyldi ogsvo Timotheus. Hann skyldi hafa Jesum, þann upprisna, i minni, sem Postulin, er leið með Jesu, svo að hann giæti með honum dyrð hlotið (2, 1—13). Postulinn varar hann alvarlega við þeim fölsku kénnurum, sem með sínum heilabrotum og gagnslausum orðaþrætum (hvarum talað er i hinu 1ta bréfi) snúa sínum áhángendum frá sannleikanum,

svosem Hymenæus og Philetus, er segja upprisuna skéðna vera (þeir kénnðu líklega, að engrar annarar upprisu var að vænta, enn þeirrar umbreytíngar (andlegrar endurfæðíngar) sem skéð var fyrir Jesú trúarbrogð. Enn Jesú kirkia stóð fost móti þessum fávíslegu lærdómum, grundvollnð á Christo, og innsiglað með hans hreina lærdómi. Enn Jesú sefnuði er eins háttað sem síðhvoriu stóru húsi; þar voru slæm og góð kér, þannig í Jesú sefnuði vondir og góðir menn. Sá sem varðveitir sig hreinann frá vantrú og löstum, var þénanlegt verkfæri fyrir herrann. Timotheus skyldi með lítalausri hegðan og kristilegu hugarfari mæla fram með Christi lærdómi, en eigi þrætast við þá fölsku kénnara; með vingiarnlegu viðmoti skyldi hann reina til að vinna sína mótstodumenn (v. 14—26).

Á þeim síðustu tímum (tíðinni eptir Messías, bæði nú og framvegis) mun síðsemi vanrækiast, og lestir og hræsni þróast í kristinna sofnuði (3, 1—6). Margir kennarar misbrúkaðu nú þegar aðgáng sinn í húsunum til að locka lauslátar kvennsviftir o. s. fr. Slíkir ógudlegir kénnarar mótstanda sannleikans kénnurum, álíka sem ægyptalands kuklarar mótstóðu Moisi; enn hinna fíflska mun, sem þessara, bráðum auglíós verða (v. 7—9). Enn Timotheus hefði Postulans dæmi fyrir sér bæði í lærdómi og lifnaði, og í stoðuglyndi í ofsóknum þeim, hann hefði liðið, og sem allir

sannleikans kénnarar mættu viðbúast, sem ei vildu, einsog svikararnir, villast og villa aðra (v. 10—13). Timotheus skyldi halda sér fast við Postulans lærdóm og hið G. Testam. sem fyrir trúna á Jesum Krist upplýstist; þá var hann sannur Drottins þénari (v. 14—17).

Postulinn biður nú Timotheum í Drottins nafni, að rækia sitt mikilvæga kall með trúfesti og kostgiæfni, og það því heldur, sem þar munu koma kénnarar, er rángfæra Jesu heilaga lærdóm eptir sínum óhreinu fýsnum; Timotheus yrði því að vera árvakur, sem guðspialls prédikari; Postulinn stæði nú sem eitt slátrunar offur, yfir hvers höfuð offurvíninu nú þegar var úthellt, við hlaupskeiðsins enda (4, 1—8). Hann óskar að siá sinn elskaða Timotheum, þareð næstum því allir hefðu yfirgéfið sig, nockrir hefðu flúið frá sér, aðra svo sem Titus, hefði hann sendt burt (9—11). Nú talar hann um sín egin efni; varar við Alexander nockrum (máské þeim sama, sem umtalast i Post. g. 19, 33); minnist á sitt fyrsta forsvar, hvar allir yfirgáfu hann, utan guð o. s. fr. Bréfið endast með qveðiunı og óskum frá Postulanum.

## Bréfið til Titum.

Næst eptir Timotheus var Titus Páli hinn ástbundnasti lærisveinn. En af æfisögu hans finnst harla lítið i letur fært. Hann var heiðinn maðr

ur að ætt og uppruna, var í fylgd með Páli á þeirri markverðu ferð, er hann ásamt Barnabas gierði frá Antiochia til Jerúsalem (Gal. 2, 1—3) flutti síðan arfðandi eyrindi Páls i Korintuborg. Ecki meira, enn sagt er, finnum vér i øðrum bréfum Páls skráð um Títus; því i Post. g. b. er hans hvergi getið.

Af þessu bréfi verðum vér þess vísari, að Páll hafði skilist við Titus sem kennara og tilsiónarmann (biskup) hinna kristnu safnaða á Krít, (Creta) sem er allmikið eyland i midjarðarhafi, til að fullenda það af Postulanum byriaða verk, að setia þar kennimenn og að koma réttri skipan á i søfnuðinum.

Bréf þetta er ritað nærhæfis um sama leyti og hið fyrra bréf til Tímotheum, hveriu það er hardla líkt að innihaldi, nl. millum þess að Páll i fyrra og síðara sinni sat fánginn i Rómaborg. Í þessari millitíð hefir þá Postulinn siálfur verið i Krítarey og með góðri heill boðað þar kristni, en kalladur þaðan til annara starfa, látið Titum þar eptir, til að fullgéra þá bygging, er hann siálfur grundvallað hafði.

Títus hafði þá sama embætti á Krít, sem kennslu bróðir hans Timotheus i Ephesusborg og átti ei síður við vandræði að beriast. Þar voru Júðar allmargir, af hveriam nokkrir með voruu, um hǿðu tekið kristni, en voru af huga Júðar, er héldu Mósis lagasetníngum fast fram; þar

voru og grillumenn, er afbøkudu Jesu flecklausa lærdóm med þesskonar strøksøgum og draumura. diktum, er vér af því undangángandi berum kénnsl á. Enn fremur bættist þad vid, ad krist. armenn voru, jafnvel hiá heidnum rithøfundum, illa.rœmdir fyrir óſidi og illlifnad.

Postulinn skrifar þá bréf þetta i sama til. gángi, sem hid fyrra bréfid til Timotheum, til þess ad vara sinn ástfólgna Titus vid hinum tælandi falskénnendum, ad áſysa hann til at vaka yfir, ad Jesu lærdómur haldist óspilladur, og ad veg. leida hann med fødurligum rádum og áminníng. um i nidurskikkun safnadarins. En eins og bréfid til Timotheum, svo var og þetta bréf ætlad til upplesturs fyrir søfnudinum, bædi til ad géfa mønnum gódar lífsreglur og til ad stadfesta þann myndugleik, er Postulinn hafdi folid Titusi á hendur sem safnadarins oddvita. Med því vér annars i þessu bréfi finnum ad miklu leyti hid sama, sem i fyrra br. til Tim., þótt ad því sé, er var hins andríka Páls von og vísa, ødruvísi ordum komist, þá gétum vér þess stuttligar fram. sett bréfsins innihald.

## Innihald.

Eptir ad hann hefir verid nokkud lángordari um sína postulaligu køllun, enn hann plagar (fremur med tilliti til safnadarins enn Titusar) og heilsad þessum sínum andliga syni med van.

aligum óskum, minnir hann Titus á, hvörsvegna hann var eptirskilinn á Krít nl. til að fullkomna niðurskikkun safnaðarins, er Postulinn hefði orðið að yfirgéfa ófullgiörða, að yfirskipa öldúnga (kénnara og tilsiónarmenn) í sérhvörri borg; og hvínæst telur hann þá eiginleika upp, er mönnum bæri að líta til, þá kosnir væru biskupar (þeir sömu og öldúngar 1, 1—9).

Það væri þess heldur nauðsynligra að vera vandlátur í vali kénnara, sem þar væru almargir, einkanliga gyðíngar, illsinnaðir og giarnir á að afvegaleiða, og sem Krístarmenn yfirhöfuð, jafnvel hiá eiginn ritsmiðum, væru illakyntir. Kénnendurnir ættu því stránglíga að haldast til að kénna Jesu heilnæmu (ómeingudu) lærdóma, án þess að auka við þá skrokksögum og mannasetníngum. (Með einkiskonar matvæla fráhaldi gæti hin skinhelgi hreinn orðið fyrir Guði); alleina væri þeim hreina (hreinhiartaða) allir hlutir (sérhvör fæða og nautn) hreinir, (því hann neytir alls með hófsemi og þakklæti til Guðs); en saurugum og vantrúuðum er ekkert hreint o. s. frv. (v. 10—16.)

Postulinn lýsir því sinnislagi, er Jesu hreini lærdómur, (ómeingaður af skroksögum og mannligum viðaukum) verkar hiá hans sönnu játendum, hiá öldruðum og úngum, hiá konum sem konum, samt hiá þeim lítilmótligustu, hinum kristnaðu þrælum, og hvörsu Titus bæði með kénníngum og eginn eptirdæmi kappkosta skyldi að

efla þetta sannkristiliga hugarfar (2, 1—10). Því þessvegna væru heiminum guðspiallinn boðuð (ecki að þau skyldu vera hægindi yfirdrepskapar og latmennsku) heldur að þau hreinsa skyldu hiörtu manna af illum girndum og uppfóstra sanna Guðsdyrkendur og mannvini; og þá verkun mættu þau hafa á alla þá, er réttiliga kynnu að meta Jesu forþénustu og þá von, er hann hefði géfið oss o. s. frv. (2, 10—15.)

Titus skyldi einkanliga vara við þeim löstum, er Krítarmönnum var giarnt að drýga, og hvetia þá til að bæta hugarfar sitt, (3, 1—1). Kristinadir Júðar mættu ecki innbirla sér að þeir i tilliti til fæðíngarinnar væru Heiðíngium fremri: vér vórum, segir Postulinn, sem Gyðíngar, ei síður enn Heiðíngiar illsinnaðir. En til að útryma þessu vonda sinnislagi hefði Guð veitt þeim krapt, þá hann af óverðskuldaðri náð hefði kunngiöra látið bæði Júðum og Heiðíngium, hvörutveggiu eins syndugum, Jesu alsælu ollandi lærdóm og innvígt þá til hans með skírninni, með hvörri þeir (er fullvaxnir létu skírast) skuldbyndust til þess nýa og umbreytta lundarlags, er nýði Drottins verkaði hiá þeim trúuðu og fyrir hvört þeir, er Guð náðaði, yrðu hæfiligir fyrir eilíft líf (3, 3—7).

Avextir þvílíks sinnislags væru góð verk; þeirra hvatamaður skyldi Titus vera og forðast orðahnippíngar um skrokséguc Júða og grillu-

dikt. Hann skyldi slita umgengni og mök við þá, er, eptir eina og aðra áminníng, þverúðarsamliga forsvöruðu þær meiníngar, er ei væru samhljóða Jesu óafbökuðu kénníngum (v. 8—11). Postulinn biður Titusi til sín að koma, og biður hann að bera umhyggiu fyrir tveggia ferðamanna og kénnara nauðsynium; það heyrði einnin til þeirra góðverka, er ætti að prýddi þá kristnu öðrum fremur. Hann endar bréfið með qveðiu og óskum, sem hann átti vanda til.

## Skýríngagreinir hvorutveggiu bréfanna til Timotheum og bréfsins til Titum.

Hér liggia þá 3 bréf Postulans Páls oss fyrir augum, er ritud vóru til að leggia tveim, af hönum siálfum uppfræddum, kristniboðurum þeirra háa embætti uppá hiarta, til að leiðbeina þeim til að rækia það tilhlýðiliga og framsetia kénnenda og safnaðarins medlima skyldur hvörra til annara innbyrðis. Agiæti ritgiörða þvílíkra þarf ei hóls né meðmæla við hiá kristiliga sinnuðum kénnendum eða tilheyrendum.

Að vísu var það ei markbakki hins helga rithöfunds smásmugliga að tilgreina alla parta embættis kristiligra kénnimanna; en höfuðstykkið þessa efnis og atriðið, af hvörju allt annað má leiða, finnum vér hér. Hvað einum kénnara byriar að vera sösnuði sínum (1 Tim. 4, 12 fylg.)

hverium eginleikum hann skal giæddur vera (1 Tim. 3, 2 fylg) hvert vera ætti hans mark og mid allrar trúarbragda kénníngar (1 Tim. 1, 5); á hverium sannindum hann grundvalla skyldi giør vallar kristiligar kénníngar (1 Tim. 3, 15—16); hvornin honum bæri ad næra heilagt óbreytanligt vandlæti fyrir sínu embætti (1 Tim. 6, 11 fylg. 2 Tim. 4. 1 fylg.) en þó ávalt sameina hógværd hugrekki og vandlæti (2 Tim. 2, 24—26 og 3, 14 fylg.); hvernveg hann vaka ætti yfir ad lærdóms urinn ei afbakadist (Tit. 1—9 fylg), yfir sidferdi þess honum á hendur falda safnadar (s. s. Tit. 2, 1 fylg), yfir siálfum sér, sem munstri þess medlima og oddvita (Tit. 2, 7. 1 Tim. 4, 12—16); hvílík ábyrgd á honum lægi, ef hann reyndist ótrúr i sínu embætti og hvad honum skyldi til hughreystíngar og huggunar þéna. ef hann, sem sdunkollud stridshetia Krists, mætti hatri og ofsóknum (2 Tim. 2, 1 fylg. og 4, 3—8) o. s. frv.; þetta er þó sannarliga høfudatridid fyrir einn kristindóms kénnara; og þetta er ad vísu þad, er Postuliun fáordur en gagnordur og med inniligu hiartnæmi leggur sínum tveimur andligu sonum, Timotheusi og Titusi, og jafnframt øllum rettsinnudum kénnendum upp á hiarta.

Jafnvel þótt alt þetta sagt væri i tilliti til nánustu naudþurfta hinna fyrstu lesara, þá hindrar þad oss þó eingannvegin frá ad hagnyta oss innihald bréfa þessara til sannrar uppbyggíngar.

Þótt nokkur hluti þeirra villulærdóma, við hverium Páll hér advarar, alleina á hans dögum væri í tídsku; hvers þarfnast einnin vorar aldir þó fremur, en þeirra kröptugu advarunarorda, er bréf þessi framsetia, móti þeim, er víkia frá Jesu hreina lærdómi? og flytur ei þvílík afvegagánga sem optast ennþá af somu gruggugu uppsprettum, sem Páll nefnir 1 Tim. 6, 3—5 og vídar? Vel er oss farid, ef vér, um fiøru og flód mannligra meiníngu holdum oss fast vid þad biargid, er Páll 2 Tím. 3, 14 vísar oss á. Ættartolur þær, samt þær fánytu og hyggialausu spurníngar, sem svo optsinnis er getid í bréfum þessum, voru samkynia grillum Júda á þeim dögum; en þá margir á vorum tídum lesa biblíuna, annadhvort til ad finna eitthvad í sogum Samsonar edur Jephta til ad þreyta kapprædur um, edur í Opinberunarbók Johannis ad niósnast eptir tilkomandi vidburdum, er hinn alvitri einn veit, edur i ritníngarinnar leyndardómum ad skilia meir, enn oss er unnt ad skilia. Leidast þeir þá ei af samlíkum anda smægiligrar hugsni, og grillumenn medal Júda, og þurfa þeir þá ekki, sem þessir, advarana vid, ad þeir fordist allar þilbæriligar, sálu og hiárta gagnslausar, spurníngar, er alleina ollu kapprædu og illdeila; og ad eins leyta þessa eina i biblíunni, sem nytsamligt er til lærdóms til sannfæríngar, til leidréttíngar, til uppfrædíngar i réttlætinu? Þessvonar

ſkinhelgi, er kann uppá þeim heilagleik að lifa ógiptur og yfirhofuð að bindast fyrir saklausri lystisemi er ſkilníngarvitinn fýsir til (1 Tim. 4, 3.) er að vísu á vorum girndasſkn. dögum ei so mieg almenn; en er smiaðurmál og litfögur guðhræðsla, þótt með eðrum mindum, ecki eins almenn nú sem á þeim eldum? Og þó nokkur meini, að svo vellystínga-giarnar tíðir, sem vorar eru, ei þorfnudust aðvarana við ofmiklu bindindi eður að þvínga náttúru sína um of, so má hann þó viðurkénna, að oss því heldur byriar að leggia það uppá hiartað, er Postulinn strax segir. Oll Guðs ſképna, segir hann, er i siálfri sér góð og saklaus; en, leggur hann viturliga til (1 Tim. 4, 4—5), alleina þá, nær hennar er notið með þakklæti til Guðs, nær hún helgast með Guðsorði og bæn og hóffemi er viðhofð; því, segir hann á eðrum stað (Tit. 1, 15) alleina fyrir hinn hreinhiartaða er allt hreint; en fyrir þann saurugaða og vantrúaða ekkert hreint. Þetta orð megum vér þó viðurkénna að vera talað til þeirrar aldar, er stiórnast af holdligum girndum, og gleymir Guði.

Hvervetna eru þessar, sem hinar aðrar heilsegu ritgiordir kristnum, eins og ávalt lýgandi vitaeldr, þá þeirri eld, á hvorri þeir lifa, heldur við ſkipbroti á einu eður eðru ſkéri. Oss er varað við þeirri innbyrlíngarsýki og ofhelgi, er fordæmir sérhvoria saklausa lystisemi, en ei áminn-

umst vér sídur ad gialda varhuga vid ofmikilli fysn skilníngarvitanna, sem upprætir alt gott og ágiætt hiá manneskiunni. Oss byriar, eptir bodi bréfa þessara, ad fordast oll ónyt trúarbragda-stríd, allar kapprædur; en vér gétum einninn rádid þad af því vandlæti, med hvoriu Postulinn tekur vara á Jesu lærdóms hreinleika (s. s. 2 Tim. 1, 13. 2, 15—18. Tit. 1, 9), ad oss ei sídur byriar ad gialda varhuga vid því hálfvolga og kalda hiartalagi, er innbirlar oss, ad einu gildi, hvoriu vér trúum. Sér siálfum ávalt líkur, játar Páll hvervetna, bædi i sínum fyrri og sídari bréfum, samt i þessum til ástbundinna vina og jafnframt til heilla safnada — þann sama grundvallar lærdóm um mannanna endurlausu af Jesu afrekada (1 Tim. 2, 5. 2 Tim. 1, 8 9. Tit. 2, 11 fylg.) Og þá vér heyrum hann i sínu sídsta bréfi (2 til Timoth.), i hørdu vardhaldi og adkominn dauda svo inniliga ad áminna vin sinn og lærisvein til, án ótta fyrir monnum, ad boda heiminum þessi gudspioll; og sialfan siáum vér álbúinn til ad innsigla sannfæríngu sína um þeirra sannleika med sínu blódi; hvorsu má þá þessara bréfa, i siálfu sér háleika ágiæti, enn fremur hefiast i vorum augum! og hvorsu má vor trú styrkiast á þeim lærdómi, er megnad hefir at skapa svo trúfasta, svo dæmalausa Jesu stríds hétiu, sem Postulinn Páll var!

Vér megum annars ekki undrast, ad svo

þykir sem Páll endrum og sinnum í bréfum þessum tali af, ødrum anda um ektastand, enn i 1 Cor. 7. Þar rædur hann þeim, er giæddir voru hindindisgáfu, ad kiósa heldur einlífi, enn hiuskap. Hér rædur hann ei alleina hinum úngu ekkium ad giptast (1 Tim. 5, 14) heldur er hann kitarordur vid þá, er sneiddu hiá hiónabandi (1 Tim. 4, 3). Enn Páll er sér, sem hvervetna, á tédum stødum einnig fullkomliga samhliódа.

Af 1 Kor. tekur oss minni til, ad nær hann þar rædur frá hiúskap, þá giørdi hann þad eiganvegin i því skini, ad fordæma edur lysa ektastandid, sem væri þad óheilagara stand enn einlífi, heldur alleina fyrir yfirvofandi ossókna sakir. Nú þará móti, þá hann skrifadi þessi bréf, hafdi sá hleypidómur komid upp medal kristinna manna, ad ei ætti saman hiúskapur og hinn ædri heilagleiki. Vid þvílíkum grillum var þørf á ad advara hina Kristnu, og þá úngar ekiur af yfirdrepskap bundust fyrir hiónaband, til ad lifa á safnadarins kostnad, þá var einnin advørun vid þessu ei sídur naudsynlig. Þad voru þá alleina kríngumstædurnar er breytst høfdu, en hverki speki Páls, né hans fødurliga umhyggia fyrir safnadarins heillum og hagsæld.

## Páls bréf til Philemon.

Philemon var kénnari eda Diaconus (diákni) i Kólossaborg i Asíu, ad líkindum Páls lærisveinn,

og madur audugur, er ríflega hiálpadi þeim kristnu, og i hvors húsi nockrir af søfnudinum komu saman.

Bréf þetta er ad líkindum skrifad um sama leiti sem þad til Colossensa, i Páls fyrsta fángelsi, þá hann vonadi ad verda brádum lauslátinn; og er, sem eigid bréf til Philemon, sendt ásamt því stærra til heila safnadarins. Tilefni bréfsins var þetta: Philemon hafdi þræl nockurn, Onesimus ad nafni, sem, vegna misgiørda mót húsbónda sínum, af ótta fyrir straffi, hafdi strokid burt; á flótta sínum kom Onesimus — hvort af hendíngu eda af ásettu rádi vita menn ei til Rómaborgar, hvar Páll sat i sínu fyrsta og vægara fángelsi. Postulinn setur honum fyrir siónir misgiørníng hans móti húsbónda sínum, og fær hann til ad vidurkénna sína yfirsión, og snýr honum, sem var heidingi, til Kristinndómsins. Nú skal þrællinn, eptir Páls áliti um eignarréttinn, snúa heim aptur til húsbónda síns; og Onesimus er fús þartil. Enn þar hann líklega hefur óttast fyrir hardri medhøndlan af þeim annars velþeinkiandi, enn máské nockud fliótlynda, Philemon; svo skrifar Páll med honum þetta bréf, i hvørju sá fángadi Postuli mælir gott fyrir fósturssni sínum Onesimo, hiá lærisveini sínum, þrælsins húsbónda.

## Innihald.

Eptir heilsan sína til Philemon siálfs, og Appiu og Archippus (máské konu hans og sonar)

(1—3). Lætur Postulinn sína gledi i liósi yfir því, ad Philemon svo kroptuglega hiálpadi þeim naudstöddu kristnu, og syndi þarmed hve kroptug hans trú á Krist væri (4—7). Nú minnist Postulinn á, hvada samband þar sé milli sín og Philemon, og þótt þad giæfi Postulanum rétt til ad bióda Philemon hvad hønum sæmdi, svo vildi hann því heldur bidia gott fyrir Onesimus, sem hann var viss um, ad Philemon mundi bænheyra hann. Nú koma þær kroptugu ástædur, hvar fyrir hann ætti ad fyrirgéfa þræli sínum. Híngad til var þrællinn (sem heidíngi) hønum óþarfur; nú þarámót (sem kristnadur) gagnlegur. Páll elskadi hann nú sem sinn són, og hann vildi hafa haldid hønum hiá sér, ef hann eigi hefdi heyrt Philemon til. Þrælsins burtför var nú tilefni til, ad húsbóndinn féck hann aptur eilíflega, eigi sem þión, heldur sem bródur. Philemon skyldi því elska hann iafnt sem Pál; og væri hann hønum skyldugur um nockud, væri Postulinn fús til ad betala þad, jafnvel þott Philemon væri Páli skyldugur um þad, sem meira var, sig siálfann (þar hann hefdi kristnad hann). Efad hann fyrirgiæfi þræli sínum, syndi Philemon gódann ávöxt síns Kristinndóms, og endurnærdi hans hiarta. Enn — hann efadist ecki um síns lærisveins audsveipni o. s. fr. Hann vonadi brádum ad verda lauslátinn, og koma til Kólassaborgar.

Bréfid endast med Postulans vanalegri heilsan og óskum.

## Skríngargreinir.

Þóad þetta litla bréf áhræri heimuglegt efni, er þad þó i fleiru tilliti lærdómsríkt. Þad synist lesaranum máské undarlegt, ad Philemon, sem var kristinn, átti einn þræl, og ad Páll samsinnir þessum eigindómsrétti. Getur madur þá keypt og átt manneskiur, sem önnur dyr? Enganveginn! enn héraf getum vér þeckt Kristinndóminn, sem vísdóms og sanngyrnis lærdóm. Jesu trúarbrögd vildu, án efa afmá og hafa afmád þann medal heidíngia drottnandi þrældóm; enn þad skyldi þó ecki ské med ofbeldi, ecki med ad hvetia þá kristnu þræla til upphlaups, eda slíta þau bönd, sem batt þá til sinna herra. Þrælástandid var þannig innfléttad i þad Rómverska stiornarstand, ad þad eigi gat afskaffast, án stærstu upphlaupa. Enn þegar betri þecking um mannanna stóra álit og áqvördun, sem Kristinndómurinn gésur oss, og elskunnar andi, sem hann veitir sínum játendum, utbreiddist, svo leid þrælastandid undir lok, og kristnir húsbændur máttu af egin drift létta okinu af brædra sinna herdum. Þessa tilgángs verdum vér áþreifanlega varir i bréfi þessu. Páll sendir Philemoni þræl hans heim aptur; hann vill ecki halda honum hiá sér án hans villia; enn hann segir skilmerkilega, hvors hann vænter af

Philemon, sem kristnum manni. Þú færð, segir hann (v. 16), þræl þinn aptur eilíflega, eigi lengur sem þræl, heldur sem bróður, sem er, eigi einasta fyrir húsbandið, heldur fyrir Drottinn þér sameinadur.

Héraf sjáum vér, hve fiærri það var Jesu Postulum, að líkiast þeim óróaseggium, er menn kalla grillumenn, og i hverra tölu hádfuglar hafa viljað reikna þá. Grillumenn, þ. e. þesskonar menn sem ránglega ímynda sér að hafa köllun frá Guði að lagfæra heiminn, voru ætíð hrokafullir af innbirlíngu þesoari; þeirra framferdi var ætíð heimskulegt, opt ofbeldisfullt. Sem himinsins eptirlæti (augnasteinar) héldu þeir sig lausa að vera við alt jarðneskt samfélag, og upphafda yfir öll lög og yfirvöld, sem mannlegar setníngar. Samanlíkium hérmed Páls hegdan: þrælastandið var almennilegt i fyrri tídum, og stiórnarstandsins lög stadfestu húsbóndans eignarrétt til þræls síns. Páll hefur snúið stroknum þræli til Kristinndómsins, sem hann elskar nú sem sinn eginn son, og óskar mikillega að mega halda honum hiá sér. Enn hvað giörir Postulinn? Segir hann að þrællinn só frí, nl. i verslegri meiníngu? Eda skipar hann Philemon að géra hann frjann? Hvörugt. Hann virdir stiórnarstandsins lög; hann skipar honum að snúa heim aptur til sinnar þiónustu *);

*) Þanninn breitti hann samkvæmt þeim reglum, hann géfur 1 Cor. 7, 20—24 1 Tim. 6, 1—2.

og qvedur sig fúsann til ad betala þad hann er skyldugur sínum húsbónda. Annars bidur hann gott fyrir þrælin, og minnir Philemon á, ad þrællinn sé nú hans bródir i Drottni. Svo heilagur var i hans augum eignarréttúrinn; svo fiærri var þad, ad hann brúkadi sinn postulega mindugleika sem medal til drottnunargyrni. Hvor merkir ei, ad sá vísdómur sem hann leiddist af, var hér ad ofan? (Jak. 3, 15—18).

Þad fagra og hiartnæma i þessu bréfi; Postulans fødurlega umhyggia fyrir sínum andlega syni; þad hóglindi sameinad med ho'dingskap. sem Postulinn synir, mun sérhver lesari verda var vid, án þess eg minnist þará.

## Bréfid til enna Ebresku.

### Inngángur.

Þetta bréf er skrifad kristnudum gydíngum; því nefnist þad bréfid til enna Ebresku. Þessir kristnu tóku ad veikiast i trú sinni, og voru búnir til ad snúa til baka til gydínga trúar; bædi af því þeir jafnadarlega máttu þola hædni og árásir enna vantrúudu gydínga; og einkum af því, ad þeim, uppaldum vid sanfalega Guds þiónustu, ecki ad fullu gat gédiast sú sanna Gudsdyrkun i anda og sannleika, sem Jesus oss kénnt hafdi. Þeir voru nl sem gydíngar, frá barnæsku vanir vid útvortis skart og vidhefn i musteris þiónustu gydínga; þeir hneigsludust því á, ad hinir kristnu

höfdu ecki svo fagurt musteri, svo praktuglegar hátídir, fórnfæríngar og útvortis tídareglur, svo kostuliga skrydda ædstupresta, sem gydínga söfnudur i Jerúsalem. Paradauki höfdu þeir erft frá fedrunum díupa lotníng fyrir gydínga løggiafara Moisis, fyrir lagasetníngunni á Sínai, hvar Jehóva siálfur, umkríngdur af englum, hafdi opinberad sig. svo þeim syndist eckert samlíkst géta þessu, og ad Kristindómurinn líka i þessu tilliti ei gat samjafnast med Júdadómi.

Tilgángur þessa bréfs er því, ad vara þessa breisku kristnu vid ad falla frá, essa þá i trúnni á Jesu Christo. J þeim tilgángi synir hann Kristindómsins stóru og mikils verdu yfirburdi yfir Júdadóminn. Hann samlíkir Jesu, Guds syni, vid englana, Guds þjenara; vid Moisis, Guds þjón; hann samlíkir fornfæríngum Gydínga vid þá heilögu, flecklausu og eylífiega gyldandi fórn, Jesus frambar fyrir heimsins syndir; Gydínga Musteris helgidómi, inní hvørn einasta ypparsti prestarinn dyrfdist einnsinni árlega ad gánga, vid þann sanna helgidóm, himininn siálfann, sem er oss øllum opnadur fyrir Jesum; Júda ædstuprestum, sem voru breiskir og daudligir, vid vorn heilaga, eilífa, á himnum rikiandi ædstaprest, Jesum; i stuttu máli: hann setur þeim fyrir siónir, ad alt hvad þeir höfdu i Júdadóminum, þad finda þeir á ny i Kristindóminum miklu fullkomnara og dyrdligra; því þar var einungis skugginn, hér var líkaminn,

þar var einasta fyrirmind ens tilkomandi, hér var sjálft það tilkomandi; þar midadi alt til ógnunar heldligri mannesskju, hér var mildi og náð búin trúudum Guðs börnum. Þessä samlíkíngu hagnýtir nú Postulinn, bædi til aðvörunar mót vantrú, til að sýna þeim, hve stórrar sektar þeir ollu sér, ef þeir lítils mettu svo stórann velgiörníng, og til uppörfunar til að stýkia þá gégn þeim freistíngum, þeir sæta máttu, og stadfesta þá i þeirri réttu trú, sem Guði vel þóknast, hvar uppá þeir i enu G. T. höfðu ærið mörg dæmi fyrir augum.

Það er óvíst, nær og hvar bréf þetta sé ritað. Venjulega hafa menn meint, að það sé ritað skömmu eptir að Páll var lauslátinn úr sínu fyrsta fángelsi, ámeðan hann dvaldi i Vallandi. Það verdur ei heldur með vissu sagt, hvort þeir gydínga kristnu, sem bréf þetta var stílað til, vóru þeir, er bjuggu i Jerusalem og Gydíngalandi, eða þeir, er vóru utan lands; þótt það sídara þyki líklegra. Að bréf þetta ei byriar með Páls nafni og heilsan, sem hin önnur 13, gétur ei sannað, að það sé eigi ritað af honum; því Jóhannesar 1ta bréf ber ekki heldur rithöfundsins nafn, og þó ber öllum þeim eldri saman um, að það sé hans. Það er víst, að bréfið til enna Ebresku ekki einasta inniheldur Páls ómeingaða lærdóm, heldur framsetur hann

i Páls anda eins vel og hin önnur bréf sem kénd eru við Postulann.

## Innihald.

Postulinn færir fyrst sönnur á Kristindómsins yfirburði, tekna af stiptarans, Jesu, yfirburðum (1, 1—3). Hann er æðri englunum; þar ritníngin brúkar þvílík orðatiltæki um hann, sem aldrei týdkast um hinn æðsta engil. Hann er Guðs sonur; Guðs frumgétni, hvørn allir englar tilbiðia. Þessum er lyst sem Guðs þjónum: sýninum þarámót sem eylífum kóngi, æðri öllum öðrum kóngum, já sem skapara himins og jarðar. Hann ríkir hiá Guði í himninum, ámeðan englar útsendast, sem Guðs þénarar (4—14).

Hafi stiptari vorrar helgu trúar þvílíka yfirburði, hvørs mega þá ecki hennar foraktarar vænta! vóru yfirtroðslumenn Mósis laga, sem englar boðuðu, straffaðir, munu þá ecki miklu framar foraktarar þeirrar kénníngar, sem Guðs sonur boðaði, og Guð svo dásamliga staðfesti, verða straffaðir? (2, 1—4). Ecki er það nýa Guðs Náðarríki á iörðu undirlagt englum, heldur manneskiunni Jesu. Hvað David segir um manneskiuna, einasta litið lægri englunum, en síðan upphafin til allra herra; það sannaðist á Jesu. Nockra stund var hann niðurlækkaður undir englana til að líða dauðann fyrir alla; enn til launa fyrir þessa sjálfsafneitun, af Guði kiörinn til

Drottins yfir alla (5—10). Hann giørdist sannur madur; því hann nefnir mennina sína brædur; og sannarligur madur var hann, svo hann med sínum dauda frelsadi þá daudligu frá ótta fyrir daudanum, og so hann yrdi medlídunarsamur ædstiprestur brædrum sínum, siálfur reyndur i þrautum, giæti adstodad þá raunamæddu (11—18).

Sé Jesus ædri enn englarnir, er þad því vissara, ad hann var ædri enn Moisis. Bádir vóru Gudi trúir. En Jesus er þeim mun ædri Moisi, sem Sónurinn, húsrádandin, er ædri þienaranum, hvorium húsrádin eru á hendur falin. Þessa Drottins húss limir erum vér, ef vér erum jafnan trúir (3, v—6). Einkum verdum vér ad fordast vantrú. David varadi eptir gudlegum innblæstri, sinnar aldar menn vid henni, med því, ad setia þeim fyrir siónir dæmi enna vantrúudu Israelíta, sem á eydimerkunni freistudu Guds á þeim stad, sem kéndist vid þad, Meriba (þrætustadur), og þessvegna kómu ecki til Guds hvíldar, þ. e. til þess þeim af Gudi fyrirheitna hvíldar lands Canaan. Þetta dæmi mátti vera þeim kristnu til vidvorunar, sem einasta verda hluttakandi i Christí velgiorníngum, þegar þeir standa stödugir i trúnni til enda (7 14). Hve advarandi þessara Israelíta dæmi sé fyrir oss, siáum vér af því, ad einginn þeirra, sem Mosis hafdi útleidt af Egyptalandi, kom inn i Canaans

land; þeir vorn allir þverskalladir, og féllu þess vegna allir i eydimörkinni. Þeirra vantrú var skulld i því; ad þeir ecki komu inní hvíldarinnar fyrir heitna land (15—19).

Vér verdum því ad varast vantrú; því oss er einnin hvíld fyrirheitin, sem er lángtum ædri, enn sú i Canaans landi. Pess ödludust ei Israelítar vegna vantrúarinnar. Fyrir trúna einúngis, ödlumst vér þá sönnu hvíld, þvílíka hvíld nefniliga, (það er: sælu), hvörrar Gud siálfur, ad Mosis sögn, naut þá hann hafdi aflokid sköpuninni; og þessi hvíld er það, sem David meinar, þá hann svo laungu eptir Mosis, talar um Guds hvíld; en ecki sú, sem Josúa veitti Israelítum i Canaan. Þessvegna hefir Guds fólk ennþá i vændum Sabbatshvíld, hvíld nl. hiá Gudi (4, 1—10). Vér verdum ad kappkosta ad ödlast þessa hvíld, og vara oss vid ad oss detti i hug ad falla frá Gudi og Jesu, því Guds advörun er skylaus, og áhrærir ecki einúngis vorá útvortis breitni, helldur og hiartans heimugligustu þánka, sem eru þeim alvísa kunnigir (11—13). Stödugt hliótum vér því ad vidurkénna vorn mikla ædstaprest fyrir heiminum, hvad sem mætir, því fyrir hann gétum vér diörfungarfullir ávarpad Gud um adstod neyd vorri (14—16).

Vor sanni ædstiprestur er Jesus. Sérhvör ædstiprestur er kiörinn til ad fórnfæra fyrir synd-

irnar; hann gétur synt umburdarlyndi þeim breisku; hann er af Gudi settur. Allt þetta gétur heimfærst uppá Jesum. Hann var kiörinn af Gudi, sem Gud segir fyrir Davíds munn, til ædstaprests, eins og Melchisedech. Hann hefir og framborid fyrir Gud foru einá, i því hann frívilliugur og hlydinn leid þiáníngar; og nú upphafinn, er hann allra frelsari, sem eylífur prestur, líkt Melchisedech (5, 1—10). Þessi samlíking milli Jesu og Melchisedech væri harla lærdómsrík, ef Ebreskir giætu skilid hana; enn þeir voru ennþá sem born i Kristindóminum (11—14).

Enn þar enir Ebresku höfdu svo leingi þeckt Jesu lærdóm, þá vildi Postulinn ecki byria á enum fyrsta grundvelli, heldur i Guds trausti reina til ad greida þeim veg leingra áfram. Því þegar menn einusinni höfdu skilid og skiniad Jesu kénníngar guddómliga krapt, og svo þvertidarfullir fallid frá, og einsog hædt hinn krossfesta: þá var lítil edur engin von um betrun þeirra (6, 1—6.) Því manuligu hiarta er eins háttad og jördunni. Hin góda og friófsama jörd gjörist vid yrkínguna enn þá frióffamari, en sú hrióstruga og ofrióffama verdur seinast ónyt, og hennar þyrnar og íllgresi uppbrennist. Þó hefir Postulinn betri von um þá Ebresku; þar þeir ádur höfdu látid, og sumir enn þá létu i liósi sitt góda hiartaþel. Hans ósk væri, ad þeir allir mættu styrkiast i trúnni á Guds fyriheitum alt til enda (7—12). Þeir skyldu

breyta eptir Abraham, sem ødladist Guds fyrirheit, af því hann beid med þolinmædi; og þessi fyrirheit, sem Gud á mannligan hátt hafdi stadfest med eidi, gylda enn þá fyrir alla Abrahams eptirkømendur í trúnni, svo vér høfum fastann grundvøll trúar vorrar, sem einkum á himnum skal uppfyllast, sem er sá rétti helgidómur hvar Jesus er genginn inn á undann oss, sem hinn ædsti prestur ad eylífu, í líkíngu Melchisedechs (12—19).

Í 5ta Cap. útskýrir Postulinn þá byrjudu samlíkíng, milli vors ædstaprests Jesú, og Melchisedechs. Þessi var ágiæt fyrirmindan Christi, ecki einúngis vegna síns þýdíngarríka nafns; helldur líka af því Ritníngin hvørki gétur hans fædíngar né dauda, og þessvegna teiknar Guds son, hinn eylífa ædsta prest. Líka er hann lángt ædri enn Israelítanna ættfadir Abraham. Því þótt hans nafn stædi ecki í ættregistri Levítanna, hvørjir alleina taka máttu tíundir, tók Melchisedech tíundir, og þad hiá Abraham siálfum, og lagdi blessan sína yfir þennan, af siálfum Gudi blessada forfødur; ja í ættfødursins Abrahams persónu, galt í vissu tilliti siálfur Levi tíund til Melchisedech (7, 1—10). Pared Messias, samqvæmt spádómunum, átti ad vera Prestur, ij líkíng Melchisedechs, en ecki Aarons; svo fylgir þaraf, ad ed Levítiska Prestsdæmi, og einnin Moises løg ættu ad upphefiast; og þetta er í raun og veru

stéð fyrir Jesum, er ecki var af Leví, helldur af Júda ættstofni, og hverjum þaradauki fyrirmindudum i Melchisedech, lyst er, sem eylífum ædstaprestí. Þessvegna er það eldra lögmál, sem ófullkomið, upphafið, og lángt fullkomnari trú innleidd fyrir Jesum (11—20). Líka er hann enum levítisku Prestum fremri i því, að þeir gjörðust Prestar án eids, hann með eidi; þeir komu, sem dauðlegir, hver eptir annan; hann alleina er prestur að eylífu, án eptirmanns; og loksins er hann fullkominn og án sindar, sem einu sinni hefir fórn framborið fyrir Guð, sem er gyld að eylífu, á meðan hiner, eins og syndarar jafnaðarliga ítrekudu fornfæríngar sínar, bædi fyrir siálfa sig og fólkið (21—28).

Höfuð-innihak ens umgétna er þá þetta: vor ædstiprestur ríkir með siálfum Guði á himnum, i þeim sanna helgidómi. Þar hefir hann byrtst Guði með fórn sína, og ei, sem þeir levitisku ædstuprestar, i jarðneskum helgidómi, sem einúngis var veik fyrirmind ens himneska. Nei, hans Prestskapur er svo miklu ædri, sem sá sáttmáli, hann stadfesti með sinni fórnfæringu, var fullkomnari (8, 1—6). Að sá gamli sáttmáli, er Móses stiptaði, skyldi einusinni, sem ofullkominn, ryma fyrir ödrum nyum og fullkomnari, það hefir siálfur Guð fyrirsagt i enu G. T., hvar hann gaf fyrirheit um nyann sáttmála, það er: ny trúarbrögð, sem útbreida skyldu fullkomnari

Guðs þeckíngu, og fría mann frá øllum þræl-dóms ótta fyrir Gudi (7—13)

Að víſu hafði enn gamli ſáttmáli eður þau gømlu trúarbrøgð mikið ſandſaligt ſkraut. Þar var tjaldbúðin, (og eptir hana muſterið) ſem var ſkipt i það heilaga og allraheilagaſta, ſem hvørt fyrir ſig, þó einkum hið ſiðara hafði mikið ſkraut-ligt á að líta (9, 1—5). En alt þetta var þó breitilegt og ófullkomið. Að æðſtipreſturinn all-eina einuſinni á ári mátti með offurdýra blóðið gánga inní helgidóminn, gaf til kynna, að ſá ſanni helgidómur, himininn, var ennþá ecki op-nadur, það er: aðgángur til Guðs, ſem føðurs, væri ecki frí, ámedan ſú levítiſka Guðs þiónuſta varaði; Hún er alt til þeſsa tíma (því muſterið i Jerúſalem ſtóð ennþá) einúngis fyrirmindan ens eptirkomandi; hennar fórnfæríngar og aðrir kyrkiu ſiðir, hreinſa ecki það innra, helldur það ytra, (það er: veita þeim, er eptir Levítanna meiníngu eru óhreinir, t. d. ſem ſnert hafa lík eitt, adgáng aptur til muſteriſins), og hún átti einaſta að viðvara, þángað til ſú betri tíð kom, hveria hún fyrirmindaði (6—10). Þeſsi betri tíð er nú komin með Chriſtó. Hann er, ſem høfud preſtur, genginn gégnum ypparligri tialdbud, enn Júð-anna helgidóm, gégnum ſkýinn, inní það ſanna allrahelgaſta, himininn, ecki með dýra blóð, helldur með ſitt egið á kroſsinum úthellta blóð, blóð ens hátignarliga og heilaga, ſem hreinſar þá trúuðu,

ecki einasta útvortis, helldur hiarta þeirra (11—15). Deþa hlaut hann; því sá sáttmáli, sem hann stiptaði, var sem Testamenti nockurt, er gyldir fyrst eptir dauða þess stiptara. Þannin var alt, meðan enn gamli sáttmali gyldti, hreinsað með blóði — og án blóðs úthellingar skéði eingin friðþægíng (16—22). Hlaut hið ófullkomnara, sem einúngis var nockurskonar fyrirmind ens himneska, þannig að hreinsast; þá útheimtaðist lángtum fullkomnara offur til að veita oss aðgáng til himinsins. Og inní þenna sanna helgidóm er Jesus inngeinginn, sem vor talsmaður hiá Guði, með hina fullkomnu fórn, sem hann einusinni frammbar fyrir heimsins sindir. Og einsog manns eskian einusinni á að deya, og síðan dæmast, eins er Jesus einsinni dauður fyrir sindir vorar, enn kémur eðru sinni, ecki sem sindafórn, helldur sem dómari (22—28).

Mosis lögmál fyrirmindaði einúngis þau komandi giæði; enn það veitti þau ecki; þess fórnfæríngar gátu ecki að fullu friðþægt, sem siest gétur af því, að þær margsinnis itrekast máttu; einsog það í siálfu sér er ómöguligt, að dyra blóð giæti syndirnar útslétt (10, 1—4). Þess vegna segir og Messias siáfur i hinu G. Testam. að allar fórnfæríngar, sem einberar undirbuníngs tilraunir, skyldu líða undir lok með þeirri miklu fórn, sem hann eptir Guðs vilia frambera skyldi. Einasta fyrir þessa fórn helgumst vér. Og áme-

dann allir hinir adrir prestar, dag hvern, standandi, streka sínar ófullkomnu fórnfærslugar, situr hann, þegar hann framborid hefir sína fórn, sem að eylífu gyldir, ætíd vid Guds hægri hönd, þángað til óvinir hans verda lagdir hönum til fóta (v. 5—13). Ad hann med sinni einu fórnfærslngu fullkomliga fridþægt hafi þá, sem láta sig helga, um það vitna líka þau ádur tilgreindu ord, hvar það medal annars er so að ordi qvedid, ad Gud ecki meir minnist þeirra synda. Og þá þarf ecki leingur sinda offur (14—18).

Nú hagvendir Postulinn öllu því undangéngna til upphvatníngar og advörunar. Þared Jesus med sínum dauda hefir svipt ena trúudu öllum þrældóms ótta fyrir Gudi, so ættu þeir kristnudu Ebrear ad fæta sér þessa nád i nyt, til ad dyrka Gud med barnligu trúnadartrausti, hreinu hiarta og heilagri breitni; þeir ættu ad standa stödugir i trúnni á Jesum, og ásysa hver annann til þess framferdis sem samqvæmt væri þessari trú, án þess þeir yfirgiæfu þeirra Guds dyrkunar sösnudi. Því féllu þeir af ásettu rádi frá þeirri trú á Jesum, sem þeir einusinni af sannfærslngu höfdu tekid, mundu þeir sæta þúngu straffi af Gudi, hinum réttláta dómara (19—31); þeim örugga mód, sem þeir i fyrstu höfdu synt i Jesu vidurkénníngu, þrátt fyrir allar þær ofsóknir, sem þeir lidid höfdu af vanuúuðum Gydíngum,

þessum örugga móð mættu þeir ekki kasta burt; því einasta með staðuglindi gætu þeir öðlast ena fyrirheitnu farsælld; einasta fyrir trúna öðlast Guðs velþóknan; fyrir vantrú sviptust þeir henni (32—39).

Postulinn afmálar trúna (11, 1). Þarnæst gétur hann margra er syndu þvílíka trú: Abels, Enoks, Noah (2—7) Abrahams, Sara, Ísaaks, Jakobs, Josephs (8—22) Foreldra Mosis, Mosis siálfs, Jósúa, Rahab (23—31) og margra annara (hvörium fráskýrt er i Dómaranna, Samuels, Kónganna og Maccabæanna bókum) sem fyrir trú sína bæði frámqvæmdu mikla hluti, og þoldu þúngar þiáníngar, án þess hér i lífi að nióta þeirrar fyrirheitnu farsældar, sem Guð hafði þeim ætlað ásamt oss, að verða adniótandi i betra heimi (32—40).

Hafandi so margra trúaðra, og einkum Jesu egið dæmi fyrir augum, ættu þeir Kristnu staðugliga að umbera það sem Guð léti þeim að höndum bera (12, 1—3). Þeirra þiáníngar skyldu þeir álýta sem föðurligar typtanir, er hénaðu til þeirra sanna gagns, og með þessari sannfæríngu hughreysta sig (4—13). Þeir ættu að ástunda friðsemi jafnframt heilagleika, svo þeir ekki sviptust Guðs náð; hvarámóti Esaus dæmi skyldi héna þeim til aðvörunar (14—17). Sú trú, er þeir nú tekið höfðu, var ekki, sem þeirra fyrri trú, sú mósaiska, umkríngd ógnan og skélf-

íngu; helldur var hún full misskunsemda, nádar og sællra eptirvæntinga (18—24). Því sídur mættu þeir forsmá Guds rádsstofnan til manukynsins frelsis fyrir Jesum Christum; því svo stór og nádarrík Guds rádstofnan dróg eptir sig þúnga hegníngu fyrir þá, er hana forsmádu (25—29).

Þeir ættu ad ástunda kiærleika, giestrisni, skírlífi, ánægiusemi og trúnadartraust til Guds (13, 1—6); laga sig eptir þeirra kennifedra gódu dæmum, og hallda fast vid Jesu hreinu kenníngu, er var óumbreitanlig sem siálfur hann (7—9. Þeir ættu héreptir ad rífa sig lausa frá gydíngaligum sidareglum; Jesus hafdi framborid fyrir þá fullgyllda fórn; á hann ættu þeir ad trúa, lída med honum, svo þeir yrdu dyrdligir ásamt honum. Þacklátsemi móti Gudi, og gódgiördir mót medmanneskium, voru þær réttu, Gudi velþoknanligu fórnfæríngar (9—15). Postulinn áminnir þá ad hlyda sínum kennurum, og bidja fyrir sér; og endar bréfid med hiartanligum óskum fyrir þeim, skyrslu einni um Timotheus, qvedium og sinni postulligu blessan (16—25).

## Skíríngargreinir til þessa bréfs.

Ad þetta bréf finnst vorra daga lesurum myrkt, kytur ecki af lærdómunum siálfum, sem þad medeilir oss — því þeir eru giersamliga samqvæmir innihaldi enna annara sendibréja — helldur af

búníngi þeirra, sem er lagadur, og eptir rithøfundsins tilgángi, naudsynliga hlaut ad lagast eptir þørfum enna fyrstu lesara. Ef ad þessir kristnudu gydíngar, hvørjir, sem í ingánginum er synt, freistudust á svo margan hátt til fráfalls, styrkiast áttu i trú sinni; þá hlaut postulinn naudsynliga ad brúka þær ástædur, sem þeir gátu gripid: Hann vard ad samanbera Júdadóm vid Kristindóminn, til ad sannfæra þá um, ad þeir engann skada hefdu lidid, helldur i øllu tilliti unnid, vid ad breyta trú sinni. Þetta er orsøkin til þess frábrugdna búnings, sem þau guddómlegu sannindi i bréfi þessu eru sveipud i. Fyrir ena fyrstu lesara, sem frá barnsbeini af þekktu alt er Postulinn hér bendir til, sem kunnigir voru søgu þeirrar þjódar, hiá hvørri Jerusalems musteri med øllum þess meistaraverkum var, ædstupresstum og fórnfæringum; fyrir þá var bréf þetta audskilid: enn fyrir oss, sem hægt er ad siá, má margt i því vera vandskilid Sá kristinn, sem ber lausligt skinbragd á hid Gamla Testamenti, má þessvegna ei hneixlast á því, þó honum mæti híngad og þángad, einkum i hinum fyrstu 10 Kapitulum, þúngskildir stadir; og hann verdur ad láta sér nægia þann part bréfsins, sem jafnvel einfaldur lesara med hreinskilid hiarta gétur skilid. Enn eigi þvílíkur kristinn rétt ad meta þetta bréf, og dádst ad þeim djúpsæra vísdómi, med hvørjum vorra heiløgu trúarbragda yfirburdir framyfir hinn

sandsaliga Júdadóm hér eru útlistadir; þá verdur hann ad kynna sér innihald ens Gamla Testamentis; og þad mun, bædi i siálfu sér, og i tilliti til þessa og hins annars hluta þess Nya Testamentis ríkugliga launa honum ómakid.

I því eg fráskyrdi bréssins innihaldi, leitadist eg vid ad syna rithøfundsins þánkagáng, og líka ad útþyda yms myrk ordatiltæki. Hér verd eg því einúngis ad géta þeirra merkustu lærdóma, sem eru innsveipadir i bréssins líkíngafulla ordfæri, og sídann bæta vid nokkrum athugagreinum yfir þá stadi, sem hægliga kynnu missriliast.

Par sem svo kémst ad ordi, ad Jesus, sem vor ædsti prestur só geingiun inni þad allrahelgasta fyrir Gud med sitt eigid blód; þá skinjum vér hægliga, ad þetta eigi ecki ad skiljast eptir ordinu. Enn vér skinjum líka, ad þessi samlíking ecki einúngis setur oss Jesum fyrir siónir, sem lærimeistara, helldur sem fridþægiara, er med sínum dauda fridþægdi oss vid Gud. Þetta mun jafnvel þeim einfalda lesara vera lióst, þegar hann athugar høfudatridi þessarar samlíkíngar milli Jesú og hins ædsta prests. Sem vor ædstiprestur hefir hann fórnfært, ecki eins og hinir, dyrablódi, heldur sinu egin blódi fyrir oss, þad er: hann dó á krossinum fyrir vorar syndir: hann hefir byrtst fyrir Gudi med sitt blód sem fórn eina, ecki eins og hinir, i jardneskrar tialdbúdar helgidómi, sem einúngis var fyrirmind ens himneska, heldur i

þeim sanna helgidómi, himninum, þ. e. að afloki inni friðþægíngu fyrir vorar syndir, er hann upp risinn af grøfinni, uppfarinn til himna og er þar hiá Guði sem vor talsmaður. Þær levítisku fórnfæríngar hreinsuðu að eins útvortis, með øðrum orðum:„ veittu einasta þeim óhreinu, (s. Hebr. 9, 6 f. innihaldið) þ. e. útilokuðu frá fórnfæríngunni, aptur aðgáng til musterisins; fórn sú, sem Jesus frambar, hreinsar innvortis, þ. e. hans dauði friðar fullkomliga samvitsku ens ángráða og trúaða, og gefur hønum hugrecki, laungun og krapt til að helga Guði sitt hiarta og lifnað. Í hið allrahelgasta af tialdbúðinni mátti enginn koma, utan hinn ypparsti prestur, sem þó einúngis einn dag á ári hverju, ecki án skelfíngar, vogaði að gánga þar inn og standandi að fullenda þiónustugiørðina: Jesus hefir opnað lángt æðri helgidóm, himininn, øllum trúuðum, sem andligum prestum, so að þeir, í trúnaðar-trausti til hans, diørfúngarfullir voga að nálægiast Guð i sínum bænum; því þeirra æðstiprestur stendur ecki, eins og hinir, sem þénaði fyrir Dróttins augliti; enn hann situr, ríkiandi með Guði i helgidóminum siálfum. Jesus er lekfins vor eylífi æðsti-prestur; hann lifir ætíð til að styrkia vort málefni. Hans fórnfæríng er eylífliga gylld; ávertir hans dauða vara til eylífðar.

Eins og nú þessi útskíríng hinna bilætafullu hugminda, er bygð á hlutarins egin náttúru, so

stadfestist þún af þeim heilaga rithøfundi, sem opt i þessu bréfi segir það með berum orðum, hvað hann á øðrum støðum innsveipar i bilœti, s. s. 2, 9. 17. 9, 12. 14. 28. 10, 5. 12, 24. 13, 20. Vér finnum hér aptur, þótt i øðrum búníngi, þann sama lærdóm, sem hinir heiløgu rithøfundar ysiralt fráskíra, nefnilig, að Jesus ecki einasta sem himneskur kénnari, hefir kunngiørt oss Guðs ráð og vilia til vorrar sáluhiálpar, heldur að hann líka með sínum dauða hefir friðþægt oss við Guð, og með sinni upprisu og burtfør til føðurssins, stadfest vora von, og að hann ennþá sem Herra og Kóngur annast sinn søfnuð, sem vor Talsmaður styrkir vort málefni, og skal aptur koma sem dómari.

Til að skilia þann (2, 7 fylg.) af hinum 95 Ps. tekna stað, megum vér athuga það tvíræða i orðinu: Guðs hvild, sem postulinn i því eptirfylgiandi útlistar. Það gétur bæði þýdt þá hvíld, sem Israels børnum var fyrirheitin, nl. hvíldartíðina i Canaans landi eptir mæðusama reisu i eydimørkunni; það gétur líka þýdt Guðs eginn hvild, sem hann, á mannliga vísu, nýtur eptir skøpunarverkið, eður Guðs eigin farsæld. I þessari síðstnefndu æðri meiníngu tók hinn heilagi rithøfundur þetta orðatiltæki. Þeir Kristnu ættu að varast að missa fyrir vantrú sína þá æðri hvíld, Guð hafði þeim fyrirhugað hiá sér eptir þessa lífs armæðu, eins og hinir vantrúuðu Isra-

elitar, sem Moises útleiddi af Egyptalandi, svipta siálfa sig þeirri hylld, þeim var fyrirhugud í Canaans landi.

Sú samlíking milli Jesu og Melchisedechs, sem i þeim 5 Cap. er vikid á, enn i 7 Cap. nákvæmar útlistud; til hvorrar Postulinn tók tilefni af þeim merkiliga stad Ps. 110, 4, midar til ad syna, ad Jesus var ædstiprestur i ædri meiníngu, enn prestarnir af Arons ættlegg. Melchisedech var ecki einúngis vegna sinna þydíngarríku nafna, vegna sins verdugleika bædi sem kóngur og kénnimadur, og hátignar yfir Abraham, sérdeilis hagkvæm fyrirmind Messiæ; heldur og af því ad hans er getid i Moisis ritum, án þess hans ætt, stofn, fædíng eda daudi umtalist. Hann var ecki af kénnimannlegum ættlegg, og þó var hann prestur. Hann hafdi ecki þær levitisku fyrirskipanir ad lifa eptir, og þó var hann kénnimadur hins hærsta. Þannin og Messias, sem kominn var til ad afmá þær levitisku tilskipanir. Oss er ókunnigt um Melchisedechs endalikt, um hans eptirkomendur i kénnimannsembættinu, so hann ad því leiti er fyrirmindan hins eylífa prests, líkur Guds syni.

Þegar hinn heilagi ritHöfundur (6, 4) segir þad ómoguligt, ad leida manneskiur þær tilbaka á þann rétta veg, sem einusinni hafa verid sannfærdar um Jesu trúarbragda guddómliga uppruna, og siálfir komist ad raun um þeirra sælu

fullu verkaúir á hiörtu sín, og síðan falla frá: þá verður maður að skilia orðið ómøguligt, eins og þá vér i dagligu lífi køllum það ómøguligt, um hvað næstum eður aldeilis orvænt þykir. Samanber hérmeð þau áður umgétnu (1 P. bl. 55 og 56) Jesú orðatiltæki um þá ríku, og (1 P. bl. 80) um synd, móti heilegum anda.

Það sem (12, 17) sagt er um Esau, að hann fann ecki stað iðrunar þótt hann leitaði hennar með tárum, verður eptir samheinginu og frásøgninni, að heimfærast uppá Isaak, sem Esau ecki gat umvendt þ. e. sem hann ecki með grátandi tárum gat yfirtalað til að taka aptur þá blessan, sem hann einusinni lagt hafði yfir Jacob.

I því undangéngna feingum vér tækifæri til að útlista: trúna á Guð og trúna á Jesum. Enn vilji guðrækinn lesari siá mørg lios dæmi uppá, hvað trú sé i bibliunnar anda, hvaða hugarfar henni sé samfara, hvørn krapt hún veiti, hvørja ávexti hún beri; þá vil eg einkum ráða honum til að lesa með gaumgiæfni hinn 11 Kap. þessa bréfs. Hér byrtast oss mørg vitni frá forntíð, sem øll þéna til að útskyra Postulans útmálun af trúnni, sem er fullvissa þess, maður vonar, og sannfæring um það, sem ei sést, og til að stadfesta sannleika Jesú orða: sælir eru þeir, sem ei siá, og trúa þó (Joh. 20, 29). Samt má það ecki hneixla oss, að ámeðal votta þessara byrtist Rahab og Samson (Ebr. 11, 31—32.) Ein-

asta er það hinnar fyrirverandi skjækju, Rahabs, friðsama breitni mót niósnarmönnunum, sem flaut af hennar trú á Israels Guð sem Drottinn himins og jarðar, og sem var so sjáldséh í því hiátrúarfulla Canaan — og einasta er það Samsons undrunarverði hugrecki og styrkleiki, sem ávøxtur hans trúnaðartrausts á Jehóvah, vér egum að hafa fyrir augum. Það vonda i breitni þeirra lofast ecki, þótt því góða sé hrósað. Það seinna var ávøxtur trúar þeirra, hið fyrra þeirra vantrúar. Svo fagurt og uppbyggiligt giørvalt þetta bréf annars er fyrir sérhvørn lesara, sem skilið gétur þess innihald, þá er þó einkum þess seinasti hluti, frá 10, 19 til endans, ámeðal hinna yppurligustu staða i bibliunni, i hvørjum sannliga sérhvør guðrækinn lesari mun finna sanna og mikilvæga uppbyggíngu, þótt hønum annars þyki margt torveldt i því undanfarna.

---

## Þau almennu bréf.

Þannig nefnast bréf hinna annara Postula, að líkindum þessvegna, að þau að undanteknu Joh 2 og 3 bréfi, eru rituð til kristinna yfirhøfuð, þó einkum Júða-kristna er lifðu fyrir utan Gyðíngaland.

## Jacobs Bréf.

Tveir postular høfðu þetta nafn, nefnil. sá eldri, sonr Zebedæi, Johannnis bróðir, er Herodes Ag-

rippa let hálshöggva (Post. g. 12, 1); Sá yngri, sonur Alphæi og Maríu systur Jesu móðar. Jacob yngri, er vegna teingða við Jesus kallast herrans bróðir, er hefundur þessa bréfs; hann var forstöðumaður þess fyrsta kristna safnaðar i Jerusalem, og i miklu áliti vegna sinnar guðrækni, og það hiá Júdum er ei trúðu á Krist; hvarum auknefni hans vitnar, því hann kallaðist hinn réttláti. Loksins var hann, að tilhlutan eins Sáducæisk ypparstinprests, líflátinn.

Jacobs bréf er skrifað (siá 1, 1) til þeirra 12 ættqvísla, sem voru tvístraðar. Siðvanalega nefnast svo Júdar yfirhöfuð, er voru fyrir utan þeirra föðurland. En án efa á það hér að takast um kristna Júða, því postulinn gèrir ráð fyrir að hans lesarar trúi á Jesum Krist. En þótt þessir hefðu samkunduhus fyrir sig siálfa, voru þeir þó nærverandi við Gyðínganna Guðs þiónustugiörð, þar þeir álitu sig að nockruleiti bundna við Moisis lögmál; hvar fyrir það er líklegt, at Postulinn ástundum i bréfi þessu hafi talnð til sinna vantrúuðu landsmanna. Nær bréfið sé skrifað, er óvíst; af heilsunum til lesaranna má það ráða, að það er skrifað eptir að Jesu trúarbragð voru útbreidd fyrir utan Gyðíngaland.

Tilgángur bréfsins er, að sýna, hvaða verkan trúin á Jesum egi að hafa á hans játenda hiörtu og framferði. Hér finst því engin, sem hiá Post. Paulus, útskýríng yfir Jesu Evangelium, og þær

skyldur, það býður oss. Bréfið inniheldur einsog siallræðan, sem það líkist mjög, vorra heilögu trúarbragða hreina og guðdómlega siðalærdóm. Postulinn Jacob vissi, að þeir kristnuðu Júðar liðu mikið alstaðar, einkum af þeirra vantrúuðu landsmönnum; hvar fyrir hann upphvetur þá til staðuglyndis i þeirra trú. Með sorg hafði hann ogso orðið þess var, að margir kristnaðir Júðar ei höfðu umbreitt þeinkíngar og lifnaðar hætti sínum, og að þeirra trú á Kristum var einasta útvortis játníng munnsins, (sem ennú hiá svo mörgum); hvar fyrir hann refsar þeim fyrir þessa hræsni, og lætur þá vita að slík trú er ónýt (dauð). Þareð margir smiadrarar misbrukuðu lærdóminn, um syndaranna réttlæting hiá Guði fyrir trúna, til skálkaskióls; varar hann þá strángt við slíkri misbrúkun af Jesu hreina lærdómi. Sá áður umgétni siðvani hiá þeim kristnu söfnuðum, að ei einasta kénnendurnir, heldur ogsvo aðrir kristnir, er fundu kallan þartil, mættu tala i söfnuðunum, gaf tækifæri til mikillrar óreglu; hvar fyrir Postulinn aðvarar þá, álíkt og Páll Korintumenn (1 Cor. 14), mót túngunnar vanbrúkun og ofmikilli lyst til að vera kénnendur. Einninn lætur Postulinn fáein orð falla þeim ríku til aðvörunar, er forsmáðu þá fátæku og þeim fatæku til huggunar. Höfuðatriði þessa auðvelda bréfs sést af fylgiandi:

# Innihaldi.

Þeir kristnu skulu gledia sig vid mótlætid, er þénar þeim til fullkomnunar, og styrkia sig vid bænina (1, 1—8). Þeir fátæku kristnu eru farsælari enn þeir ríku (9—11). Sá sem er þolinmódur í freistíngunum, verdur sáluhólpinn; freistíngar til enn illa koma ei frá Gudi, sem er giafari alls gódsins, heldur frá mannanna hugskoti (12—18). Sá skal ei tala, er ei hefir kollun þartil af Gudi, því þaraf spretta óeirdir. Sá sem grandgiæfilega athugar Jesu lærdóm og breitir eptir honum, verdur sáluhólpinn vegna sinna verka (19—25). Sá sem ecki temur sína túngu, er ei gudrækinn; en sön gudrækni er innifalin í sönnum mannkiærleika og í heilögu lífserni (26—27).

Þeir kristnu skulu ekki fara í manngreinarálit; þeir voru fyrir þad mesta fátækir, er tekid höfdu kristna trú, og þeir ríku utansafnadar spottudu Kristi nafn (2, 1—7). Þeir skulu minnast kiærleikans bodords, og laga lifnad sinn eptir Herrans skipan (8—13). Einasta útvortis ad látast vera kristinn, hiálpar einsltid, sem þeim naudstödda hiálpar þad, ad madur aumkvist yfir hann, án þess ad hiálpa honum (14—17). Sá kristni skal sýna trú sína af hennar verkunum; því trúin án verkanna er daud (2, 14—26).

Postulinn varar þá vid ad keppast eptir ad vera kennarar, því kennararnir kynnu audveldlega vanbrúka sína túngu; þeirrar óstyriláta túngu

skaðlegu verkanir afmálast (3, 1—12). Sá sem er vís, syni vísdóm sinn í góðri umgeingni; hvar ofund og illdeilur eru, þar byr ekki vísdómur. Þess sanna og falska vísdóms einkenni og verkanir útlistast (13—18).

Þeirra holdlegu gyrndir orsaka stríð og hatur medal þeirra, og hindra að Guð bænheyrir þá (4—13). Vegna elsku sinnar til heimsins, giæta þeir ei skyldu sinnar við Guð, og leidast ei af kristindómsins anda, er mótstrídir vondum gyrndum; þeir skulu því auðmykia sig fyrir Guði, og halda sér til hans (4—10). Þeir skulu ei baktala eða dæma hardt um brædur sína (11—12). Postulinn lastar þeirra manna hegdan, er stóla uppá þá tilkommandi tíð, einsog þeir rédu fyrir lífinu (þetta er einkum sagt til ríkra kaupmanna medal Júda, er stofnudu lángar reisur vegna sinnar kaupverslunar) (13—17).

Í prophetiskum anda og ordatiltækium spáir Postulinn þeim ríku þeirra forlög (5, 1—6). Hann hughreystir þá fátæku, og bidur þá að vænta Herrans komu þolinmóda (7—11). Bannar þeim að vanbrúka eidinn; segir þeim, hvornig þeir skulu bera sig að í sorg og gledi, í siúkdómi, og gégn þeim er villast frá sannleikanum.

## Athugasemdir.

Þetta stutta innihald synir, hve markverdt þetta bréf er fyrir oss sem hina fyrstu kristnu-

Vér megum lesa það með sama hugarfari sem fiallræðu Jesu, hverri það líkist miøg; ver megum ekki hánga við bókstafinn, heldur leita eptir meiníngu hans orða. Postulinn Jacob brúkar, einsog Jesús, kroptugt og andríkt orðfæri og hugmindir. Einsog Jesus brúkar mørg undarleg og stórkostlig orðatiltæki, t. d. verið ei hugsiúkir um hvað þér skuluð eta og drekka" "slái nokkur þig á þína vinstri kinn, bióð honum þá hægri" o. s. fr.; þannig ogso Jacob, t. d. þegar hann kallar túngunna «heim fullann ránglætis" "upptendraða af helviti", þegar hann segir, að «sá sem yfirtreður eitt boðorð, yfirtreður øll" o. s. fr. Margir hafa ogsø hneixlast yfir beggia orðatiltækium um þá ríku og fátæku; en efað vér høfum rétt skilið meiníngu Jesu í fiallræðunni, hvarum áður er talað, munu Jorobs orð ei hneixla oss.

Sama er tilfellið með þann merkilega stað 2, 14 f. Sá sem hángir i bókstafnum, merkir að Postularnir Páll og Jacob mótsegia hvør øðrum, því Páll kennir oss, að menn réttlætast fyrir trúna eina; Jacob þarámóti, af verkunum og ekki af trúnni alleina. Vér megum ei gleima því, að ei gat hiá því farið að þeir heil. rith. brúkuðu tvíræð orðatiltæki. Vér gétum að vísu réttiliga sagt: oss byriar að bera umhyggiu (sorga) fyrir því, er til matar og fata heyrir; en vér gétum og eins réttiliga sagt: oss byriar ei að bera umhyggiu fyrir því, sem vér tøkum þetta orðatiltæki

í mismunandi meiníngu. Er þad ei kiſtilig áminníng til hins lata: þér ber ad hafa umſorgun fyrir þínu og þinna uppheldi? En er ræda vor ſídur kriſtilig, þá vér ſegium til hins ahyggiufulla: ſæmir þad þér, er trúir á Gud og eylíft líf, ad ala áhyggia (búkſorg) fyrir uppheldi ens jardneſka líſs? Þannig ſannfærumſt vér um, ad Páll og Jacob ei mótſegia hvor ødrum, þegar vér athugum beggia tilgáng, og þýdíngu ordanna hiá hvorium fyrir ſig. Páll talar til Júda og Phariſæa, ſem birludu ſér inn, ad þeir vegna ſinna verka og adgiætſlu Moiſis løgmals, væru réttlátir fyrir Gudi Páll þverneitar því, og ſegir ad vér einaſtá af nád, fyrir trúna á Jeſum, réttlætumſt. Vér megum ſem ſyndarar audmiúkir og ydrandi forlíkaſt vid Gud, og þá réttlætumſt vér, þ. e. verdum nádadir fyrir trúna á Kriſtum (Róm. 3, 20 f. Gal. 2, 16 f.) Jacob talar til þvílíkra hræſnara, ſem imindudu ſér, ad vera viſsir um Guds nád og ſáluhiálp, einaſta af því þeir høfdu kriſtid nafn, án þeſs þeir betrudu lifnad ſinn; Jacob tekur því ordid trú i ſømu meiníng ſem þeſsir hræſnarar, nl. um játun Kriſtinndómſins med munninum. Ad ſlík trú ei réttlæti menn fyrir Gudi, þarum er Páll Jacob ſamdóma. En — Páll ſegir þó berlega, ad menn réttlætiſt án verkanna; Jacob — fyrir verkin; viſsulega. Ad réttlætaſt, þýdir hiá Páll, (ſem ádr er ávikid) ad finna nád hiá Gudi, og hana finnur ſynd-

ariun, þegar Guð sér hans góða hugarfar og sannarlega trúnaðartraust, áðurenn hann fær tækifæri til að sýna það í verkunum; hiá Jacob þaramót, að álítast réttlátur, og þarum géta menn ei dæmt, utan þeir siái kristilega hegdan, trúarinnar sanna ávöxt. Það er mikið rimiligt, að Postulinn Jacob hafi viliað vara við því að rángskilia Páls lærdóm um frían frá Móisis lögmáli og réttlætingu fyrir trúna, án þess að fullnægia lögmálinu, einsog hræsnararnir giörðu, og hann þessvegna með vilia hafi valið Abrahams og Rahabs dæmi, sem Páll brúkaði. En að hann ei hafi viliað mótsegia sínum meðbróður Páli, vottar ræða hans (Post. G. 15), sem hann héldt á Postulanna fundi, ánægianlega.

Vér skulum þá — (staðinn fyrir að hártoga orð, eða misgruna þá heilögu Rithöfunda, sem varðveittu andans og trúarinnar einíngu friðsamlega, þótt þeir stríddu mót alslags villum og hleypidómum — lofníngarfullir þakka guðlegri speki, sem hefir séð fyrir því, að vér hiá Post. Jacob giætum fundið náqvæmari útlystun yfir Páls sanna, af hræsnurum svo opt rángskilda, lærdóm um syndaranna réttlæting fyrir trúna, og þannig í beggia bréfum leitað huggunar í eimdum vorum.

---

# Péturs fyrra bréf.

## Inngángur.

Engann af Jesu postulum þeckium vér betur enn postulann Pétur af guðspiallamannanna frásögu; ecki einasta af því hann var einn af þremur Jesu ástfólgnu vinum; heldur þessvegna að hann sem optast héldt svörum úppi fyrir hina lærisveinana, og hans fliótlynda og falslausa lunderni auglýsti hans breiskleika og hans elskuverdu eginnleika. Enn hérum er áður talað. Líka er Pétur í fyrsta parti Postul. giörnínga bókar höfudpersónan; hér byrtist hann sem hella sú, á hvörri Drottinn bygði sína kyrkiu, sem stiptari þess fyrsta kristna söfnuðs í Jerusalem. Síðan verður hans ei gétið í þessari heil. bók, þá Páll, Lucæ kénnari, byrtist sem oddviti Einasta bréfið til Galata umtalar Postulann Pétur litið eitt; og þótt þar sé minst á eina bráðræðis yfirsión af postulanum, svo er þar þó eigi dregið dulur yfir hans stóra álit, þared hann ei einasta nefnist einn af kyrkiunnar máttar stólpum (Gal. 2, 9), heldur ferdast siálfur Páll frá Damascus til Jerusalem, til að siá og kynna sér þennann nafnfræga postula (Gal. 1—18).

Eftir þann tíma, þá Postularnir Pétur og Páll fundust i Antiochia, vitum vér ei með vissu, hvört Pétur ferdaðist, og utdreifði sæði hins guðdómliga orðs. Það lætur að líkindum að hann ferdast hafi mót austri, leingra inní Asiu, ámeðan

hans meðþjón Páll ferðaðist vestur eptir yfir til Evropa. Þeir gemlu kyrkiufeður vitna samhjóða, að báðir þessir Postular, á sömu tíð, endt hafi sitt heiðursverða skeið í heimsins hofuðborg Róm, innsiglandi Jesu nafns játníngu með sínu blóði. En hvort Postulinn Pétur stiptað hafi sofnuðinn í Róm — hvað sumir kyrkiufeður votta — er ekki víst.

Þá Pétur reit sitt fyrsta bréf, var hann í Babylon (5, 13). Þeir kyrkiufeður, sem héldu að Postulinn stiptað hefði þann rómverska sofnuð, meintu, að Róm nefndist hér Babylon á spámannslega vísu (einsog í Joh. Opinberunarbók), sem heiðindómsins, drambsemdar og lasta hofuðból. En trúligra þykir, að það skiliast egi eptir orðunum um Babylon í Asíu, hvar margir Gyðíngar voru, afkomendur þeirra herleiddu Israelita, af hvorium fáir nyttu sér af géfnu heimfararleyfi til feðurlands síns. Híngað hefir þá Postulinn Pétur líkliga ferðast frá Antiochiu, til að boða Gyðíngum Evangelium, sem Postuli hinna umskornu, ámeðann Páll flutti kénníngu fyrir óumskornum eður heiðíngium.

Enn álíkt og heiðíngianna Postuli Páll ekki útilokaði Gyðínga frá sinni umdirvíssan, því vér hofum séð, að hann ætíð fyrst snéri sér til þeirra; svo útilokaði Pétur ekki helldur heiðíngia, þótt hann einkum væri gyðínga Postuli. Um það vitna

bædi hans bréf, sem einkum stílud eru til kristn-adra heidíngia. Hann nefnir sína fyrstu lesara (1, 1) "útvalda útlendínga alstadar, í Pontus, Galatia, Cappadocia, Asiu og Bithynia" þ. e. þeir kristnudu heidíngiar, er lisdu i samqvæmi med þeim Israelitum, sem vóru tvístradir erlendis, og tekid hefdu kristindóminn; líka segir hann ad sínir lesarar fordum verid hafi afgudadyrkarar (4, 3. 4). Postulinn snyr þá rædu sinni til kristnadra heidíngia, sem var þessara safnada fiølmennastur hluti, án þess þó ad útiloka umvendta gydínga, medal hvorra hinir, sem Páll ad ordi kvedur, voru sem innplantadar greinir, og med hveriumm þeir, eptir Postulans tilgángi, sameinast skyldu i eitt brædrafélag.

Nu efa hefir hin sama otsøk knúid hinn helga rithøfund þessara bréfa til, i þeim einkum ad hafa tillit til heidíngia, sem Pál til ad rita bréf sitt til Galatiumanna. Hann vildi nefniliga styrkia þá i þeirri trú, ad þeir án umskurnar, án ad-giætslu Móisis setnínga, hefdu hlutdeild i Mess-ias, eins og trúadir Israelitar, og vóru partur hinnar andlegu byggíngar, þess Gudi helgada safnadar (1 Pét. 2, 4 f.); þegar þeir i sanns leika trydu á þann krossfesta og upp aptur rísna, og létu i liósi trúarinnar verdiga ávexti. Þess-vegna vottar hann i enda hins fyrra bréfs (5, 12) og sá vegur til Guds nádar, sem þeir vóru uppfræddir um (sá lærdómur, sem þeim var

bodadur bædi af Páli, og líkliga af bréfberaran-um, Páls medþión, Silvanus), var sá sanni; þess-vegna fullvissar hann hina sömu lesara i seinna bréfinu (1, 1), að þeir, þótt Heidíngiar at upp-runa, hefdu eins dýrmæta trú, sem þeir fæddu Gydíngar.

En yfirhøfud var það Postulans tilgángur, einkum i hinu fyrra bréfi at styrkia sína lesara i stadfastri vidurkénníngu trúar sinnar undir þeim þúngbæru ofsóknum, sem einkum þá vóru hofd-adar mót hinum kristnu, líkliga undir keisara Nero. Í stad þess ad i fyrstunni einúngis Gyd-íngar, edur heidinn þorparamúgur, raskadi spekt hinna kristnu, þá var nu svo komid, ad siálf rik-isstiórnin i Róm, skipadi ad offækja þá, og þeir rómversku liensmenn stefndu þeim til sín, og krøfd-ust af þeim reiknúngsskapar fyrir trú sína, og strøffudu þá sem stórbrotamenn, ef þeir stødugt vidurkéndu Christum. Kristid nafn var því nú ordid brennimerki straffsekra manneskia; og þann-in var það bókstafliga uppfylt, hvad Jesus hafdi spád sínum lærisveinum (Matth. 10, 22. Luc. 6, 22). Þegar vér lesum bréf þetta, verdum vér ad hafa fyrir augum vorra fyrstu kristnu brædra þúngbæru kior; og þá mun mikill partur inni-halds þess verda oss lióssari, og tvøfaldt hrærandi og uppbyggiligt fyrir vidqvæman lesara.

# Innihald.

Eptir hina postulligu heilsan (1, 1—3) prísar sá heilagi rithöfundur Guð fyrir þá sáluhjálpar von, sem veitt er hinum kristnu, fyrir Jesu upprisu (4—5). Við von þessa ættu þeir að hugga sig i ofsóknunum, er þéna skyldi til að hreinsa þeirra trú, að hún, eins og gull i eldi reynt, finnast mætti hrein og ósvikin þegar Herran kæmi v. s. frv. (6—9). Þessa farsæld, sem þeir trúðu fyrir Kristindóminn ödlubust, höfðu þeir spámenn, er spáðu um Messias, inniliga gyrnst að upplifa; en þeir máttu láta sér það nægia, að boða fyrirfram það Evangelium, sem fyrir Postulana var kunngiört þeim er nú lifðu, við hvað jafnvel englarnir undrunarfullir gleðdust (10—12)

Þareð Guð hefdi audsýnt slíka náð, ættu þeir, (eins og árvakrir og ydnir þiónar, sem bundu i styttu föt sín, so þeir ecki hindrast skyldu i sínu líkamliga erfidi) að leggia allan hug á, ætíð að vera viðbúnir Herrans komu — og nú gefur P stulinn þeim þær kroptigustu og ljósustu áfysingar til heilags lífernis (13—25) Þessum áminníngum og advörunum framheldur hann undir ödrum hugmindum. Eins og úngbörnin sykiast eptir móðurmiólkinni við hvoria þau vara og þrífna, ættu líka þeir kristnu, sem endurfæddir þ. e. sem fyrir kristindóminn hlotið höfðu nytt líf, sielf að vaxa i þeckíngu Jesu lærdóms, svo þeir af hinni hreinu sálarfædu giætu þroska tekið

i hinu andliga lífi; og þad mundu þeir géta, svo framt þeir hefdu smackad Jesu lærdóms sætleika (og hefdu ecki kristnast sem hræsnarar). Í krist-indóminum hefdu þeir annad háleitara, enn þeir ádur sem gydíngar eda Prófelytar hafi hefdu i júda-dóminum. Gydíngar hefdu musteri; þeir kristnu voru siálfir Guds musteri, ecki eins og hitt, byggt af daudum steinum, helldur af lifandi verum, grundvallad á þeim lifandi, rétta hyrníngarsteini Christo. Gydíngar hefdu presta, sem alleinir dyrfdust ad nálægiast Gudi med fórn sína fyrir fólkid; allir þeir kristnu voru prestar, er siálfir frambáru sínar fórnir fyrir Gud, ecki, sem hinir, af dyrum, helldur andaktar og kiærleikans fórnir (2, 1—5); líka er Messias i enu G. T. lyst sem hyrníngarsteini edur hellu, uppreistri i Sion (Davids stad), á hverri þeir truudu skyldu hvíla þ. e. byggia trú sína og von; einnegin sem þeirri hellu, á hverri vantrúin mundi steyta sig, þ. e. hneixlast á honum sem þeim krossfesta Messias. En þeir kristnu voru nú, hvad þeir sönnu Israe-litar fordum voru, Guds útvalid fólk, konúngligt prestsdæmi þ. e. sameiníng Guds sönnu dyrkara, og borgarar Jesu ríkis o. s. frv. (6—10). Og med nú Gud hefdi veitt þeim kristnu ödrum fremur svo stóra velgiorníngа, svo ættu þeir líka ad syna yfir-burdi sína i heilögu framferdi. Þetta útlistar Postulinn fyrst yfirhöfud, sídan tilgreinir hann þær ymisligu stéttir. Heidíngiar hallmæltu þeim,

sem illgiørdamønnum, þar þeir hefdu yfirgéfid sína gømlu trú: þeir ættu ad velta þessu af sér, og med rádvøndum lifnadi leitast vid ad umvenda heidíngiunum. Yfirvøldin ossókttu þá: þeir ættu med hlydni vid kónginn (hinn rómverska keisara) og hans landstiórnara, i øllu því sem var samqvæmt Guds bodi, ad syna sig góda borgara, og med því nidurþagga ámæli sína mótstødumanna. Þeir voru frialsar manneskiur, ecki manna þrælar, helldur sem Guds þénarar ættu þeir ad hlyda yfirvaldinu, er sett var af Gudi (1.—17).

Sidan koma fagrar áminníngar til hinna kristnudu þræla, sem opt voru illa medhøndladir af slæmum húsbændum (18 - 25). Áminníngar til kvenna, einkum þeirra sem giptar voru þeim, sem ei voru kristnir, sem þær med óflekkudum Guds ótta, prúdmennsku og hógværd ættu ad leitast vid ad snúa til kristinndómsins, en ecki med hótunum láta sig hræda til ad sleppa trúnni á Christum (3. 1—6); til gyptra manna (v. 7).

Nú snyr Postulinn áminníngum sínum til kristinna yfir hofud. Vingiarnligir og sámhuga ættu þeir ad vera innbyrdis, hógværir og fridsamir vid óvini sína og oføknarmenn (8. 9). Þá breyttu þeir (eins og David kénnir i 34 Ps.) klókliga, og gætu reidt sig uppá Drottinn (10. 12). Þá gat einginn ollad þeim nokkurs ills; því ad lída fyrir hid góda málefni, gæfi laun hiá Gudi. Einasta ættu þeir ad óttast hann, enn ecki

manneskiur, og þessvegna með hugdiörfúng og hógværd standa reiknfng af trú sinni, þegar yfirvaldi krafdi þess (13—15). Ef þeir þessvegna saklausir líða mættu sem illgiördamenn, so skédi það að Christi dæmi, hver lidið hafði saklaus fyrir þá seku, til að stidþægia oss við Guð (16—18). Að vísu var hann líkamliga daudur, enn fyrir andann lifandi giördur; fyrir hvern hann og fordum prédikað hafði fyrir þeim vantrúuðu, þeim nl. sem i Noæ tid fyrirfórust, þegar hann með ættsingium sínum frelsadist i vatninu — sem var fyrirmindan skyrnarvatnsins, sem veitti frelsi þeim trúuðu, sem i hreinskilnum tilgángi kristnudust — og, af því Christus frívilíugliga lidið hafði, þessvegna var hann so hátt upphafinn og s. frv. (18—22). Einsog Christus hafdi geingið i dauðann fyrir oss, þannig ættu hans trúuðu að álíta sig sem dauða frá heimsins vondu gyrndum (því sá sem daudur er, syndgar ecki), til að lifa nyu lífi fyrir Gudi (4, 1—2 s. Romv. 6, 1) Alltof leingi hefdu þeir lifað i heidíngia hóoma, og þeirra fyrri stallbrædur furdadi það, að þeir nú ecki leingur áttu þátt þari, og þessvegna hæddust að þeim; en þessir skyldu ogívo mæta fyrir dómara hinna lifendu og daudu. Það var þá ecki að óngtiu, að Evangelium var bodað þeim hédanförnu (þeim, sem aflífaðir voru vegna trúar sinnar), því þótt þeir dæmdust af mönnum til lífláts, hvað líkaman snerti, þá hefdi Gud álitað

að þeir lifa skyldu, nióta farsældar, i tilliti til sálarinnar. Endir allra hluta nálægðist, (nl. Júða stiórnarstands júða- og heidindóms). Þeir kristnu ættu þessvegna að vera árvakrir, og samhuga i kiærleika þiena hvor ödrum med þeim mætti, Gud hafði þeim unt o. s. fr. (3—12).

Þeim mætti ecki koma það ofyrirsyniu, að þeir gánga hlytu gégnum prófeldinn (ánaudir); fyrir þiánsngar skyldu þeir vegsemd ödlast, eins og Kristur. Með því að líða sem kristnir, vegsömudu þeir kristindóminn, þared þeir syndu, að audi Drottins hvildi yfir þeim; einasta að einginn lidi fyrir egin glæpi. (12—16). Sá tími var nú kominn, að dómurinn (Drottins hegníng) byriadi frá Guðs húsi (Christi egin söfnudi); og hvernig mun þá gánga þeim vantrúndu? o. s. frv. (17—19).

Seinasti kap. inniheldur kroptugar áminníngar til oldúnganna (kénnara og forstödumanna), og til hinna yngri (lærisveina og tilheyrara), og þaráeptir til heila safnadarins, og hann endar bréfið með óskum og qvediu.

## Péturs seinna bréf.

### Inngángur.

Sá helgi rithöfundur kénnir oss, að bréf þetta sé skrifað sömu söfnudum, sem hið fyrra; þared

hann (3. 1) berliga segir, að það sé nú í annað sinn hann riti þeim sömu lesurum; með hvörju hann annaðhvert bendir til tapaðs bréfs, eða, sem er líkligra, til hins fyrra, er vér höfum frá hönum. Líka sýnir byrjun bréfsins, að það einkum sitlað er til kristnaðra heiðíngja í þessum söfnuðum; þar hann ávarpar þá þannig: „til þeirra, sem öðlast hafa jafndýrmæta trú og vér„ þ. e. vèr gyðínga-kristnir.

Þarámót er það óljóst, hvar Postulinn skrifaðhafi þetta seinna bréf. Máské í Róm, eða á ferðinni þángað. En það má ráða af hans egin orðum (1, 13—14), að það sé skrifað skömmu áður enn hann í téðri heimsins höfuðborg, ásamt Postulanum Páli, dó sem Píslar vottur; eins og beggia bréfanna mismunandi innihald gefur að ráða, að það seinna sé skrifað nockru síðar enn það fyrra.

Tilgáng bréfsins sýnir Postulinn efs á nýáminnustum stað 1, 13—14 og 3, 1. Hann vildi yfirhöfuð eins og í því fyrra bréfi upphvetja þá kristnu, að vera Jesu lærdómi trúir, og lifa eptir hönum í guðligu framferði; en einkum vildi hann í bréfi þessu, eins og þess innihald sýnir, áður enn hann yfirgaf heiminn, eptirláta kroptuga aðvörun við óguðligum lærdómum, er nú bryddi á, en sem einkum í eptirtíðinni mundu með óttaligri makt ryðiast inni Jesu kyrkiu.

Það er athuga verdt, að lyginnar spámenn,

sem hér svo herfilega afmálast, eiginliga eru af sama uppruna, sem þeir, er Postulinn Páll i br. til Colíss. og til Timoth. hefir kynnt oss; vér vitum af Páls bréfum, að á þeim dögum voru þeir grillumenn til, sem meintu að þeir kiæmu i nánara samfélag með andanna ríki, þá þeir misþyrmdu líkamanum. En eins og það ætíð fer, þegar menn yfirgéfa þann rétta veg, að þeir víkia á mótsetta afvega, þannig var og þessum varið. Súmir pyndu líkama sinn með föstu og ödrum siálfuppfundnum ónattúrligum æfíngum; og við þesskyns varar postulinn Páll i umgétnum bréfum. Aðrir géngu gagnstæðan veg. Þeir meintu, að líkaminn, sem hindraði manneskiuna frá nánari sameiníngu við þá æðri anda, ætti sem fyrst að eydileggiast, og menn syndgudu því ecki, þótt þeir ófurseldu sig til lausúngar, er eydilegdi líkaman. Hérvið bættust aðrar eins skaðvænar meiníngar. Þareð sumir höfdu brotið heilann yfir uppruna þess illa i heiminum, komust þeir á þá meiníngu, að heimurinn giæti ecki verið skapaður af þeim almáttuga og algóða Gudi, en væri handaverk eins eða fleiri ófullkominna anda. Þeir töludu smánarliga um þessa háleitu anda, edur, sem Postulinn nefnir þá, þær háleitu maktir, frá hverium þeir meintu, að sá líkamligi heimur, bústadur hins illa, hefdi sin upptök; og þar þeir líka trúdu, að andar þessir hefdu innilokað þær mannligu sálir i líkamanum, sem ödru fáng-

elsi, af hveriu þeir því fyrir því heldur ættu að leysast; svo gat ei hiá því farið, að þessi villa greiddi götu allslags lausung. En vér gétum og skilið þessa óttaligu spillíngu, sem afmálast í þessu og i Judæ bréfi, án þess að útleiða hana einúngis af þessari uppspéttu. Postulinn lýsir þessum sem afbökuðu Jesu hreina lærdóm, sem hinum ágiörnustu, lauslátustu og vellistíngasömustu þrælum, sem siálfhælnis oflatúngum og óróa predikurum; og vér þurfum einasta að líta til spillíngar þeirrar, sem drotnaði meðal gydínga og heidíngia, þá kristindómurin fyrst útbreiddist, til að fullvissast um að Jesu söfnuður snemma gat saurgast af henni, þótt Drottins Postular væru árvakrir. Þegar menn, er plögudu að sameina allskyns losta með sinni gömlu trú, án hiartans betrunar, læddust sem hræsnarar inni Jesu söfnuð, þá hlaut alt heidursverdt og heilagt að rángfærast og vanhelgast af þvílíkum svikurum. Páll bodaði friálsræði i ordsins háleitustu merkíngu, fríun nl. frá Moisis lögmáls þvíngun og ógnan, frá þrælsdómsótta fyrir Gudi, frá ótta fyrir mönnum, i stuttu máli: Guds barna dyrdliga friálsrædi. En hræsnararnir létu friálsrædisins heilaga nafn géfa til kynna blygdunarleysi, ósvífni og ugglevsi (2 Pet. 2, 19). Þeir fyrstu kristnu héldu þær umgétnu kiærleiksmáltídir, á undann qvöldmáltídinni. En þessi heidursverda innstiptan, sem sameinaði fátæka og ríka i einn bródur söfnuð

innbyrdis, hlaut ad líkindum, ad sortast og saurgast, af þeim villystingum, sem Postulinn hér a mála (2 Pet. 2, 13 fylg.) Hvar þvílíkir lestir eru sameinadir útvortis játníngu Jesu trúarbragda, þar er gata greidd til opinberlega ad hædast ad því sem heilagt er. Og Postulinn kénnir ad þannig mundi þad hér gánga. Þad var medal annars hinna trúudu eptirvæntíngarfulla bid Drottins annarar tilkomu, er spéfuglar þessir hæddust ad (2, Pet. 3, 3—4 fylg.) Hversvegna fiøldi kristinna á þeim døgum hélt ad Drottins koma væri nálæg; hvørsu grillumenn sturludu marga heri, og hve vísliga Postularnir, þótt siálfir ei vissu þeir tíma Drottins tilkomu, breyttu i þessu efni, um þad er gétid i Skríngargreinum til beggia br. til Thessal. Enn nú voru hérumbil 30 ár lidin frá Jesu burtför úr heimi þessum: Hinir fyrstu kristnu dóu smátt og smátt, og Drottins eptirþreyda tilkoma, og henni samfara heimsins endir, syndist ad tefia. Þegar vér nú hugfestum oss skaplindi hinna fyrstu kristnu, undir hørdum þiáníngum, undir von um nálægt frelsi, þá siáum vér hæglega, bædi hvada tilefni þetta gaf þeim vantrúudu hádfuglum, og hve hættuligt þad var fyrir trú hinna breisklari.

Til ad styrkia þá kristnu i trú sinni á Drottins fyrirheitum, og vara þá vid þeim nærverandi og tilkomandi freistingum, ritar sá aldradi Postuli þetta sitt seinna bréf, hugsiúkur fyrir Jesu søfn-

udi, sem hann nú bráðum skyldi eptirskilia i heim-
inum; og i stuttu máli er fylgiandi bréfsins:

## Innihald.

Postulinn heilsar lesurum sínum, og minnir þá á, að þeir, þótt flestir heidíngiar að uppruna, hafi eins dyrmæta trú, eins og þeir umvendtu gydíngar (þeir skyldu því ecki láta júdasinnada sturla sig) (1, 1—2). Þareð þeir i trú sinni á Jesum hefdu allt, hvad þeir vidþurftu til gudligs lífernis nl. bædi þeckíngu á Guðs vilia, og þau dyrdligustu fyrirheit, sem géta upperfað þá til að lifa samqvæmt þessari þeckíngu; þá hlytu þeir að leggia alla stund á að sameina trú sinni þær sennu dygdir, sem syndu, að þeir væru Jesu nafns verdugir játendur (3—8); því sá sem ecki bar þvílíka ávexti trúarinnar, þeckti ecki eda vildi ecki þeckia kristindóminn, og hefdi gleymt sínum skyrnarsáttmála. Þeir ættu því að stadfesta sína sáluhiálpar von, sem Jesu trúarbrøgð veittu þeim adgáng til (9—11); Og Postulin giæti ecki haldið sér frá að áminna þá um þetta, þá stuttu stund hann ætti enn þá tilbaka, (12—15). Því þess var hann, eins og hans medpostular, sér medvit-andi, að þeir hefdu kénnt þeim sannleika þá þeir bodudu þeim Jesus sem Messias. Og nú frásskyrir Postulinn þeim tveimur grundvallarást-ædum, á hvørium trú þeirra bygd var, nl. fyrst, þeim yfirordulígu atburdum er audkénndu Jesu

lifnað á jörðunni, (ógnafagreinir einn, sem einkum hafði sterka verkun á Postulunum, nl. Jesu umminðaná fiallinu Matth. 17); og því næst spádómunum um Messías, sem forðum, líkt blisi á náttarþeli, hefðu verið myrkvir, enn nú, þar þeir uppfylltir væru á Jesu, voru ljósir orðnir, sem dagur upprynni; því enginn spádómur gæti skilist af siálfum sér, fyrri enn uppfyllíngin kæmi og giörði þá ljósari; eins og spámennirnir ecki talað hefðu af siálfsdáðum eður mannligu hyggiuviti, helldur tilknúðir af anda Drottins (og þessvegna ecki siálfir sáu, það þeir umtöluðu, i skiæru ljósi) (16—21). Nú varar Postulinn lesendur sína við hinum fölsku, óguðlligu kénnurum, er mundu þreingia sér inn i Kristis kyrkiu, og villa trú margra. Munaðarlífi og ágyrnd mundi vera einkénni þessara ugglausu manneskia; enn hegníngu mundu þeir sæta; því hefði Guð forðum synt sitt réttlæti, þegar hann refsaði þeim óguðligu, og frelsaði þá guðhrædda, so mundi hann enn þá syna sig sem réttlátann dómara (2, 1—9). Einkum mundu þeir óguðligu kénnendur og ósvífnu orðsnápar sæta þúngu straffi, sem dyrfðust að ófrægia þær háleitari maktir (þau æðri yfirvöld, eður máské réttara, andanna ríki s. ingánginn) þar einglarnir siálfir, lángtum æðri enn manneskiurnar ei ófrægðu þá föllnu eingla, helldur yfirlétu Guði dóminn (10, 11). Postulinn líkir þessum óguðligu við skinlausar sképnur sem fylgia sinni

drift, og sem feittar eru til slátrunar; kallar þá gálepsínga er misbrúkudu þær heilögu máltídir til næringar lausúng sinni; ágyrndarinnar smánarverdu þræla sem gierdu þad ad atvinnuvegi ad ginna adra: eptirbreitendur hins vondskufulla spámanns, Bileams (sem þádi penínga til ad formæla Jsraelitunum, og þá hann neiddist til ad blessa þá, rédi óvinum þeirra ad tæla þá til afgudadýrkunar og hörs 4 Mos 22) (13—16). Og eingu ad sídur líktust þeir vatnslausum brunnum (sem táldraga hinn þyrsta ferdamann med von um svølun), regnlausum skýum (sem lofa þeim þurra akri vætu, en géfa hana ecki); og voru stórskrumarar, sem tældu þá er nýliga yfirgéfid höfdu afgudadýrkanina med frialsrædisloforði, þótt siálfir væru þeir hinir orgustu þrælar. Aumkunarverdir væru því þeir ólucklegu, sem féllu í þeirra gildru (17—22).

Eptir ad Postulinn hefir áminnt þá fordiorfudu ad hallda fast vid spámannanna og Postulanna lærdóm, fyrirsegir hann þeim, ad þessi varandi sídaspilling umsídir mundi géra gis ad Jesu kénníngu. Einkum mundi Jesu fyrirheit um hans tilkomu til dómsins géfa hádfuglum hædnisefni (3, 1—4). Postulinn býdur þeim ad hugleida, ad líka í Noah tíd forsmádu hinir vantrúudu Drottins advorun; en hans hótanir rættust þó; — ad fyrir Gud sem er óumbreytanlegr, væri

tíminn hvorki lángur né stuttur — að sá þolinmóði Guð einasta vildi géfa syndurum tóm til betrunar; Drottins dagur mundi skyndilega koma, og þá mundi himin og jörð með eldi uppleysast (5—10).

Hann áminnir þá að vera ætíð viðbúna Drottins komu, og einasta að álíta hans tef, sem miðandi þeim og öllum til frelsis (11—15) Þetta sama hafði og Postulinn Páll kónnt (Ebr. 10, 25—37) þá hann í bréfum sínum talar um þetta efni (Drottins komu). Enn í því var sumt (t. d. 1 Thess. 4, 13—18) sem hægliga gat misskilist (menn gátu blandað Drottins komu til hegníngar gyðínga saman við hans komu til hins almenniliga dóms; menn vildu útreikna tímann til heimsins eydileggingar o. s. fr. Þessvegna var þetta, sem allt í bibliunni, opt rángfært og misskilið af óvitrum;| þeir hlytu nú, aðvaraðir hérum, að varast afvegaleiðarana og stadfestast í trú sinni.

## Skíríngargreinir yfir bæði Péturs bréf.

Þessi Postulans Péturs bréf eru ei alleina í sjálfu sér nærsta merkilig, helldur og géta þau, samanborin við Páls bréf, eflt vora sannfæringu um kénníng beggja Postulanna. Hér egum vér 2 bréf eptir júða Postulann, skrifuð þeim söfnuðum, sem að mestuleiti voru umvendtir heiðingiar, hvörra tveir, ef ecki fleiri, stiptaðir voru af heið-

íngia Postulanum, Páli; því þeir sæfnuðir, sem 1 Pet. 1, 1 meðal annara nefndir eru i Galatiu og i Asiu, þ. e. i þeim hluta Asiu, hvar Ephesus lá, voru stiptaðir af Páli, sem áður er ávikið. Hefði nú Páls kénníngu ecki borið saman við Péturs (eins og júdasinnaðir báru Páli á brýn, s. inngang. til Galat. og Corinth. bréfanna); eða hefði þar verið óeiníng milli þeirra, i einhvörri kristiligri lærdómsgrein (eins og nockrir hafa géiskað af Gal. 2, 11 fylg), þá mátti Petur hér hafa gétið þess. Enn i bréfum þessum finnst eckert því viðvíkiandi. Þvertámóti, lysir ræða gyðínga-Postulans til fæddra heidíngia, að hann fylgði somu grundvallar ástæðum, sem hann vidurkéndi Post. 9. 10 og 15 Kapp., hann kénnir hið sama Jesu Evangelium, sem Páll i bréfum sínum (1 Pet. 1, 18. 19. 2, 24); hann staðfestir berliga þann lærdóm, sem Páll og líkliga hans medhiálpari Silvanus hafði fyrir þeim brínt, sem sanna, guddómliga kénníngu, (1 Pet. 5, 12); Hann talar um sinn meðpostula, Pál, sem um elskadann meðbróður, glæddann vísdómsins anda, og hrósar fyrir lesurum sínum bréfum hans, sem ritum þeim er innihelldu það sama og hans egin (2 Pet. 3, 15. 16), eins og hann, ecki einasta kénnir það sama, heldur líka brúkar somu orðatiltæki, sem Páll (samanber 1 Pet. 1, 21 með Romv. 4, 24. 25 — 1 Pet. 3, 21. 22 með Romv. 6, 3 fylg.

1. Pet. 1, 18 með 1 Cor. 6. 20. 7, 23). Eigum vér þá að láta nockurn imbyrla oss, að þeir heilögu Postular í lærdómi sínum hafi verið á ólíkri meiníngu? Þegar Pétur t. ð á nýl. nefndum stað, talar um að sumt sé þúngskilið í Páls bréfum, þá liggur þessi þungskilni, eptir Postulans orðum, í hlutarins náttúru. Því hér er talað um Drottins komu til dómsins, og heimsins enda. Og Postulinn siálfur segir, að allir spádómar hlióta, eptir sínu eðli, að vera sem blis í myrkri, þángað til dagurinn (uppfyllíngin) kémur, og upplýsir þá (2 Pet. 1, 19). Látum oss því brúka þá sem lýsandi blis á lífsins myrku stigum, og á meðan hagnýta aðvörun Postulans 2 Pet. 3, 16 svovel þessa sem aðru bibliunnar innihaldi viðvíkiandi. Þótt nú Postulinn Pétur í bréfum þessum, eins og Páll í sínum, einkum líti til ásigkomulags og þarfa sinna fyrstu lesara: svo mun þó séihvör kristiligur lesari siálfur finna, að höfuðefni þeirra er eins þénanligt fyrir oss sem þá. Í fyrra bréfinu uppörfar Postulinn þá kristnu til þolgiæðis undir ofsóknunum, sem voxðu yfir Jesú nafns játendum, ecki einasta af heiðíngia og júða skríl, heldur líka af yfirvöldunum siálfum. Vér erum að vísu fríir fyrir slíkum ofsóknum: enn má ecki sannleikans skorinorði talsmaður ætíð búast við ófrægð, opt hatri og ofsóknum? má ecki Jesú hreinskilni eptirfylgiari, einkum á vantrúuðu tímabili búast við spotti, og

ødrum margvísligum freistíngum, til ad yfirgéfa trú sína? Þessvegna, svoleingi sannleikans óvinir, vantrúadir og óbilgiarnir spéruglar finnast medal kristinna, í stuttu máli: svo leingi illgresid og hveitid vex tilsamans: svo mun gott hiarta ætid finna huggun, uppørfan og advørun í þeim dyrmætu ordum, Postulinn Pétur skrifar vorum fyrstu medkristnu, sem offóktir voru fyrir trú sína. Slíkar blódugar offóknir, sem plágadu Jesu nafns fyrstu játendur erum vér fríir fyrir: enn gétum vér þá lesid bréf þetta, án þacklátsemis vid Gud, sem gaf oss betri kjør? og ega þá ecki þær dyrmætu lífsreglur Postulinn géfur lesurum sínum, sem þegnum (1 Pet. 2, 13) ad hafa tvøfalda verkan á oss, er støndum undir því yfirvaldi, sem hefur sømu trú og vér? Yfirhøfud þegar vér hugfestum þeirra fyrstu kristnu þúngbæra ástand, þar þeir ei einasta høfdu heidin yfirvøld, helldur líka ektamaka og húsbændur: þá munum vér bædi finna þad hiarta hrærandi og fagra í Postulans áminníngum (Pet. 2, 18 fylg. 3, 1 fylg.), og líka med þacklæti vidurkénna, hve lángt audveldara Gud hefir giørt oss þad, ad ná því elskuríka sinnislagi, sem hann hér innprentar þeim kristnu, bædi í því borgaraliga og hússtiórnarstandinu. Þetta bréf minnir oss því á þá tíma, þegar menn offrudu lífi og blódi fyrir kristna trú; enn vitnar jafnframt móti hirdulausri øld; þá margir fyrir verda sig vegna Jesu Evangelii, flya musteri

Drottins, og undir kyrkiunnar útvortis friði, afneita þeirri trú, er þeir fyrstu kristnu, undir ofsóknum, innsigludu með sínu blóði.

1 Pet. 3, 19. 20 er einn af þeim áður umgétnu þúngskildu stödum í hinu N. T. úti hvørn vér ecki þurfum að grubla. Vér gétum eingu að síður fundið það huggunarríka, sem öllum þeim er ætlað, er líða að saklausu, i þess lídandi, fyrir þjáníngar dyrdliga, Jesu dæmi sem Postulinn hér framsetur; þótt vér ecki útþydt gétum þau orð: hann géck burt i anda, og prédikaði fyrir öndunum, sem vóru i varðhaldi, er ecki trúðu forðum.

Ecki síður lærdómsríkt fyrir oss er innihald hins seinna bréfs; þótt líka i því finnist einstaka myrkvar. Þó vér ecki með vissu vitum, af hvørjum trúarbragða flokki þeir fölsku og ógudligu kénnendur upprunnir voru, við hvørjum Postulinn hér svo skorinordt varar; þótt vér ei gétum að fullu og öllu skilið þær undarligu meiningar, sem þessir menn höfðu um andanna ríki; vér lærum samt hér að þeckia, hvaðan öll meingan Jesú lærdóms hefur sín upptök, það er, annaðhvort af óþarfa grubli, edur drotnandi vondum girndum. Sá drambsami vill skilia það, sem honum hér á jarðríki ecki er unnt að skilja; og hinn sandsaligi vill slíta það hapt, sem trúarbrøgðinn leggia á girndir hans. Þetta er höfuðþráðurinn i postulans afmálun yfir lyginnar pré-

pheta. Þeir vildu þeckja andanna afð hér ókunna heim, og flæktust i tómum heilabrotum; giørdu nú gis ad því, þeir ecki skilid feingu; þeir æsktu ad hlýdnast gyrndum sínum; og þá þeir nióſnudu ad þau nýu trúarbrøgd, sem byrtust heiminum, bodudu friálsrædi, svo læddust þeir inni Kristí kyrkju, og giørdu helgidóminn siálfann að hæli alflags ósóma.

Þeir lesara minna, sem þeckia nockud til, annadhvørt þessa vitlausa ædis, sem tídkadist á døgum Luthers undir friálsrædis yfirskini, þegar þessi friálsrædisins sanni kénnari tók ad leysa þau gømlu fiøtur hins mannliga anda; edur þeirra ófkapa, sem æfd vóru i hinu óluckuliga landi, sem svo leingi undir upplýsingar og friálsrædis skyni sundurtættist af hamhleipa ómanneskjum (undir Fránkaríkis umbiltíngu); eda þá einúngis minnast þeirra bligdunarlausu spottglósa sem líka undir upplýsíngar og friálsrædis helga nafni, ei fyrir laungu heyrdist á medal vor siálfra — þeir munu skynia, ad vér hiá hinum gamla Postula Pétri, ecki einúngis finnum fyrri tída, helldur líka seinni daga lýsingu. Því eckért nýtt skér undir sólunni. Sú fansaliga manneskja líkist ætíd siálfri sér. Drambsemi og óstjórnsamar gyrndir eru nú, sem fyrr, eginlig uppspretta vantrúar og efunarsýkis, og orsøk til alls spotts móti hegidóm-inum.

Enn eins og Postulinn nú synir oss undirrót vantrúarinnar, so kynnir hann oss líka það einasta medal móti henni. Ádur enn hann i 2 og 3 Kap. kynnir lesurum sínum þær hættur, sem ógnudu þeirra trú, hefir hann i því undangeingna leitast vid ad snúa þeirra hiörtum til Jesu lærdóms, og framsett ástædurnar fyrir trú þeirra. Med því vísar hann oss þann veg, sem vér gánga eigum til fastrar sannfæríngar um vorra helgu trúarbragda guddómliga uppruna. Vér verdum ad þeckia þau, þeckia þau ad fullu, æ betur og betur, þ. e. vér verdum ecki einasta ad þeckia þau, helldur og lifa eptir þeim: þá fyrst fáum vér skinbragd á þeirra dyrmæti; þá fullnægia þau ecki einúngis skinseminnar helldur líka hiartans þörfum, vér liáum þá ei eyru gudløstur- urum, heldur játum med Páli: eg veit á hvørn eg trúi (2 Tim. 1, 12). Sá, sem ei þannig þeckir kristindóminn, hann skiniar ecki hvad kristindómur er; hann er, eins og Postulinn Pétur segir (2 Pet. 1, 9) blindur, eda lykur augunum aptur. Eins og sá blindi ecki gétur dæmt um lit, eda sá heyrnarlausi um tón; svo gétur ecki helldur sá, sem vantar hid ædra skinbragd, dæmt um þau andliáu efni. Þau eru og verda ad vera honum heimska. Hvílíkir skeyta þá ecki heldur um ad heyra rök fyrir trú vorri; þeirra eyru eru einúngis opin fyrir efasemdum, og þeir leita næríngar vantrú sinni i spéfuglanna ritum, sem

kitlar þeirra hégómadyrd, og smiadrar þeirra sandsaligu girndum. En sá, sem einusinni gaumgiæft hefir sannleikans raustu innvortis hiá siálfum sér, og af eigin reynslu lært ad þeckia Jesu lærdóms dyrmæti, hann lætur ecki annara hædni snúa sér frá Kristindóminum; því í sínu egin hiarta hefir hann pant uppá hans sannleika. Frómt metur hann eptir mætti þau rök, sem Postulinn hér framsetur (2 Pet. 1, 16—21) fyrir trú vorri nl. þá yfirnáttúrligu atburdi, sem útmerktu Jesum, og þau spámannligu ord, sem stadfestust vid Jesu lífserni og kiør. Enn mæti hann efasemdum, sem hann ecki getur rádid úr, svo hegdar hann sér í því efni, sem sá, er komist hefir ad raun um tryggd góds vinar. Hann hlustar ecki á baktal um reyndann vin. Og mæti honum eitt hvad, sem honum þykir ei samqvæmt hans vanaligu breitni, misgrunar hann ecki vin sinn um ótrúskap, en heldur ad hann leidist til þessa af þvílíkum ástædum, sem honum eru ókunnigar. Þannig þeinkir sérhver kristinn, sem hefir lært ad þeckia Jesu trúarbragd sem sannann og áreidanligann vin. Hann veit med vissu, ad Jesus ecki hefir kénnt sér ósannindi; og hann kiærir sig ei um, þótt honum mæta kynnu mokkvar, sem eingin enn þá getur útþydt; því hann veit, ad hér lifir hann í trúnni en ecki skoduninni. Þetta er sá einasti vissi vegur, sem Jesus og Postular hans lystu fyrir oss, á hverium allir bædi leikir

og lærdir, komist geta til sannfæríngar um sannleika vorrar heilögu trúar.

Þvílíkum lesara verdur þetta bréf því dýrmætara, sem þad er ritad skömmu fyrir dauda Postulans (2 Pet 1, 13—14). Þetta er þá skilnadarbréf, eins og Páls sídara bréf til Timoth. Og þannig eigum vér þá frá bádum þessum miklu Postulum kiærkomin minnismerki um þeirra slöduglyndi alt til æfiloka. J adalatridinu samhuga í lifinu, voru þeir og samhuga í dauda sínum. Eptir lángar fiærvistir, fundust þeir um sídir í Róm, hvar þeir bádir, sem vér heyrt höfum, innsigludu trú sína og von med sínu blódi.

# Jóhannis fyrsta bréf.

## Inngángur.

Jafnvel þó þetta bréf (eins og þau 2 fylgiandi) ecki beri síns rithöfunds nafn í textanum, svo er oss ljóst, ei alleina af samhljóda vitnisburdi hinnar gömlu kyrkju, ad þad er af Postulanum Jóhannesi; heldur má þad líka ráda af siálfu bréfsins innihaldi, ad þad ecki komid sé frá nockrum ödrum, enn hinum sama Jesú kiærasta lærisveini og vildarvini, sem ritad hefir þad seinasta Evangelium, af þeim fiórum. Því hér finnum vér þann sama hiartnæma tón, sömu andans blídu, og ad mestu leiti þá háleitu innihaldsríku talshætti um Jesum,

sem vér að undan höfum séð að eiga heima í Jóhannis Evangelio.

Að framan er gétið um það sem hin evangeliska saga kénnir oss um lífssögu þessa Postula, og hans sérdeilisligu sameiníngu við sinn guðdómliga kénnara, að so miklu leiti sem þurfa þókti. Í Post. G. finnum vér, samqvæmt Lucæ tilgángi, fáar frásagnir um Jóhannes, þareð Lucas einkum fráskyrdi Postulunum Pétri og Páli. Í seinasta sinni er hans gétið hér (8, 14 f.), þá hann ásamt Pétri fór til Samaríu, eptir Postulanna ályktan, til að fullenda það, sem Evangelistin Philippus hafði byrjað. Hvað hann síðan í mörg ár hefir útrétt fyrir Jesú ríki — og að það ei var lítið, gétum vér ráðið af hans inniliga kjærleika til Jesu, og hans mikla áliti, þar hann var einn af hyrkjunnar máttarstólpum (Gal. 2) — um það gétur sú áreiðanliga saga ekki. Enn þannig hefir géngið fleiri Postulum drottins; þeirra þrekvirki standa oss fyrir sjónum: en hvað hvör þeirra framqvæmt hefir, þarum vitum vér einasta lítið. En þeir ersiðudu ekki heldur til að reisa sjálfum sér æruslittur á jörðu. Einasta málefni þeirra meistara, en ekki sjálfra þeirra, var þeim annt um. Og eins fúsir sem vér fylgja vilium þessum vorum velgiörðamönnum á þeirra mæðusömu reisu, til að sjá, hvað vér þakka egum serhvörium þeirra; svo meigum vér þó játa, að þessi þögn áhrærandi sjálfa þá (sem einasta ædri skyldur

neyddu Páll til á stundum að slíta) er oss ecki síður lærdómsríkt, enn sú fiølyrdtasta frásaga hefdi gétað verið.

Einasta svo mikið vita menn um ofanverða æfi Postulans Jóhannis, að hann dvaldist í Ephesusborg, og var í mørg ár tilsiónarmaður allmargra safnaða í litlu Asíu. Þar ritaði hann guðspiall sitt; og þessum søfnuðum hefir hann að líkindum ætlað þetta sitt fyrsta bréf.

Eins og Postularnir Páll og Pétur svo opt í bréfum sínum urðu að vara lesarana við følskum, Jesu kénníngu fraleitum lærdómum er smeigst høfðu inn í søfnuðinn: þannig hefir líka Jóhannis skrifað bréf þetta, eins og inníhaldið vottar, til að staðfesta hinn guddómliga sannleika gégn lygegiørnum falsspámønnum. En ecki má oss undarligt þykia, að nær vér samanberum bréf Postula þessara, að oss synast þeir villudómar, hvørium þeir mótsegia, að minsta kosti að mørgum sérligum einkénnum, svo frábreyttir, og það jafnvel þá þeir skrifa sømu søfnuðum, eður til sømu héraða. Því að vísu er það oss kunnugt, að sá rétti vegur er einn en afvegur margur. Sannleikurinn er ávalt einfaldur og sjálfum sér líkur; en lygin bregður sér og verður að bregða sér í mørg og margvislig líki og gérfi. Því þá menn vikia afvegis frá sannleikans einustu uppsprettu, Guði, og hlíðast á draumóra sína um hið ósýniliga og eylífa, þá uppkoma eins margar

meiníngar og ſinni ſem menn eru, ſem giørdſt geta forgaungumenn flokka. Svoleidis høſſt á þeim auſtœgu løndum flokkur hrokafullra oſ vitrínga, er hefdi margar undarligar meiníngar, af hvorium eg vil ad eins géta þeirra er upplýſa bréf þetta. J ſtad þeſs ad júdaſinnadir kriſtnir, vid hvorium Páll allvída i bréfum ſínum varar, ofvirdtu Móſis løgmál; þá møttu þeſsir bœdi Móſis og ſpámennina ad vettugi, já, heldu þeirri meinníng framm, ad ſá Gud, er Móſis og ſpámennirnir bodudu, nefnilega heimſins ſkapari, ei væri ſá ſanni Gud, heldur andi, affallinn frá Gudi, er ſkapad hefdi heiminn. Þeſsvegna gæti Jeſus, hvørs játendur þeir þó nefnaſt vildu, helldur ekki verid ſá Kriſtur, ſem fyrirheitinn væri i hinu G. T. Þeir ſøgdu hann verid hefdi einber manneſkia, og einn ædri andi, af Gudi ſendur, hefdi ſameinad ſig honum i ſkýrníni, og aptur yfirgéfid hann i daudanum. Sumir þóttuſt og vita, ad Jeſus, hvørlùm þeſsi vegligri Andi var ſameinadur, hefdi eingann veruligann mannligann líkama haft, helldur ad hans jardneſka opinberan, hefdi verid ein tóm miſsýníng. Þeir héldu því, Jeſus einúngis væri kominn til ad frelſa mannkynid med ſínum lærdómi, en ekki jafnframt med ſínum dauda fyrir ſyndir vorar.

Ad þeſsum villum lýtur án efá, hvad Jóhannes ſegir um Antikriſta (ſ. 1 Joh. 2, 18) (Kriſts mótſtødumenn) ſem neitudu því: "ad

Jesus væri Kristur" (2, 22), "að hann væri Guðs son" (4, 15. 5, 5), "að hann væri opinberaður í holdinu" (4, 2—3) þ. e. sem sannur maður, og sem þá "afneitudu bæði föður og syni" (2, 22). Gegn þessum villum sannar Postulinn þann, þeim gagnstæða sannleika, samt þenna 5, 6 "að Jesus ecki einasta í skírninni heldur og einnin í dauðanum, hefði sannað sig Krist, Guðs son að vera."

Og þareð nú þvílíkar villukénníngar hlutu að hafa skaðligustu verkan á hið kristiliga sinnislag og sá framgeysandi flokkadráttur varð að veikia innbyrðis elsku hinna kristnu, þessvegna sameinar Postulinn ætíð aðvörunum sínum við villukénnurum þær hiartnæmustu uppörfanir til flecklauss og heilags lifernis og til bróðurligs kiærleika, sem grundvallaður er á kiærleikanum til Guðs og Krists. En géti annars lesarinn skynjað þá liúfmannligu einfeldni, er Jesu ræður i Joh. guðspiallabók með sér bera, þá mun hann og líka skilið fá bréf þetta frá nefndum krists ástfólgna lærisveini; því i hvorutveggiu hliómá eins fagurliga sannleikans og kiærleikans skiæru raddir fyrir eyrum vorum. Og með því að Joh. talar til sinna lesara sem faðir til barna sinna, þá skeytir hann ei um viðhafnarfullan né konstugan ræðumáta heldur framsetur áminníngar og aðvaranir sínar eins og þær flutu af hiarta framm, og ítrekar optsinnis það sem hann vildi sérílagi innprenta börnum sínum. Hvör sem les bréfið

með frómu og barnligu hugarfari, mun komast að raun um, að mestur hluti þess er auðskilinn; en til að útskíra þá staði, er sumum mástó sérslagi þykia nokkuð oliósir, vil eg að eins í stuttu máli framsetia höfuð-innihald bréssins.

## Innihald.

Til að efla hiá lesurum sínum trúna á Jesum, minnir Postulinn þá fyrst á, að það sem hann og hans meðpostular hefðu þeim kunngjört um þennan höfund þeirra sáluhiálpar, það hefðu þeir siálfir með egin skilníngarvitum sannfærst um (1, 1—4). Grundvallar sannleiki þess lærdóms, er þeir kénnt höfðu, væri sá, að Guð, sem alvís og heilög vera, einasta gæti í sannleika dyrkast af þeim, sem leituðust við að líkjast hönum i vísdómi og heilagleika. Að vísu væru allir menn syndarar; en þeir hreinskilnu játuðu syndir sínar fyrir Guði, og gætu því án víls og vafa huggað sig við Jesú friðþægíngu, sem öllum væri ætluð (1, 5—10. 2, 1—2). Sú rétta þekkíng á Guði væri sonarligri hlyðni við hann samfara og hvorttveggi væri einmiðt sameining kristinna með Guði (v. 3 – 6). Það væri einum kristnu engin nylunda, er Postulinn hér kénndi: en nytt mætti það þó að vísu kalla, að so mikiu leiti sem heimurinn so lengi hefði innbyrlað sér, að han gæti jafn dyrkað Guð og iðkað lesti og mann hatur. Fyrir kristindómsins ljósi mætti nú smamsaman myrku:

þetta hverfa og ryma, er kénndi, ad einasta sá dyrkadi Gud i sannleika, er elskadi sinn náúnga, en sá sem hatadi sinn náúnga, þekti alls ecke Gud (v. 7—11).

Allir sannkristnir *) (hverja Postulinn til ad giøra ord sin því ístlígri, ávarpar eptir mismunandi aldri og framförum þeirra i kristindóminum) ættu því ad hafa miklu ædra takmark fyrir augum, enn jardneskt og skilníngarvitunum gédþeckt efni. Þeir ættu ecki festa hiartad vid þau; því þá elskudu þeir ecki Gud, og alt jardneskt og hvad skilníngarvitinn fysast á væri forgengiligt; en alleina fullsæla sannra gudsdyrkenda væri eylíf (v. 12—17).

Postulinn varar nú lesara sína vid þeim (í inngánginum umgétna) antikristi, sem i seinustu tídum, (heimsins sídstu öld) samqvæmt Jesu eginn spádómi, koma mundi, og hvørs fyrirrennarar nú þegar syndu sig. Þessir hefdu látist kristnir vera, en hefdu þó aldrei verid það af hiarta. Fyrir þvílíkum falsspámønnum mundu þeir sannkristnu vera óhulltir, ef þeir héldu fast vid Jesu og Postulanna kénningar, er þeim frá ondverdu hefdu bodadar verid; því þá heldu þeir i verkun þessara kénnínga á hiortum sínum (smurníng hins

*) Þegar hann annars so opt ítrekar þau ord: "eg skrifa" — "eg hefi skrifad," þá mun hann ad líkíndum meina: ad hann ad eins ítreki, á ny innpreuti þad sem hann ádur hafdi skrifad i sinni gudspiallabók.

heilaga anda), óbrygdula rækfemd fyrir sannleik-anum, og þann prófstein, hvar á þeir þeckt gætu, lygi frá sannleika. Þeir ættu þessvegna að vera Krist og hans kénníngu trúir, svo þeir áffdann ófkélfdir birtast þyrdu fyrir hans dómstóli (v. 18 —28).

Postulinn hafdi sagt, að smurníngin (sú verkun Jesú kénnínga er vér siálfir formerkium) giördi alla sannkristna óhulta fyrir villukénnurum. Hann afmálar nú hugarfar sannkristinna, með þeim tveim adaleinkénnum: viðbióð við öllu óretti læti og synd, og sannri mannelsku. Sá sann-kristni lŷkist Gudi, sem barnið födurnum, í rétt-læti (elsku til sannleika og réttinda) og þessvegna verður opt misþekktur af heiminum, sem ei þekkir Gud; hann gledur sig við þá von, að hann í ødru lífi verda muni Gudi líkari og þeckia hann betur, kappkostar þessvegna ætíð að lŷkiast hon-um meir og meir i heilagleik; hann syndgar al-drei (af ásetníngi); því Jesus er kominn til að burttaka syndina (friðþægia syndarana við Gud og helga þá). Þær manneskiur sem búa yfir gagnstædu hugarfari væru diøfulsins børn. Hið annað kénniteikn þeirra sannkristnu væri innbyrdis mann elska. Þetta væri það Jesu adal bodord, er hann fyrirlagdi sínum áhángendum (Joh. 31, 35). Med bródurkiærleikanum ættu þeir að syna, að þeir væru ecki af Cains illu ætt, væru ecki af

þessum vonda heimi; helldur væru uppvaktir til ens nýa lífs. Því mannhatur er andligur dauði, og sá haturfulli er mordíngi. En kiærleiki hins sannkristna er framqvæmdarsamur, eins og Jesu kiærleiki var. Byrie oss, eptir hans dæmi, ad láta lífid fyrir brædur vora, hvad er þá vor kiærleiki, ef vér ecki med eignum vorum viljum hiálpa vorum naudstadda bródur? (2, 29. 3, 1—18).

Hafandi þvílíkt kiærleiksríkt hiartaþel vid Gud og náúngann, gétum vér hughreyst oss fyrir Gudi. Því þótt samvitskann bregdi oss um vor afbrot, þá er Gud stærri enn vort hiarta (þeckir oss betur enn siálfir vér, og sér vora fromlyndi) og verdi oss svo ágengt, ad hiarta vort ecki fremur fordæmi oss, svo hefum vér hugdiörfúng fyrir Gudi, og ödlumst alt, er vér bidium hann um; því vér hlýdnumst honum þá, (og bidium ecki annars en þess sem honum er þóknanligt) o. s. frv. (v. 19--24).

Postulinn tekur aptur lesurum sínum vara fyrir falsspámønnum og giörir grein á þeim einkénnum, á hvöríum þeir skyldu þeckia þá i sannleika af Gudi uppfrædda frá þeim er lúgandi létust vera þad, (siá inngánginn) (4, 1—3). Þótt nú falsspámenn væru allmargir, mundu þeir sannkristnu þó, upplýstir af Gudi, sigur yfir þeim vinna, því sannleikans andi, af hvöríum þeir stiórnudust, væri yfirsterkari anda lyginnar, er drottnádi i heiminum. Lundlægnir á heims vísu

boðuðu þeſsir falsſpámenn alleina iarðneſk og hjegómlig viſindi og eins ſinnaðir giörðu góðan róm að máli þeirra. Poſtulunum, er Guð hefði uppfrædt, léðu alleina guðliga ſinnaðir eyru v. ſ. frv. (4—6 v.)

Jóhannes upporfar á ny ena kriſtnu til að elſka hvörir aðra innbyrðis, ſem born eins foðurs, hvörs eðli væri einber kiærleiki, og ſem með óræküſtu rökſemdum ſynt hefir, hve miög hann elſkaði oſs, (þótt vér ei elſkuðum hann) þá hann útgaf ſinn eingétna ſon í dauðan fyrir oſs; og bæri það þá ei Kriſtnum að elſkaſt innbyrðis, ſem bræður áſamt endurleyſtir? (v. 7—11). Vér gætum ekki Guð ſéð; og þó værum vér ſannfróðir um vora ſameining með honum, nær vér elſkum vora meðbræður; því þá verkar hans andi í oſs (v. 12. 13.) En þótt ei fengiu menn Guð augum litið, þá hefðu þó Poſtularnir (ſem ſjónarvottar Jeſu lifernis, dauða og uppriſu) ſéð það, að Guð hafði útſendt ſinn ſon heiminum til frelſis. Sá, ſem nú trúir þeſsum Poſtulanna vitnisburði, og viðurkénnir fyrir heiminum, að Jeſus ſé Guðs ſon, hann væri Guði ſameinaður. Og menn mættu reiða ſig uppá Poſtulanna vitnisburð, því þeir töluðu af eigin reynſlu og ſannfæríngu um Guðs elſku til vor v. ſ. frv (v. 12—16). Þá væri elſkan til Guðs fullþroſka orðin, nær ſá kriſtni gæti þeinkt um þann komandi

dómara, án skélfíngar, með því hann vissi með siálfum sér að hann hafði samið sig að háttum Krists og dæmi. Otti á ekki skyldt við hinn fölsk-valausa kiærleika, því i óttanum er pína falin, en hún er fiarstæð kiærleikans edli En með sonnum kiærleika til Guðs er mannelska náqvæmliga sameinuð v. s. frv. (v. 17–21).

Sérhver, sem trúir (nl. af hiarta) að Jesus er Messias, (eða, sem hér er eitt og hið sama, Guðs son), hann er Guðs barn; og sá, sem elsk-ar föðurinn, elskar einnin soninn; eins og það er líka óbrygdult merki uppá, að vér elskum manneskiur, sem Guðs börn, nær vér elskum Guð sem föður, og hlýðum hans boðum. Og þau eru ei torveld Guðs sonnu börnum, er með fulltíngi sinnar trúar yfirvinna heimsins freistingar; því einasta sá, sem trúir, að Jesus sé Guðs son, yfir-vinnur heiminn (5. 1–5). Og það væri hann, og það hafi hann synt sig að vera bædi i skyrn-inni, og i dauðanum; ekki einasta i skírninni (eins og falsspámenn kénndu), heldur og líka i sínum dauða; og að Jésus sé Guðs son það vottar andi Drottins; (bæði með kraptaverkum, og Jesu kénnínga verkunum á hiörtum trúaðra) því þessi andi er sannleikinn siálfur. Vér höfum þá þriá votta: sannleikans anda, Jesu skyrn (og Guðs vitnisburð að því sinni) og Jesu dauða (og hön-um fylgiandi upprisu hans) Þar vér optsinnis plög-um að trúa vitnisburði mannanna, ber oss þá ei að

trúa Guðs vitnisburði? Sá, sem í sannleika trúir á Guðs son, ber þennan vitnisburð í sínu hiarta; sá vantrúaði þarámót værir Guð lygi o. s. frv. (v. 6—10). Það veruliga innihald þessa Guðs vitnisburðar er, að Guð hefir géfið oss hið eylífa líf (sem nl. strax byriar hér, en giörist dýrðligra og viðvarir í eylífðinni), og þetta líf er í hans syni (er innifalið í hans kénníngu og friðþægíngu). Sá sem hefir soninn (trúir á hann sem kénnara og friðþægiara) hefir lífið og s. frv. (v. 11—13).

Avöxtur þánkafars enna trúuðu er diörfúngarfullt trúnaðartraust á Guði í bæninni, grundvallað á þeirri fullvíssu, að hann, sem faðir, bænheyri sín börn, sem biðia samqvæmt hans vilia, og því géfur þeim, er þau æskia. Hafi t. d. einhvör Kristinn drygt synd, er ei, eptir sekt hennar að reikna (eins og Júdasar og Pharisæanna) leiddi til andligs dauða eður betrunarleysis, (og máské líka til, eptir lands lögum, áqveðins dauða straffs), og einhvör meðkristinn biður fyrir hönum; svo mun Guð heyra hans fyrirbæn, og frelsa syndarann; en væri því á gagnstæðan hátt varið, mætti eingin fyrirbæn giörast. Að vísu er sérhvör yfirtroðsla Guðs boðorða synd; en ekki leiddi sérhvör synd dauðann eptir sig (v. 14—17).

Það væri öllum Guðs börnum sameginligt, að þau væri sér meðvitandi um að forðast allar

syndir, og ad þau þessvegna teldust i flokki Guds barna, medan sú vantrúada verøld væri giørsamliga nidursokkin i hid vonda; þau væru fullvifs um, ad þeirra trú og von bygdust ei, því þau reyda sig ecki uppá einbera manneskiu, helldur Guds son o. s. frv.

Skíríngargreinir yfir 1ta bréf Jóh.

Nær hinu andligasinnadi lesari rifiar upp fyrir sér skíríngargreinir Joh. gudspiallabókar, svo vona eg, ad hann þar finna muni nægiligan leidarvísir til ad skilia rétta þýdíng þeirra afbrugdnu ordatiltækia er bædi verda fyrir í tédri bók og bréfi þessu, t. d. ad sá kristni trúmadur sé í sameiníngu med Gudi, og verdi í honum, eins og hann í sínum, rási ecki í myrkrinu, helldur umgángist í liósinu, elski ecki heiminn, yfirvinni heiminn o. s. fr. Þessi ordatiltæki hafdi Johannes numid af sínum lærisødur og brúkar þau í somu merkíngu, sem hann; og þó þessi ordatiltæki séu upprunninn af hiartgróinni tilsinníngu, yfirtaki mikid, og alleina af trúudu hiartaþeli verdi metinn sem ber, svo hefir þó lærisveinninn í bréfinu, eins og lærifadirinn í gudspiallabókinni hagad svo ordum, ad gaumgiæfinn og hreinlyndur lesari eingannvegin géti leidst til hérvilluligra hugminda um þau. Hann segir med berum ordum: "enginn hefir nockurn tíma Gud séd" (1 Joh. 4, 12), og med því varar oss vid hérvillulegri von um fyrí-

burdi og opinberanir. Hann kénnir, ad vér einasta med heilagleik og kjærleika gétum komist í samband med Gudi, og hann lýsir þessu sambandi med Gudi og Christ med þessum skilianligri ordatiltækium: ad þeckia Gud, ad elska hann og son hans, ad játa sinar yfirsiónir fyrir Gudi, ad trúa á Krist sem vorn kénnara og talsmann hiá Gudi; halda hans bod, hreinsa sig siálfann, sem hann er hreinn, elska sína med-brædur, sem samfedra systkyn, vita sig elskadann af Gudi, hafa ecki þrældómsótta fyrir hönum, bidia hann med einurd og trausti, eins og barnid födr sinn, og glediast af þeirri sáluhiálp, sem hann hefir oss fyrirheitid.

Hvervetna byst Joh. vid hreinskilnu hugarfari hiá sínum lesurum: hann víkur hvergi rædu sinni, sem Postulinn Jacob óstaldan, til hræsnara, né afvegaleidara, en varar einlæga kristna vid svikafullum leidtogum og falskénnurum. Vér gétum því ecki samanborid þvílíka stadi hiá Johannes, sem þessa: "sérhver sá andi, sem vidurkénnir Jesum Krist ad vera opinberadann i holdinu, er af Gudi (1 Joh. 4, 2) "sérhver sem trúir, ad Jesus er Messias, er fæddur af Gudi" vid Post. Jacobs rædu um trúna 2, 17 fylg. Hinn sídstnefndi Postuli á, sem ádur er sagt, tal vid hræsnara, er rángsnéru enni réttu hugmind um trúna á Krist og hann vard því í rædu sinni ad taka ordid trú, i sömu merkíngu og þeir. Jo-

hannes þarámót þeckir eins ógiørla og Páll, hina dauðu trú. Hiá hønum skiliast þau orðatiltæki: "að trúa á Jesum, sem Mesías, sem Guðs son", "að játa Jesum Christum (Guðs son)", "að vera opinberaður í holdinu", "að þeckia Guð" o. s. fr. eptir þeirra sønnu og fullu þýðíngu, svo að þeckíngin, trúin, játníngin hverki sé hiegómlig, avaxtarlaus og hræsnisfull, helldur sannleikur, líf og kraptur, er býr i hiartanu, og sýnir sig i verkunum. Og óskandi væri, að menn aldrei tæki þessi orð i annari meiníngu. Þá yrði hverki hin falska uppslýsíng, dauða trú, ne eintóma útvortis játníng talsefni manna. En eigi þetta að vera, má giøra ráð fyrir sanninda kiærleika og þeirri einlægni hiá Jesu nafns játendum, að hugur fylgi máli. Og með því að reynslan sýnir, að svo optsinnis bregður út af því í heiminum, þá er þat einnin allvel tilfallið, að finna má í Jacobs bréfi diarfs orða aðvørun við hinni dauðu trú og hræsnisfullu játníngu.

Þá Johannes allvíða i bréfinu segir: "að Guðs sønnu børn drýgi ei synd, syndgi ecki" og þarámóti, 1, 8. 10 segir að þeim skiátlist miøg, ja, að þeir liúgi, er segi, "að þeir ecki hafi synd, hafi ecki syndgað": þá skynium vér léttiliga (eins og í ágripi innihaldsins gétið er), að hann á fyrra staðnum talar um vitanlegar ásetníngssyndir, er alls ecki eiga skyldt við Kristindóminn; á hinum stødunum þarámót meinar hann breiskleika.

syndir, ysirsjónir, er ávalt loda vid breiskleika mannligrar náttúru, hvërjar sérhvør frómlyndr kristinn vidurkénnir fyrir Gudi og æ meir og meir afleggur.

## Jóhannis 2 og 3 bréf.

### Inngángur.

Þessi 2 bréf eru skrifud einstøkum medlimum safnadar nokkurs, hvørn Postulinn brádum ætli adi ad heimsækia, og er því þess fáordari

Þad 2ad bréf er skrifad kristiligu ættfólki, nefnl. konu nokkurri, er líkliga hét Kyria (er annars sidvanaliga þydir frú edr vegskona) ásamt hennar børnum, og þad i sama tilgángi, sem hid 1ta, nl. til ad hvetia þau til kiærleika, vara þau vid ginníngum falskénnara og vid umgengni þvílikra.

Hid 3 bréf er ritad manni nockrum, Cajus ad nafni, líkliga lærisveini Postulans. Þad er bréfsins tilgángur, ad fela nockra reisandi kénnara, og þeirra á medal einn sérilagi, er Demetrius hét, Cajus á hendur til umønnunar. Og med því ad kénnarar þessir bodudu heidíngium kristna trú launalaust, vóru þeir hiálparþurfar af kristnum søfnudum. Og til þess þótti Postulanum því meiri naudsyn tilqveda ad mæla med þeim, sem illur medlimur nockur þess safnadar, í hvørium Cajus var, Diotrephes ad nafni, mót-

stiðumaður Postulans, og sem þó hafist hafði til álits og metorða, kostaði kapps að firra téða kénnara fulltíngi safnaðarins.

Í upphafi beggia þessara bréfa kallar Postulinn sig hinn elðsta eður Öldúng, sem siðvanaliga þýðir kénnara og forstöðumann nockurs safnaðar. En á þessum stað þýðir það líkliga þann elðsta Postula, já máské jafnvel þann elðsta kristinn, með því Jóhannes, sem kunnigt er, lifði lengst af Postulunum, hverjir fyrstir manna vóru Jesu nafns játendur.

### Innihald hins annars bréfs.

Postulinn heilsar Kyriu og börnum hennar, er væru hönum og öllum sannkristnum hiartkjær, vegna þeirra sameginligu trúar, þau játuðu, og ætíð hefðu ásett sér að játa (v. 1—3). Hann vottar sinn fögnuð yfir kristiligu framferði hennar barna, og upphvetur hana til stöðugrar eptirbreitnis þess boðorðs, sem ecki leingur væri henni nein nýlunda, helldur frá upphafi alkunnigt, nl. boðorðið um hinn kristiliga kjærleika, sem væri höfuð inntak allra Drottins boðorða (v 4—6). Hún og born hennar skyldu gialda varhuga við þeim falskénnurum, sem neytuðu, að Guðs son hefði giörst maður, að þau ei missa skyldu ávexti sinnar trúar. Sérhvör, sem i trú og lifnaði afneytaði Kristi kénníngu væri ecki í sameiníngu við Guð; einasta sá, sem i hvörutveggiu fylgði

henni, væri sameinaður fødur og syni. Þeim bæri ei að umgángast falskénnara, að þau ei skyldu synast að samsinna þeirra vondu breytni o. s. frv.

## Innihalld hins 3 bréfs.

Eptir heilsunina, óskar Postulinn Cajusi, að alt farnadist hønum svo vel, sem hvað sáluna snertir; því að hann í því tilliti var sannur giæfumaðr vissi Joh. af glediligri fregn, er hann fengið hafði um hans kristiliga framferði; og ei gat hann glediligri fréttir fengið um sín (andligu) børn enn þvílíkar (v. 1—4). Hann hrósar Cajusar géstrisni við medkristna, einkum reisandi kénnara, hvørjir ei heldur hefðu látið það niðri liggia hiá søfnuðinum í Ephesus. Þvílíka góðvilld bæri Cajusi frampegis að auðsyna þessum kénnurum, er án ábatavonar erfiðuðu fyrir útbreiðslu Jesu nafns. Með því að liðsinna þeim, styrktu menn sannleikans málefni (v. 5—8).

Postulin hafði skrisliga beðið søfnuðinn fyrir þessa kénnara, en Diotrephes, er medlimur var sama safnaðar og þótti fyrir øðrum að málasylgi, mótstóð Postulanum og hindraði á allan hátt móttøku kénnaranna. Cajusi bæri því að forðast þessa vonda manns dæmi, og stunda velgjørða semi o. s. fr. (v. 9—11). Einkum biður Postulinn hann fyrir Demetrius (líkliga einn af tédum

kénnurum, og máské bréfberarann), sem hann, er fengið hefði hinn besta vitnisburð af öllum, já af sannleikanum sjálfum (nl. egin breitni), hvörn vitnisburð Postulinn einnin stadfestir o. s. fr.

## Skýríngargreinir 2 og 3 Jóh. bréfs.

Svo stutt sem annars þessi bréf eru, hljóta þau samt að vera oss kjær, ecki einasta sem minnismerki frá postulanna öld, helldur og fyrir sakir þeirra lærdómsríka innihalds. Vér endurþeckium hér ei alleina þann sama bródurkjærleikans anda, heldur og líka þá sömu þrautgóðu umhyggju fyrir viðhaldi Jesu óspiölludu kénníngu, og í hinu fyrsta bréfi. Sumir hafa meint að Jóhannes ei hafi vægur verið við þá er fóru villir vegar í trúar-meiníngum sínum, edur sem menn kalla, tolerant (þ. e. umburdarlyndur við þá er höfðu adrar meiníngar), þareð hann 2 Joh. 10 varar Kyriu við, að hýsa villukénnendur, heilsa þeim edur segia þá velkomna. En fyrst megum vér athuga að ordatiltækið: "að taka til gystíngar og heilsa edur segia velkomna" þýdir í bibliunnar málbragdi: að veita einum viðtökur sem vini, að binda vináttu við einn. En þá vér adgiætum, að þeir, sem hér er getið, vóru Antikristar, mótstödumenn Krists, samlíkir þeim er Joh. i sínu 1ta bréfi lýsir fyrir oss sem lyginnar spámönnum, er bædi i kénníngu og framferdi viku frá Jesu lærdómi: þá er það audsært, að

Joh. ei kénnir hér annad, en hvad Guds ord hvervetna bydur, ad vér umflya skulum afvegaleidara, fordast umgeingni og mek vid þá. Sannarligt umburdarlyndi vid þá villuráfandi hefir einginn betur kénnt oss enn Jesús og hans Postular, fyrir hveriu vér hér ad framan høfum séd svo mørg røk t. d. i Jesu eptirlikingum um hveitid og illgresid, i Páls sendibréfi til Rómv. 14 og 15 kapp. og vída annarstadar. Pad sama kénnir og Johannes; því hann bydur oss ad bidia fyrir þeim, sem ódirdíngar hendi (1 Joh. 5, 16), og einginn Postulanna innprentar oss kroptugar enn hann kjærleikann, sem er ekta umburdarlyndis sanna uppspretta. En til er og líka ókekta umburdarlyndi, sem ecki er af kjærleikanum helldur af hálfvelgiu fyri sannleikanum. Vid þvílíku umburdarlyndi varar Joh. oss hér, vid því er ad vísu, einkum á vorum døgumþorf á adværunum. Kiærleika egum vér øllum ad syna — svo kénnir Johannes; en sú eginliga svo kalli ada vinátta, sem er bygd á líku lundarlagi, getur ei stadist milli Jesu tilbidiara og hans forakktenda, eins litid og þad, eptir sem Páll qvedur ad ordi (2 Kor. 6, 14. 15) getur verid samfélag milli liόss og myrkurs, Krists og Belials.

Pad má oss ei øfgar þykia, ad vér i hinu 3 bréfi lesum um einn ákafan mótstødumann Postulans, sem ecki einúngis taldist á medal kristins safnadar medlima, heldur og einnin þótti þar málsmetandi,

Í Páls bréfum höfum vér séð líkt dæmi. Og líkliga hefir þessi Diótrephes annaðhvört verið af sama bergi brotinn nl. júdadóm rækiandi kénnari, er hélt Mósis lögum fast fram til eptirbreytnis, eður einn af þeim lyginnar spámönnum sem Joh. svo einsarðliga varar við; og hvört helldur verið hefir, verdur oss skilianlig bæði heipt hans við Postulann, sem og þau mót hann var í hiá þeim er hönum vóru líkir að skapsmunum.

## Júdasar-Bréf.

### Inngángur.

Rithöfundr þessa bréfs er postulinn Júdas, að auknafni Thaddæus og Lebbæus, og eptir hans eigin sögn, bróðir Jacobs postula, ens yngra, frá hvørs hendi vér einnin höfum bréf. Júdas var þá sonur Alphæi og Maríu, er var systir móður Jesu og kallast því, (Math. 13, 15) eins og Jacob, sökum þessarar frændsemis við Jesu, bróðir Drottins.

Eins skortir oss áreiðanligar sögur um hvað og hvar Júdas postuli erfiðað hafi að útbreiðslu krist kénnínga fyrir utan takmörk Júdalands, sem um velflestra hinna postulanna atburði i því efni. Ei er það síður óliósi, nær og hvar bréf þetta sé ritað, eða hvørium lesurum það i öndverðu hafi ætlað verið; en allsannindaligar þykia rökkséndir þær, er finnast i frasögnum enna gömlu

sagnaskrifara, fyrir því, að téður postuli það ritað hafi.

Þá vér samanberum bréf þetta við 2ann kapítula síðara Péturs bréfs, finnum vér svo líkt innihald og svo áþekk orðatiltæki i hvorutveggju, að af því þykir auðsært vera, að postular þessir hafi þeckt og brukað hvor annars ritgiörð, og er það meining flestra lærðra manna, að Júdas hafi seinna ritað og hafi haft Péturs bréf fyrir sér; með því að Pétur fremur sem í spádóms anda talar um ena ógudligu og fölsku kénnendur, við hverium þeir báðir aðvara, sem þá er koma muni, en Júdas þarámóti sem þá, sem komnir séu, og hann synist þaradauki vísa til Péturs orða (samanber 17 og 18 við 2 Pet. 3, 3) sem til spádóms, er uppfyltist.

Samt sem áður, hvornin sem þessu er varið, því einnin sú meining, að Júdasar bréf sé eldra, vantar ei heldur aslæður, er það þó auðsært, að samur er tilgángur, og mesti hluti innihalds beggia bréfanna; má það því hér heimfærast, sem áður er sagt i inngánginum til síðara bréfs Peturs. Þess fáorðari gétum vér því verið i at rekia inntak Judæ bréfs.

## Innihald.

Þá postulinn heilsandi hefir ávarpað lesendur sína, segir hann strax frá augnamiði bréfsins. Mieg hugsiúkr yfir þeirra sameiginliga frelsi,

mátti hann nefnil. hvetia þá til ad stríða fyrir trú sína; med því að í kristna söfnudi höfdu óguðligir menn, (er fyrir laungu kiørnir voru til að líða hegníng af Gudi) er breyttu kristindómi til vammafrædis og afneitudu bædi Gudi og Krist (v. 1—4). Til advørunar við vantrú leidir nú postulinn dæmi til, tekin af enum þvermódsku fulla Israels lyd, er dó í eydimørkunni, — þeim føllnu einglum, — Sodóma, Gomóra og stødum er í grend láu (v. 5—7). Við þvílík dæmi uppá Guds hegníngardóma, vøknudu ei ad heldur gudsleysíngiar þessir, er hourfu til óeyrinda og giørdu gis að hinum háleitu øndum (sjá inngáng. til Pet. 2 br.) jafnvel þótt júdar ei gætu leidt rok til af søgum sínum um andana, að einufinni þeir dyrdligustu andar spottudu þá føllnu anda, heldur fólu Gudi þeirra straff á hendur. Þessir þarámóti giørdu andanna ríki athlæi, er þeir ei þektu, og ófurseldu sig med því, er þeir þektu, med líkømum sínum, villi-dyraligri ósiðæki, en líkar mundu málalyktir þeirra og Cains Bileams og ens uppreistarsama Core, forgaungumanna þeirra (8, 11). Med ymsum líkíngum lysir postulinn hinum gudlausu kénnurum, kallar þá hneixlanliga gésti (ásteytíngar-steina) við kristinna manna kiærleiksmáltíðir, skrumara, fordiarfaða og forblindaða, er hrósudu sér af eiginn skømmum og hverium straffið mundi óumflyanligt (12 13) hvad Enock hafdi fyrirsagt enum fyrstu

veraldar gudleysíngium, mundi einnin þeim i koll koma, er sömuleidis væru uppreisnarmenn gégn Gudi (15—16). Þeir ennþá óspilltu kristnu skyldu láta sér þær advaranir i hug renna er Jesu postular hefdu géfid þeim vid komandi tída spéfuglum og andvaraleysíngium. Amedan þvílíkir fiarlægdust meir og meir Jesu kénníngar, alleina sólgnir i villidyrligar tilhneigíngar, og snaudir af tilfinníng og greind á andligum efnum, skyldu kristnir menn halda þess fastar vid trú sína og styrkia sig med bæn o. s. frv. (v. 17—21). Þó mættu þeir ei heldur strax örvænta frelsunar enna villuráfandi, en kosta fremur kapps um ad frelsa svo marga, er þeir giætu, og aldrei láta vondra dæmi á sig vinna; ad lyktum endast bréfid med lofgiörd til Guds.

## Skíríngargreinir.

Hvörnin best meigi færa sér inntak bréfs þessa i nyt, er ádur umgétid i skíríngargreinum sídara Péturs bréfs. Annars er þad kristnum, er leita uppbyggíngar i bibliunni, þarflaust, ad brióta heilan yfir þeim, einnin bókvissum, þungskilda stad um erkiengilsins Mikaels deilu vid diöfulinn um Mósis lík, er eptir Guds vilia skyldi heimugliga jardast. Verum vér ad eins lotníngu fyrir bibliunnar verulíga og öllum skilianliga innihaldi; — og þad má sérhvör, er hefir tilfinníng fyrir sann-

leikaaum — munnum vér ei láta þvílíka mokkva fæla frá lestri hennar. Eins og Páll i ymsum af bréfum sínum (siá inngáng. til bréf. til Colofs. og til Tim.) hefir varad ofs vid ónytum heila brotum og hnysni um andanna ofs öllum hér ókunnu heima, svoleidis áminnir bædi Petur og Judas á þeim stad, sem um er rædt, ad vér varast skulum ad spottast ad því, er vér ei skilium. Fylgium vér bádum þessum advörunum, þá munu hvörki hiátrænulig heilabrot né vantrú ofs ad meini verda. Vér vanbrúkum þá ei heldur fráfagnir bibliunnar um andana til ad ala hiátrúarfullar grillur um fyrirburdi og opinberanir; en vér gieldum varhuga vid ad kalla þad athlæiligt, sem er óskilianligt. Þvílíka stadi i ritníngunni sætum vér ofs þá i nyt til at styrkia hiá ofs þá trú, er su giorvalla biblía midar til at giora ofs sannfróda um, nl. ad meira sé til enn hin líkamliga veröld, er vér augum lítum; og einnin sé til annad ríki, i hvöriu ofs áíídan sé vist búin.

Hvad Enochs spádóm snertir, þá er þad samqvæmt þeirri skirslu, er Mósis hefir gésid ofs um frómleik Enochs, ad hann hafi varad sinnar aldar gudleysíngia vid Guds hegníngar-dómum og má vera, ad þetta hafi munnmæli verid medal júda, mann af manni sagt, er postulinn á þessum stad brúkar.

Annars þykir þad ymsum lærdum mönnum allíkligt, ad júdas hafi af ásettu sært sér slíkra

grillumanna eigin meiníngar í nýt í því ſkini að hrinda málsgegnum þeirra; að færa rök til móti þeim af greinum heilgra bóka, gat ei að gagni komið, þar þeir, ſem Petur ſegir i 2 bréfi ſínu 3. 16 rángfneru þeim. Parámóti høfðu þeir aðrar ritgjørðir, í hverium þeir innbyrluðu ſér að finna diúpſæra ſpeki. Af þeim taka þeir Petur og Júdas poſtular, ſøgnina um erkiengilſins Michaels deilu við diøfulinn, til þeſs að ſneipa þá með þvílíkum áſtæðum, hverra gildi þeir ſiálfir máttu ſanna. Eins og Jeſus að víſu ekki gaf jáqvæði hiátrú þeirri ámeðal gyðínga, að þeir með ſærſngum giætu útrekið vondar vættur, þar hann hrekur til baka þá ſakargift, að hann ſtæði i ſambandi við diøfulinn, með þeirri ſpurníngu til Phariſæanna: ef eg útrek diøfla fyrir Beelzebul, fyrir hvørn útreka þá ydrir ſynir (landsmenn) þá? ſvoleiðis ſanna ei heldur poſtularnir innihald bóka þvílíkra grillumanna, þó þeir taki rokſemdir til láns af þeim, til að ónyta mál þeirra.

Að guðrækuir kriſtnir ſkyldu einnin forðaſt ſatnað þvílíkra, i bréfinu umtalaðra, guðleyſíngia, (23 v.) er að eins ſterkt orðatiltæki, tekið ur løgmáli Móſis um hið levitiſka hreinlæti, og ſem ei á þar annað að þyða, enn að þeir varaſt ſkyldu øll viðſkipti og mok við hina laſtafullu, og ei láta ſig ſtekka af dæmum þeirra.

# Johannis opinberun.

Þess er gétid i inngánginum til Joh. 1ta bréfs, at postuli þessi i elli sinni dvaldi mörg ár i Ephesus, og var forstødumadur bædi safnadarins i þeirri borg og annara safnada þar i grend vid i Asía; en i ofsóknum þeim er hin rómversku vold hófu mót kristnum mønnum, var Johannes útlægi giört til litillar eyu, því nær óbygdrar, er Pathmos hét, en nú á døgum kallast Palmosa og liggr i grikklandshafi.

Þar vard þat, er siálfur postulinn skrifir oss frá, ad Gud virdii hann opinnberunar um kristindómsins forløg á þá ókomnum tídum, hvoria hann med eigin hendi hefir skráfett i bók þessari, er fyrir því hefir tekid nafn af opinnberun. A hvoriu ári bókin sé ritud, láta fornsogur i þagnargildi, en hitt er efalaust, ad postulinn Johannes, eins og titillinn tilbendir, hefir hana i letur fært, þarum sannfæra oss vitnisburdir gamalla, trúverdugra, kyrkiufedra, er lifdu skømmu eptir dauda téds postula, og umgengust læriſveina hans og høfdu adsetur sitt i þeim stødum, er bókin i ondverdu var sérslagi ætlud; eins og sá hluti innkaks bókarinnar, sem er skilianligur sérhverium greindum lesara, optsinnis lysir því og lætur oss kannast vid þann sama postula, er oss hefir skrifada eptir sig látid gudspiallabók og þau þriú bréf. Þad hefir og fremur verid vandskilidog und-

arligt innihald bókarinnar, enn eiginnliga útvortis rokſemdir er vakid hafa efaſemd um, ad hun ſé ekta og af poſtula ſkráſett.

Sérílagi var ritgiörd þeſsi ætlud þeim ï ſöfnudum i Aſia (1, 11). En hvør vera muni hinn eiginnligi tilgángr þeſsarar markverdu bókar, er undir því komid hvørnveg menn líta á og virda fyrir ſér innihald opinberunarinnar: hvört heldur hinn helgi rithöfundur alleina edur þá einkanliga hefir hugga viliad þá kriſtnu, er júdar og heidíngiar grimmiliga offóktu, med því ad opna þeim fyrir augum útſyni til dyrdligs ſigurs, er kriſtindómurinn innan ſkams vinna mundi á tveim hans þáverandi hofudfiendum, júdadómi og heidindómi; edur ad Gud hafi giært hinn helga poſtula diupſærri ſpámannligri ſkarpſkigni til at fyrirſiá ſamlengis ſtailæga æfi, er hann med líkíngum ſkyldi gé'a ſinnar og ſeinni alda mønnum vitneſkiu um. A þetta ſkal verda vikid i ſkíríngargreinunum, eptir ſem ſamqvæmt voru augnamidi þurfa þykir.

Hugmindir þær, i hvøriar alt i bók þeſsari er innſveipad, eru ad meſta leyti teknar úr ſpámannabókum ens G. T. og eru af Poſtulanum alleina enn fremur aſmaladar. Því betur ſem þær eru leſendum kunnar, þeſs ſkilianligra verdur þeim opinberunarinnar hugminda málbragd En hægt er oſs ad ſkyuia, ad þótt vér giætum áqvedit, hvad þeſsir fyrirburdir þyda (hvad þó opt

sinnis er harla vandasamt), ser því þó sicærri að vér gétum heimfært þá uppá þær tídir og viðburði, er þeir miða til. Án þess að voga neina útleggíng á síðstédan hátt, vil eg að eins skíra stuttliga frá höfuðinnihaldi bókarinnar; því eiginliga að meddeila lesurunum stutt ágrip af henni, er ei i lofa lagið; með því að það er torveldt og optsinnis ómöguligt að tilgéta, hvað i afmálun hér framsettra hugminda er sérilagi veruligt og þýdíngarfullt, og hvað alleina er þeim til prýdis ætlað. Að eins vil eg leitast við að framleggia fyrir lesaran þá röð, i hvorri atburdirnir standa, eður niðurröðun efnisins og jafnframt að fara fám orðum um hugmindanna þýðíng.

### Innihald.

Johannes giörir grein á, því hann kalli bók sína opinberun og fer fögrum orðum um ágiæti hennar (1, 1—4) hann sendir þeim 7 söfnuðum i Asía heilsan sína og postulaligu blessun og prisar Drottinn (v. 5—8).

Postulinn er staddur á Pathmos, hvar hann á sunnudegi verður frá sér numinn, og heyrir fyrst rödd, er býður honum að skrifa þeim 7 söfnuðum það til, er fyrir hann ber, þar næst sér hann 7 lampa um hverfis sig, og miðt ámillum þeirra mannslíkan, þó hvörium manni vegligri, sem auk annarra auðkénna uppá guðliga hátign, heldur á 7 stiörnum i hendi sér. Þessi dýrðliga

vera (sjálfur Jesus) ítrekar boðorðið fyrir Jo-
hannes, að færa þá fyrirbuði i letur er hann sjá
mundi og útþýdir fyrir honum þær 7 stiernur og
þá 7 lampa (v 9—10).

Nú fylgir það, sem Postulinn, i tilliti til
sérhvers enna 7 safnaða andliga ásigkomulags,
strengiliga skyldi leggia fyrir hvern og einn
safnaðaengil þ. e. Guðs sendiboða, sérhvers safn-
aðar fræðara og tilsjónarmann. Söfnudurinn og
kénnimennirnir i Ephesus fá orðstyr fyrir hing-
aðtil synt staðuglyndi og árvekni móti falskénn-
endum og þarámeðal móti Nicolaitum (máské þeir
somu og Bileamitar, eður sporgaungumenn Bile-
ams 4 Mos. b. 25, og 30, 8—16 og þá mun-
aðarlífs hvatamenn) en þeim er varað við, at
lata sinn forna kiærleika rírna, hvað að líklindum
kom af þrætuflokkanna deilum. Söfnudurinn i
Smyrna fær orðstyr fyrir trúlyndi sitt i grimm-
um ofsóknum og þraungum kiørum og upphvetst
til at standa staðugr til æfiloka. Hver sem sigr
úr bítum bæri, þyrfti ei að skélfast fyrir þeim
oðrum þ. er þeim eylífa dauða (v. 8—11).
Kristnir menn i Pergamus hefðu synt sig staðuga
i trúnni á Jesum, þótt þeir væru hvervetna um-
kríngdir af djøfulligum afskeiðis færandi leitog-
um og i hørðum ofsóknum, þá einn merkur fræð-
ari, Antipas að nafni, var af lifi tekinn; en þeir
þyldu falska og óguðliga kénnara sín á meðal
og er þeim því aðvorun gefin við þeim. Sigur-

vegaranum er heitid himneskt Manna (miklu háleitari nautn, en sú líkamliga er) og hvítr steinn o. s. frv. (adgángr til at hljóta laugtum dyrmætari laun, enn þau sigurarnir í enum grisku leikum báru úr býtum, þá þeir frambáru toblu nokkra hvíta, er þeim var feingiun, og á hverri þeirra nøfn stódu ritud; helldur þau verdlaun, er þeir einir kunnu at meta, er þeirra urdu hluttakandi) (v. 12—17). Kennari og søfnudur i Thyatíra fær hrós yfir høfud syrir kristiligt sinnislag, en lastast fyrir eptirlátsemi vid eitt samband af sjalfum og lastafullum kennurum (sem er kennt vid Jesabel, Achabs illræmdu egtakvinnu, er innfærdi afgudadyrkun 1 Kong. b. 16, 29—33. c. 17—22. 2 Kong. b, c. 9); þessa sambands slipturum og áhangendum er hótad hørdu straffi, en adrir af søfnudinum, er ei væru ennþá fordiarsadir, né hefdu látid sig lokka af hinum til at nema þá af þeim úthrópudu diúpsæru speki, hver eiginliga væri djøfla lævíssi, eru hvattir til stødugglyndis (v. 18—29). Søfnudurinn i Sardes útmálast sem andliga daudur og advarast alvarliga. Ad eins fáir af medlimum safnadarins høfdu komist hiá ólifian almennings fordiersunar (3, 1—6). Søfnudurinn i Philadelphia þarámót skuli, þótt fámennur sé, til launa fyrir sitt stødugglyndi, aukast og útbreidast, þrátt fyrir offóknir vantrúadra gydínga; samt frelsast frá yfirvofandi þreingíngum, o. s. frv. (7—13). J Laodicea væri bædi

fræðari og søfnuður hálfvolgr og þessvegna Drottni andstyggiligur: þess drambvíssati hann væri af dularfullri upplýsíng, því blindaðri væri hann og vesælli. Drottinn áminnir hann að auðmýkia sig og að bæta ráð sitt; en refsíngar væru nauðsynligar til at vekia hann til hugleiðínga (v. 14—22).

Nu hefur ena eiginligu opinberun. Hingaðtil var Postulinn á jørðu niðri. Nu upplýkst himininn og þá rødd býðr enum fránumða postula að stíga upp. Hann getur að líta hátign og dýrð svo mikla at ei má dauðligum mønnum frásḱira né með neinum líkíngum lýsa; — Hann sér hátrón á himnum uppi, og á honum sat einn, og hvervetna út frá honum standa himneska herskara; hann heyrir loffaungva hlióma þeim eylífa til dýrðar (4 Cap). Sá sem sat í hásætinu hefði bók i hægri hendi, forsiglaða með 7 innsiglum; einginn ámeðal manna var megnugur að brióta þau. Yfir þessu tárfeldi Jóhannes. En eingill nokkur huggar hann með því, að þó fyndist einn, er verðugr væri til að opna bókina — nl. lambit, er slátrað væri, Jesús Kristur. Han birtist þá og tekur við bókinni af þess hendi, er sat i hásætinu, ámeðan hlióma loffaungar og-bænir Guði og lambinu til dýrðar (5 Cap). Innsiglinn eru brotinn, eitt eptir annað, og þá hvert bréf opnast, bregður fyrir postulan mind nokkur, er jarteiknar honum, hvað koma skuli. Þá híð

fyrsta innsigli er brotid frá, bar fyrir hann sig-urs-teikn; þá hin 3 fylgiandi innsigli vóru frá brotian, mátti siá afmálun þriggia i ræð kom-andi plága, strídð, húngurs og dauda. Þá hid 5ta innsigli er frábrotid, má undir altari á him-num siá þá helgu píslarvotta, hvørra saklausa út-helta blód kræfst af hinum rettvísa dómara hegn-íngardóms yfir banamenn þeirra. Hann vottar þeim þeirra sakleisi og sína velþóknan (er jarteikn-ast med hvítum fatnadi) og lofar þeim ad þad straff, er hans réttvísi dómur áqvedid hefdi, skyldi frammqvæmast á banamønnum þeirra, þá þeir fylt hefdu sinn syndamælir. Hid 6ta innsigli var brotid upp; sól og túngl formyrkvast, stiørnurn-ar hrapa, jørdin titrar (vanaligir fyrirbødar fyrir stórkostligum stiørnabiltíngum) og allir jardar-búar (heimsinnadir menn) giørdust felmtursfullir (9 Cap). Hid 7da innsigli á ad briótast fra; þad dró upp til nyrra stormvinda; en 4 englum er bodid ad sefa þá — jafnfliótt kemur engill úr austurátt og innsigladi þá þióna guds i ennum, er frelsast skyldu frá eydileggíngunni. J tølu hinna innsigludu vóru 12000 umvendtra Jsraels-ita af hverri kynkvísl (vís tala fyrir óvíssa). Fiøldi umvendtra heidíngia var óteluligur. Þeir frelsudu af øllum þióðum, standa fyrir hásætinu og lambinu. klæddir hvítum búníngi (heilagleika-merki) med pálmagreinum i høndum sér (sigurs-

hrófs teikn). og samsyngia með englunum guðs og lambsins prís (7 Cap).

Hið 7 innisigli var brotið upp. Hálfa stund setti alla himinsins skara hlióða (athygli allra er óðeilt á því, hvað ské muni). Sio englum eru 7 básúnur feingnar i hendr; jafnframt þessu leggr eymin af reikelsi á altarinu, þýðíngar teikn bæna hinna heilegu, upp fyrir Guð. Engill með reikelsiskér í hendi varpar eldi úr því á jörðu niður, er ollir reiðar þruma og jarðskiálfta (fyriboði yfirvofandi hegníngardoma). Þeir 7 englar blása, einn eptir annan, i básúnur sinar. Þá hin fyrsta géllur, haglar og rignir eldi og blóði á jörðina (blóðugar styrialdir hefjast); þá hin önnur géllur, hrynur fiall mikið, i hvöriu eldur var uppi, i hafið o. s. frv. (voldugt ríki, eptir sem sumir meina, sem, eins og eldfiall, hefir brent og brælt umhverfis sig, og sem nú verður öðrum þióðum að bráði); þá hin 3 básúna qvað við, hrapaði stiarna af himni, er malurt hét, og giörði vötnin beisk o. s. frv. (jarteiknar, eptir sumra meiníng, kennara, er fallinn er frá sannleikanum og falsar Jesú trúarbrögð); þá hin 4ða básúna gall, formyrkvaðist þriðiúngur sólar, tungls og stiarna (má vera að þýða megi um yfirgángandi vankunnáttu, yfirhöfuð um ógiæfusamligt ástand). Annars útþýða sumir þá viðburði, er urðu eptir þessara 4ra básúnuhlióma, að eins uppá almenna neyð og eymd, jarteikn.

aða með Þýðingarteiknum, er tekinn eru af plágunum i Ægyptalandi og Eiðimörkunni. Þær 3 básúnur eru eptir; og athuginn vaknar á ný af úthrópun vanheilla yfir jørðina á undan Þeim viðburðum er urðu, þá hinar 3 síðstu básúnur gullu (8 Cap).

Hin 5ta básúna géllur; og ein stiarna með lykli að brunni undirdiúpanna hrapaði af himni. Lykillinn upplýkur brunninum, af hønum leggur reyk mikinn, er framleiðir vissa tegund engisprettu, høggormum líka og undarliga að vaxtarlagi, er plága jarðarbúa, en vinna Þeim Þó eigi bana. (Sumir meina að Þetta tákn Þýði sambanð upphlaupsmanna og reyfara, er seinpína Það land, sem Þeir eru í, en eyði Það Þó ei með øllu. Oðrum Þarámót Þykir táknið jarteikna falskénnendur, er með ákéfð, en ei með valdi, útbreiða skaðliga lærdóma. Hin 6ta básúna géllur; nu voru 4 við fljótið Euphrat bundnir englar úr fiøtrum færðir, Þeir brunuðu fram með óvígan her, einkum geigvænligt riddaralið og eyddu hvervetna er Þeir fóru. Ei snéru Þeir menn sér að heldur frá afguðadýrkun og glæpum, er afkomust i undangengnum plágum (Að með Þessu stórmerki afmálist eitt yfir Evphrat geysandi, ógurligt og eyðileggjandi herlið, Þykir vera hin einfaldasta útÞýding. (9 Kap.)

Engill nokkur hátignligur á að líta steig niður af himni með opna bók i hendi og mælir með mik-

illi raust; jafnskiótt heyrast dunur 3gia reidar-þruma; en hvad þær segia, á postulinn ei ad uppskrifa. En med upprèttri sinni hægri hendi til himins sór engillinn vid hinn eylífa, at Drottins ásetta ráð ei muni lengur fresta, en alt skyldi uppfyllast, þá hin 7da básúna qvædi vid. Hann rèttir ad Johannes téda bók og bydur honum ad eta hana (það er, í málbragdi spámannanna: ad útgrunda og líkt sem ad melta med sér); Postulinn giörir, sem bodid var; og svo sæt hun var í munni, svo beisk var hun i innifllum hans (hun fær honum fagnadar og áhyggiu); Johannes skal á ny spá fyrir þiódum og konúngum (10 Kap.)

Postulanum var fenginn mælistokkr til ad mæla helgidóm Guds musteris: en forgardinn fyrir utan skal hann afstanda fiandmønnum (mun jarteikna það sama, sem innsiglingin, ad Guds sønnu tilbidiendur, er nú voru allfáir ad telu, skyldu undanskiliast frá eydilegging almennis. Einnin vildi Guds láta sín tvo vitni spá um víst tímabil. Vottar þessir afmálast sem 2 olíutré og 2 lampar og eru giæddir harla miklum krapti; og þó skyldi eitt frá afgrunni uppstigid dyr yfirstíga þá og verda þeim ad bana, ja, láta lík þeirra liggia ójørdud á strætum ennar andliga svokølludu Sódomu og Egyptalands, hvar þeirra Drottinn er krossfestur — jardarbúum til mikils fagnadar, er tédir vottar allmiøg plagad hafdi. En siá! eptir skamma stund vekur Gud þá, þeir

rísa upp og fara til himins — það fær ǫllum óvinum þeirra skelfíngar og furðu. Jörðinn skélfur, þridiúngur borgarinnar hrynur, fiøldi manna lætur líf sitt; hinum ógnadi og þeir gáfu Gudi dyrdina. Þetta var hið annað ve. (Sumir útleggiarar meina að með þeim tveim vottum meinist píslarvottar, af lífi teknir fyrir sannleikans sakir, en sem síðan, þá hann vann sigur, voru réttlættir og likt sem vaktir frá dauðum. Aðrir þarámóti ætla, að votta þessa megi útþyda um hið gamla og nya Testamenti, sem, eptir að hafa kynnt jarðarbúum ógédfeldann sannleika, voru að lyktum af diofla veldi, dyrinu frá undirheimi (er síðar útmálast) væntir ǫllu áliti, lífi og krapti, en skømmu á eptir sæmdir sínum fornu virdíngum og áliti og augliósliga tek-n undir forsiónarinnar varðveitslu, þá eptirfylgdu stiórnarbiltíngar miklar og grimmar styrialdir). Hinn 7di engill básúnar. Loffaungvar hlióma á himnum Drottni til dyrðar fyrir unninn sigur. Nú opnast hið himneska musteri og sáttmáls ørkin kemur fyrir siónir. Nú heyrast þrumur og eldíngar o. s. frv. (þau vanaligu teikn Guðs nærveru. (11 Kap.)

Innihald þriggia fylgiandi kapitula synist að vera nokkurskonar millisatridi, edur innskotinn viðbætir við það sem áður er komið, til enn nákvæmar að útlista það undangengna og undirbúa lesarana, að þeir numið sái þá atburði, er

hin 7da básuna olli og sem skírt er frá fyrst í 15 kap. 5 v.

Kona birtist á himni, skrydd sólinni, hún stód á túnglinu, og hafdi krans af 12 stiernum á höfdi; hun var jódsiúk, og ferligur dreki er búinn til ad svelgia barnid, þá þad er i heiminn borid. Hún fædir sveinbarn, er stiórna skyldi ollum yfir þiódum. Barnid nytur Drottins vardveitslu og var burtrikt til hans hátróns; og konan flyr á eydimorku. Bardagi hefst millum Michaels og hans engla, og drekans og hans engla; Drekanum var kollvarpad á jordu nidur, yfir því heyrdist siguróp á himnum. Sá á jordina útsnaradi dreki ofsækir þá flyandi qvinnu, sem med arnarvængium kémst undan honum, og undirheldst um áqvedid tímabil á eydimorku; ennfremur gys hann vatnsflódi yfir hana til ad drekkia henni; en jordin upplykur sínum munni og svelgir flódid. Drekinn æsist af þessu og ofsækir qvinnunnar afkomendur; (Margir útleggiarar á seinni tídum meina ad hin jódsiúka kona jarteikni júdadóm, og hennar nyfædda sveinbarn, kristinndóminn, er hafdi sín upptok af júdadómi, og hvorn, ennþá máttlitinn og líkt sem nyklakinn, forsiónin sérílagi tók til halds og trausts. Þeir útþydarar þarámót, sem halda ad fyrirburdirnir i bók þessari bodi vidburdi seinna á oldum, þyda hina tignarligu konu um Jesu kyrkiu, og þann son, er hun med hrídum fæddi, um þad herradæmi er Jesú kyrkia,

eptir harða baráttu, vann yfir heiðninni. Drekinn, diøfullinn, afguðadyrkunarinnar yfirboðari, valt þá úr veldum. En þrátt fyrir unninn sigur yfir heiðninni, er þó Jesu søfnuður, nl. hinn sanni søfnuður án afláts offóktur af sannleikans óvini og þeim maktarveldum, er hann uppæsti gégn þeim. Þó heldur Jesus ávalt sinum einlægu dyrkendum, jafnvel þótt þeir á spiltri old megi um hrið — einmidt eins lengi og þeir 2 vottar láu andvana (11, 11) — vera á laun (12 Kap.)

Af hafinu steig dyr nokkurt ógurligt, það var tíhyrnt og siøhøfdað o. s. frv. því lénti drekinn veldi sitt og trón. Eitt af høfdum þess var særf til ólífis; en øllum þótti það undrum gégna, þá það græddist. Allir utan Guðs útvaldir, tilbáðu nú dyrið. J þeirri áqvednu tíð, er það situr að veldum, spottar það Guð, ræðst á þá heilogu og yfirvinnur þá, o. s. frv. (13, 1—10) annað dyr kémur upp af jørdinni, það er tíhyrnt o. s. frv. Þetta dyr veitir hinu fyrra dyri lið og eykur veldi þess með følskum táknum og giørir af því líkneski með lífi, er allir meiga blóta, eða lifið missa ella, og markar þess dyrkendur með vissum teiknum; merki dyrsins er talan 666; (allar þessar sjónir útþydast ymisliga, eptir sem menn margvísliga yfirvega þessar opinberanir, er flestir seinni tíða útleggiarar meina að skiliast eigi um heiðindóm og hans forgaungumenn og forsvarara; þeir eldri útþydarar skilia þær

þarámóti um kristindóminn sem fordiarfadur er fyrir sakir þess ad Jesu kénníngar voru falsadar og likt sem ny afgudadyrkun var tídkud, og um þá þióda oddvita, er útbreiddu hiátruarinnar villu. Hvoriu nafni dyrid heitir, er talan 666 jarteiknar, gétur einginn med vissu frædt oss um. Lángordari lysíng dyrs þessa og merkia þess má annars finna i 17 Kap. (13 Kap.). Lambid birtist á Síon ásamt sínum dyrkendum (gagnstædir dyrsins tilbidiendum); lofsaungar hlióma á himni og þeir, er sigurinn höfdu úr bítum borid, taka undir. Þriá engla, hvörn eptir annan, gésur ad líta á himni. Sá fyrsti synir hid eylífa Evangelíum; sá annar bodar fall hinnar miklu Babylónar, sá þridie kunngiörir þad straff, er dyrsins dyrkendum er áqvedid. Rödd heyrist, huggunarrík öllum trúudum. Á skyi sést tignarligt mannslíkan er hefur sigd i hendi og þvinæst engill einnin med sigd i hendi. Sá fyrrtédi sigdar korn, hinn annar vínvid (einberar fyrirbodanir þess, er fyrir heimsins edur heimsligum manneskium lægi, og fyrir áhángendum hinnar babylonisku skiæku og dyrsins; uppskéra fullsprottins korns og fullvaxinna vínberia, er huglíkíngar þeirra hegníngardóma, er þeim mönnum eru áqvednir, er fyllt hafa sinn syndamælir, og sem i því spámannliga málbragdi er svo ad ordi qvedid sem þad skéd væri, erinn an skams og vafalaust mun ské (14 Kap.)

Nú segir frá því, er viðbar, þá hin 7da básúna gall (siá 11ta Kap.) Siø englar birtast með hinum 7 síðstu plágum. Ógurligir fyrirburðir boða Drottins hegníngardóma. Jóhannes sér sem eitt glerhaf, eldi mengað, og við það, þá heiløgu dýrsins sigrara, er lofsúngu Guðs réttlæti, því næst gánga þeir 7 englar fram með 7 skálir, fullar Guðs reiði, er þeim voru fengnar af þeim 4 lifandi, út af hinni himnesku tialdbúð, sem var full af reyk, er var merki uppá dómarans nærveru (15 Kap.) Þeir 7 englar hella, einn eptir annan, eptir sem þeim var boðið, úr þeim 7 skálum yfir jørðina; því fylgia nú 7 refsíngar, ein harðari enn ønnur, á dýrsins dýrkendum. En því meira sem refsíngarnar harðna, þess meira eykst forherðíng þeirra. Í qvølunum spotta þeir Guð: já, með sínum síðustu kraptum biuggust þeir til bardaga gégn Guði, hinum almáttuga, uns að lyktum hin síðsta reiðiskál úthellist, hræðiligustu ógnir og byltíngar hófust i giørvallri nátturunni, og hið mikla Babel, høfuðból guðleysisins, géck til grunna (16 Kap.)

Til þess að Johanni verði það auðskildara, hvað þetta Babel sé, hvørs eyðilegging hønum allareiðu er synd, jarðteiknast það hønum með ímynd einnar, við mørg vøtn og á fyrrtéðu dýri sitiandi skiækiu, sem er bladbúin alskyns lokkandi glisi osslækis og losta, tælir jarðríkis konúnga og er ølvuð af heilagra blóði o. s. frv. Og þá Jo-

hannes lét sér mikid finnast um sýn þessa, útskírir eng-
illinn honum hvad dýrid sé og hvad þess 7 höfud,
10 horn og þau mörgu vötn jarteikni, og loksins
hvör konan sé. (Hvörsu myrkt og vandskilid sem
innihald þessa kapitula þykir, gétum vér þó ordid
svomikils áskynia, ad dýrid og konan, er á því
situr, þýdi hid rómverska herradæmi og Róma-
borg, er stendur á 7 hædum og var veraldarinn-
ar drambláta megindrottníng. En hvört þad er
hin forna, edr hin yngri, einnin afgudi dýrkandi,
frá Jesu hreina lærdómi afvilna, sömuleidis víd-
lendis drottnandi og móti sannleikans vottum
grimmúduga Romaborg, sem her er meint, um
þad eru hinir eldri og yngri útþýdendur ei á eitt
sáttir) (17di Kap.)

Þvínæst kunngiörir einn frá himni nidurstíg-
andi engill fall ens mikla Babels, þess ógurligu
umbylting og hennar orsök. Ein önnur rödd
framsetur eptirdæmi þess og endalok Guds fólki
til advörunar, og gétur þess, hvö réttlátt endur-
giald því var goldid. Þvínæst hefia menn á
jördu aumkunarligan harmasaung yfir óvæntu hrapi
skrautligrar borgar, fyrst jardrikis konúngar, er
ei sán nú annad af þessu vellystinganna fiøl-
skreytta býli enn hrylliligar tóptir, er þeir ei
vogudu ad nalægiast; þvínæst tóku kaupmenn
undir og siófferdamenn, er audgast höfdu af verslun
vid þenna lostasama stad, og sem nú gátu ei selt

hinn dýrfelda óhófsvarníng, er ávalt hafdi verid þar útgengiligur. Engill nokkur teiknar med þýdíngarfullum giorníngi stadarins fullgerdu eydileggíng, og lét þad ummælt ad hann skyldi um alla æfi orbyli vera (18 Kap.)

Eptir fyrrtéd harmaqvædi á jördu heyrist á himnum gledisaungur og lof og prís fyrir Drottins réttvísliga dóm yfir þessu jardrskisins tæfraqvendi, og fyrir þá dýrmætu fridsælu, er Krists kyrkia nú nióta skyldi. Frá sér numinn af gledi yfir þessu fellur Postulinn englinum til fóta og ætlar ad tilbidia hann: en hann bannar honum þad og segir ad Gudi alleina og Jesu beri heidurinn fyrir þad (19, 1—10).

Þad sem hérá eptir fylgir, er, eptir sumra meiníng framhald þess næst á undangángandi, nl. sigurhrós, i hvoriu þeir, nýliga útmáludu, yfirunnu fiendur eru framleiddir, en hvorjer enn þá, eptir haldid sigurhrós, þá þeir siá sér nidurdrep og bana búinn, giora i vonarleysu hid sídsta máttvana áhlaup á sigurvegarana. Eptir annara, sem þad synist, réttari skodunarmáta þessa efnis, er hér þarámóti lýst nýrri orrustu móti ödrum óvini, nl. dýrinu frá undirheimi og þess áhángendum, er, eptirsem i 16, 13—16 segir, höfdu safnast saman vid Megiddo. Nú birtist sigursæll kappi, hans kénníngarnafn var: Guds ord, og hans einkénnísnafn: konúngr konunga og drottinn drottna, hann fer med svígan her

himneskra herskara moti síðstléðum óvini; viss um sigurinn, lætur hann engil nokkurn samankalla alla hræfugla til snæðings af hræum fallinna manna; dýrið heldur sínu liði til orrustu; en hin vanmátka reiði kom því fyrir lítið. Dýrið frá undirheimi og fulltyngismaðr þess, hinn falski spámaður (dýrið af jörðinni) er til fánga tekinn og kastað í brennusteins díki; og liðsmenn þeirra fengu einnig maklig málagiöld (19 Cap).

Dýrið og spámaðurinn er þá afmáð. Nú segir frá straffi drekans. Eins og honum fyrr var snarað af himni á jörðu niður, svoleiðis er honum nú varpað i undirheima og haldið þar i hlekkium þúsund ár. Um það tímabil drottnar og eykst Jesú kyrkia, og fá henni ei fiandmenn grandað. Jesú aflífuðu vottar og þeir, sem á meðan dýrið vasaði i völdum, reinðust honum trúir, lifna á ný og ríkia með Krist i þúsund ár. Aðrir frammliðnir risu ei upp aptur áður enn þau 1000 ár vóru liðinn o. s frv. (þetta alt er að líkindum, sem annað i bók þessari, hugminda málbragð eitt; líkt því, sem sagt er um þá tvo votta (11, 3 sylg.); þeir sem misbrotamenn aflífað höfðu sannleikans votta risu upp þ. e þeir sluppu fyrir ofrægð allri, og frelsuðu æru sína; aðrir þurftu þess ei). Að þeim 1000 árum liðnum er Satan laus látinn úr fángelsinu, og, ei betur skapi farinn enn áður, safnar hann á ný að sér ógrynni hers af en þá ókristnuðum þióðum

(Gog og Magog) til að heria á krists kyrkiu. Reiðarslag drottins slær þá, og drekin er um eilífð dæmdur til sömu forlaga sem dýrið og falsspámaðurinn (20, 1—10).

Nú fylgir upprisa hinna framliðnu og hinn síðsti dómur, er leiðast Johanni fyri siónir með skinðum. Dómarinn kémur. Himin og jörð flýa fyrir hans augliti. Allir framliðnir rísa upp og mæta fyrir hans hásæti. Bækurnar opnast; og sérhver fær sín maklig málagiöld. Dauðanum og dauðra ríki (afmáluð sem persónur) er kastað i eldsdíki og ásamt þeim sérhver, hvörs nafn ei skrifað stóð i lífsins bók (v. 11—15).

Að lyktum útmálast sæla enna heilögu. Postulinn sér nýann himinn og nýa jörð og hina himnesku Jerusalem, (af hvörri hin fyri var ein ófullgiör fyrirmindan) setta á jörðu niður. Himnesk rödd kunngiörir ástand enna fullsælu. Sá sem i hásætinu situr, staðfestir orðanna sannleika. Einn af þeim 7 englum, er héldu á þeim 7 reiðiskálum, færir Johannes, sem er frá sér numinn, uppá hátt fiall, hvar hann gétur að líta sæld-arstað hinna fullsælu, hina himnesku Jerusalem. Og þessa dýrðliga borg sér hann búna allri þeirri fegurð og skrauti, er dauðligra manna hugmindanar gáta gétur smindað sér, og sem hér afmálast með þeim mindum, er jarteikna varanligleik og ramleik, fegurð og bestu skipun. J borginni er ekkért musteri að siá; Guð er hennar

musteri og lambid: ei heldur sól, því dýrd Drottins uppliómar hana; þar er ei fremur nótt, heldr eylífur dagur o. s. frv. (21 Kap) Enn fremur útmálast ástand hinna fullsælu med mindum, sem teknar eru af Paradís; og loksins er hid heila samandregid í stutt ágrip (22, 1—5).

Í því fylgiandi heitir Drottins engill því med visśu og Drottinn siálfur, ad alt þad, sem þessir spádómar fyrirsegia skuli framkoma, og varar vid misbrukun þeirra og hvetur til réttrar hagnytíngar o. s. frv. Bók þessi, er byriar sem bréf til hinna 7 safnada, endar nú og á sama hátt, sem bréfin, med hinni postulaligu qvediu.

## Skíríngargreinir.

Nú er hér framsett lítid ágrip af bókarinnar innihaldi. En hvort hennar argnamid sé og sanna þýdíng um þad hafa menn ei um margar aldir verid og eru ei enn á eitt sáttir. Og med því þad mundi lesurunum til lítillar uppbyggíngar ad siá hér margvísligar og innbyrdis gagnstædar meiníngar upptaldar, þá vil eg géta hér tveggia hofudstokka af útþýdíngum þessarar opinberunar, hvoriar annars varla má telu á koma.

Sumir, einkum yngri alda, útleggiarar þykiast ei sia annad á giorvollu málverki þessu, enn skáldliga lysíng falls og nidurdreps júdadóms og heidindóms og sigur kristindóms á hvorutveggiu. Þeir skipta því bókinni, ad svo miklu leyti sem

hún inniheldur ena eginligu opinberun i 3 höfudparta, af hvorium hinn fyrsti, frá 4da til 12 Kap., bodar júdadómsins undirgáng, sá annar, frá 12 til 20 Kap., heidindóms afmáan, og sá sídsti, frá 20 Kap. til endans, hid fridsæla ásigkomulag Jesu kyrkiu á jördunni, bygdrar á aurmáli hinna hvorutveggiu, eptir unninn sigur á bádum þessum voldugu óvinum og lokfins hennar sælufulla ástand á himnum. Eptir þessari útleggíngu er þá innihaldid frá 4 til 8da Kap. 5 v. alleina undirbuníngur edr nokkurskonar inngángur til alls þess, er á eptir fylgir, og hvar sjónarplátsid er búid undir fylgiandi mikla vidburdi. Opnun hinna 4 fyrstu innsigla á þá alleina ad teikna almenna hegníngardóma, er koma mundu yfir Jesu standmenn; en opnun 3 fylgiandi innsigla, edr hid þrefalda vehróp áqvedi en vendiligar þær óhamíngiur, er vantrúndum júdum mundi ad hendum bera nl. hid fyrsta vehróp þær ógurligu eydileggíngar, er hvatamenn uppreisnarinnar gégn Rómaveldi, hinir svokölludu vandlætíngasömu júdar, med yfirhylming vandlætis fyrir Mosis laga sakir, fengu ollad medal eginn landsmanna; hid annad vehróp herhlaup Rómveria á júdaland og Jerusalem, og ad lyktum, eptir tvo innsmeigd atridi, er náqvæmar teiknar borgarinnar áqvordudu eydileggíng — hin siöundi básúnu hliómur edur hid 3 vehróp, siálfrar Jerusalems fall (11, 15—19) og þaraf fliót-

andi júdadómsins undirgáng. Nú er þá hinum megnustu meinbugum fyrir kristindómsins framgángi úr vegi hrundið; og þetta bodar, samqvæmt þessari útþýdíngu, hin markverda sýn i 12 Kap. Hin jódsjúka qvinna (júdadómur) má á eydimerku hælis leyta; og hennar nyfædda sveinbarn (Krists kyrkia, sem upprunnin var af samkundum júda) er tekid undir himinsins vardveitslu. Hér endar opinberunarinnar 1ti partur.

Annar parturinn, frá 12, 18 til 20, 10 v. fyrimyndar kristindómsins sigur á hans ødrum hofud óvini ul. heidindómi; dyrid, er skaut upp af hafinu, jarteiknar þá heidindóminn, edur hid rómverska ríki, heidindómsins adalból; og hid annad, er kom af jørdu upp, afgudadyrkunarinnar talsmenn og forsvarara. Og eptir ad Romaborgar eydileggíng er hátídliga af englum fyrisøgd og jarteiknud med kornskéru og vínberialestri: framqvæmast þá Drottins hegníngardómar, eins og á Jerusalem, þá hinar 7 básúnur gullu, svo og á Róm, þá helt var af þeim 7 reidiskálum, af hverium þær fyrstu 4, (álíkt og þær 4 básúnur) alleina skulu þyda allmennar landplágur, en þær 3 sídstu áqveda vendiligar þær óhamíngiur er koma skyldi yfir Rómaborg, og ad lyktum hin 7da hennar eydileggíng (16, 17—21); og til þess ad Johannes med vissu vita skyldi, hvílíkur og hversu ógurligur fiandmadur hér væri ad velli lagdur, teiknast hin forna Rómaborg, tælínga-

qvinna og' drottníng veraldar, náqvæmar i 17 Kap. — Nú heyrist fyrst á jardríki medal jarðarbúa harmasaungur yfir kollvorpun þessa lostabylis, þvínæst gledisaungur yfir skiækunnar verdskuldada straffi og yfir þeim fagnadarfulla veg, er nú mundi greidast Jesu kyrkiu. Þeir yfirunnu fiandmenn eru leiddir i sigurhrósi og hvor þeirra fær sín maklig málagiøld. Ad lyktum útmálast Jesu kyrkiu fridsæla og sælufulla ástand, ad frægum sigri unnum á øllum hennar fiendum. Svo hliódar annar partur opinberunarinnar.

Í hinum 3 parti, frá 21—22, 5 segir frá þeim sídstu vidburdum, umbylting heimsins, upprisu framlidinna, dómnum og hinni eylífu sælu.

Med þessari útþýdíngu Johannis opinberunar, sem hér i stuttu máli er framsett þykir ad vísu margt mæla. Ber það til þess ad hún er einføld og giørir það ad menn géta fliótliga yfirlitid efnisins nidurrødun. Innihald bókarinnar er þá ad eins fagur, skáldlig útskíring Jesu spádóms um Jerusalems og júdadómsins eydileggíng, um bodun hans kénníngs um giørvalla heimsbygdina og um fullkomin sigur á øllum hans óvinum. En hvørsu élitlig sem þessi útþýdíng i fyrstu þykir vera, er hún þó ei frí fyrir ymsum efasemdum, af hvøriun eg vil alleina géta fárra, sem serhvør lesari er fær um ad dæma. Hinn heil. rithøfundur segir med berum ordum, ad það sé hid tilkomandi, "hvad ásídan verda mundi" (1, 19. 4, 1) er hann, eptir gud-

dómligri opinberun, kunngiørdi lesurum sínum. En sé bókin ritud eptir Jerusalems eydileggíng, sem flestir meina, og ad þad sé þó hennar edur júdadóms undirgángur er hinn fyrsti partur inni, bindur, þá er þad ad vísu umlidnir, og ecki, sem Postulinn segir, ókomnir vidburdir, sem hér er frásagt. Og vildum vér líta svo á þetta mál, sem ad Drottins postuli giarnan hefdi gétad í heilögu dikti skáldad um edur afmálad þennan, samqvæmt Jesu spádómi, svo náqvæmliga skédan atburd; þá er þad þó ei svo audsært, hvílíkt huggun þeim, eptir Jerusalems fall, ei svo miøg af júdum sem af heidíngium ofsóktu kristnum, giæti af þessu ordid. Sumir halda þarámóti (varla réttiliga) ad bókin sé ritud fyrir Jerusalems eydileggíng og þá væri tédri efasemd úr vegi hrundid. En þar fyrir utan flydst þessi útþýdíng í mørgu tilliti ei bid nægiliga rammar flyttur. Eg vil ei fá mér til orda, hve vandasamt skodunarmál þad er, ad þær høggormum líku engispréttur, sem (ad sønnu eptir høggormanna edli) høfdu makt til ad pína og meida, en ei til ad deyda (9, 5), skuli fyrimynda vandlætara edur þá vandlætíngasému júda, er útjusu margra blódi: hvørsu undarligt er ei þad, ad þeim 4 englum, er færa óhamíngiur yfir Jerusalem, er skipad i austrætt vid Ephrat; þar þó ohéillirnir komu ei úr austri heldur úr vestri yfir júdaland; hve lítid fynist lysíng þeirra manna, er eptir svo margar plágur

engu að síður héldu áfram að hafa átrúnað á verkum sinna handa og blóta goð o. s. frv. (9, 20) að eiga heima hiá gyðíngum á þeim dögum, er, með öllum sínum hleypidómum og skinhelgi, þó bunðust fyrir afguðadyrkun. Öllu þessu kynni þó bót að mælast með því, að það er framsett með spámannligu líkínga málbragði. En nú komum vér til 11ta Kap. 19 v. þar skal þá loksins, eptir svo margar undangengnar plágur, Jerusalems eyðilegging útmálast. En hvað lesum vér þar? Ekkert fremur því, sem svo allvíða i bókinni finnst gétið, nl. um reiðarþrumur, jarðskiálfta og hagl! hvörsvegna er ei svo mikilvægur atburður, sem Jerusalems fall, ei nákvæmar fyrirboðaður? þessvegna, segia menn, að himnesk rödd hafði bannað Johanni að færa það i letur, er hinar 7 þrumur mæltu (10, 4). En hvörsu siálfrádligt er það ei að þyða það uppá þetta! og hve ósannindaligt, að eyðileggíng þeirrar borgar, i hvörri Drottinn var krossfestur og hvörrar fall hann siálfur hátidliga fyrisagt hafði ekki skyldi skilmerkiligar afmálast lesurunum *)!

En benda ei nyliga umgétin orð: "hvar

*) Þar fyrir utan á líka hin himneska rödd, er bauð Johanni að skrifa frá Jerusalems eyðilegging, eptir þessari útleggíngu, einnin að vera einber skáldligr diktr. En hvörsvegna skyldi Johannes, sem skáld, hafa diktað það, er svipti hann efninu til fegurstu afmálana?

Drottinn þeirra var krossfestur'' vafalaust til Jerusalem? jú, án efa, alleina ef ei væri þar margt annad, er leiddi hugan þadan. En med því ad þessu er svo varid, og vér lesum þá bók, hvörrar innihald er sveipad i líkíngar einar, hafa menn, sem þad synist, allmiøg rek til ad skilia þetta óeginliga, nl. um þá kristnu, er voru trygdrofar og høfdu, sem Páll qvedur ad ordi (Ebr. 6, 6): krossfest sinn Drottinn. En — hér er ei sá rétti stadur til ad telia og tala um allar þær efasemdir, er koma fyrir hvervetna i bók þessari og sem loda vid téda útþýdíng t. d. ad dyrid med hid dauda-særda og aptur læknada høfud egi ad fyrimynda kristninnar ofsóknara, hinn rómverska keisara Nero (um hvørn menn ad vísu vita, ad hann drap siálfan sig en ei hitt, ad hann kæmi til lífs aptur) — ad þau 10 horn edur 10 konúngar, er um skamma hríd høfdu hlutdeild i veldi dyrsins, eigi ad þyda fulltyngislid, er Nero skyldi fengid hafa, hefdi hann stadid upp aptur v. s. frv.

Adrir unna miklu fremur hinni eldri meiníngu um opinberun Johannis, nl. ad hún innihaldi veruliga spádóma um forløg Jesu kyrkiu á komandi øldum. Og med øllum þeim dimmu møkkum, hvørum bók þessi, sooleidis igrundud, er innsveipud, þykir þó þessi útskiríng augnamids bókarinnar hinni yngri útleggíngu mikln fremri. Vér vitum þá frá Johannis egin vitnisburdi, ad

hér sé talad um hvad ásídan muni framkoma. Hid eginliga sjónarplats þeirra vidburda, er hér afmálast, er þá hvørki höfudborg júda né hin heidna Rómaborg, heldur, einsog bókin siálf sýnist ad benda til, Jesu kyrkia siálf. Nokkur hluti líkinganna í bókinni sýnast á þennan hátt ad fá verdugri og ad nokkru leyti spámannanna málbragdi samqvæmari þýdíngu. Sú svo mjøg hátignarliga kona t. d. (12 Kap.) er þá Jesu kyrkia siálf, hans sanna kyrkia; og sú gagnstæda qvinna, hin babylóniska skækia (17 Kap.), Jesu fordiarfadi sofnudur, hans trygdrofi, — og þykir þessi útleggíng eiga fremur skyldt vid spámannanna ordatiltæki, enn vid hina heidnu Rómaborg. Því ad vísu þýdir ordid "skækiur" í beginligri merkíngu, afgudadyrkendur, en vanaliga ekki þá afgúdadyrkara né heidingia, er inndrukkid høfdu þvílíka villu med módurmiólkinni: þad merkir hins sanna Guds affollnu dyrkendur og trúarníðínga nl. i því G. T. (siá t. d. Ezech. 16 og 23 Kap. Hós. 1 og 2 Kap. Jerem. 2 Kap.) Israelíta, er níddust á trú sinni og blótudu god, og i því N. T. (s. Jac. 4, 4) kristna, er elskudu heimin gudi fremur. Þetta ordatiltæki er nl. tekid af þeirri hiá spámønnunum tídkanligu líking, er afmálar Gud sem Israels ektamann og Israels lyd sem hans húsfrú. Þá nú þiód þessi tilbad afgudi, héldt hún ei þá trygd né þann kiærleika, er hún var sínum ektamaka skyldug um: hún hóradist.

Og með því að Johannes hefir tekið líking þessa sem margar aðrar, til láns hjá þeim gömlu spámönnum, þá synist hann hér ei að meina eginliga heiðíngia, heldur kristna menn, er nídst höfðu á trú sinni og tryggð við Guð og Jesum.

Lokíins mælir samhengis niðurrøðun, er hvervetna liggur í augum uppi í bók þessari, fram með hinni eldri útleggíngu. Sú innsiglaða bók í Drottins hönd inniheldur þá alt það sem ské mun; og þá øll hennar innsigli voru upp brotinn, varð alt alkunna; Þau 7 innsigli, þær 7 básúnur og 7 reiðiskálir standa í náqvæmu samanhengi innbyrðis; því opnun hins 7da og sídsta innsiglis, eðr, sem er eitt og hið sama, hið 3ia vehróp, innibindur alla þá hegníngardóma, sem boðast með 7 básúnum; og hljómur ennar 7du básúnu (11, 15) lysir þeim refsíngadómum, er teiknast með hellíngu úr þeim 7 Guðs reiðiskálum (16 Kap.) Framqvæmd þessara svoleiðis jarðteiknaðra dóma fylgir í 19da og 20 Kap. og þá lykur opinberuninni, hvorri þvísnæst fylgir lysíng friðsælu Jesu kyrkiu á jørðu, að unnum sigri á øllum hennar óvinum og að lyktum hennar sælufulla ástands á himnum. Það sem á tveim støðum, nl. hin 12ti og 14 Kap. og 17—19 Kap. 10 v. er skotið inn á millum, á að undirbúa lesarann til þess, er fram muni koma og náqvæmar að afmála þá fiandmenn Krists kyrkiu, hvoria Guðs réttláta reiði mundi yfirfalla. Sér-

hvær, sem ei lætur fylgismál i þessu efni blekkia sig, má játa, að þá á þenna hátt er litið á opinberun Johannis, má siá slæduga og af rithöfundinum siálfum, sem svo sýnist, ávíssaða inntaksniðurrøðun i bókinni frá upphafi til enda, hvaramóti að þá efnisrøð, hverri hin yngri útleggíng fylgir, er að vísu hægt at yfirlíta, en hefir þann allmikilvæga brest, að hún varla mun uppfundin vera af siálfum ritsmiðnum, heldur af hans útleggiurum.

Innihaldi þá opinberuniu spádóma i røð um forløg Kristskyrkiu frá Johannis æfidøgum til fiærlægustu komandi alda, svo flýtur af því, að nokkur hluti þessara spádóma allareiðu er framkominn og að sumir af þeim muni á komandi øldum rætast. En spyrji menn nú: hverir eru þeir viðburðir og breytíngar i Krists kyrkiu frá døgum Joh. til vorra tíða, er þeir i bók þessari skráðir fyriburðir jarteikna? Hverir eru þeir sérligu atburðir i veraldarsøgunni, til hverra þær einstøku líkíngar benda? Hvað heyrir alleina til þessara líkínga búníngs og skrauts og hvað fyrimindar það tilkomandi? — þá er það ei i lófa lagið að svara réttliga; því ei er sá útleggiari en þá fæddur, er i þessu efni hafi kunnað fullnægiandi andsvar at géfa. Ekki eru einusinni útleggiararnir á eitt sáttir um þýðíngu einstakra líkínga, þvíssíður um það, til hvers þær bendi. Og með því það er lángt frá mér að tileinka minu

byggiuviti úrskérandi atkvædi i þessu vandamáli, svo mundi og lesurunum allstid gagna, ad uppselia hér fielda hlytarlausra meiníngа. Þad væri eins óþarfligt sem gagnslaust; því sá biblíulesari, sem fródur er i sagnafrædi og spámannanna ritum, mun og án efa bera til hlytar kénnsl á þvílíkar ritgierdir sem t. d. Guldbergs útleggíngu hins N. T. i hvörri opinberunarinnar innihald og augnamid skarpvitrliga er útlistad, og Bastholms útleggíngu, i hvörri sinna má tilraun nokkura til ad útþyda þær sionir, er skrifadar standa i opinberunarb. uppá ymsa atburdi, er ordid hafa og i frásögur eru færdir; en ødrum lesurum mun þad ofuresli og ofætlun ad dæma um spásagna=innihald bókar þessarar.

Eu hvornveg skal þá sá lesari, er ad eins leytar uppbyggíngar og gagns i heil ritníngu, draga ard og andliga gagnsemi af þessari vandaskildu bók, og hvornin getum vér heldrad svo þúngskilda bók, sem postulaliga ritgierd? Um þad vil eg stuttuga láta mína meiníng i liósi. J fyrsta máta inniheldur bókin margt, er sérhver einfaldur kristinn getur skilid. Hvørsu margar á ollum øldum dyrmætar áminníngar og advaranir innifela ei bréfin til þeirra 7 safnada, hvorium opinberunin i øndverdu var ætlud! Hve fegur eiminn hins kristiliga sinnada kénnara og safnadar, er afmálud stendur oss fyrir augum i bréfunum

til safnadanna engla (forstødumanna) i Smyrna og Philadelphia! Hver getur skodad sinnd þess án þess ad sú óst qvikni i brióstí hans, ad sofnudur sá, yfir hvörn hann annadhvört er settur, edur hvörs medlimur hann er, væri þeim samlíkur? En þad vóru ad eins 2 sofnudir, er ad mestu leyti hofdu áunnid sér Guds velþóknun; hinir adrir hofdu meira edur minna verdskuldad bitrar ávítur. Ephesusmenn syndu ad sonnu vandlæti i því ad halda kristiligum kenníngum óflekudum, en illdeilur flokkanna hofdu kiælt kiærleikann; þeir 2, i Pergamus og Thyatire hoídu gengid adra stigu, er fráhelludu vegum hinna; þeir vóktu ei til hlytar yfir kenníngánna hreinlæti, med því þeir hofdu opnad Jesú lærdóms folsurum adgáng til sín: og ad lyktum vóru 2 ad mestu leyti ad fullu fordiarfadir; i Sardes drottnadi andligur daudi og i Laodicea einlóm hálfvelgia. Þá postulinn lysir ásigkomulagi þessara 7 safnada, hefir hann jafnframt afmálad ástand Jesú kyrkiu, eins og hun hvervetna hefir fyrir siónir komid i einstoku atvikum á sérhvörri øld og yfirhofud á ymsum tímabilum. Einnin á vorum dogum finnst all á ny grunndrættir þessa málverks hiá Jesú safnadar einstakligu medlimum. En spyrie menn: hvor af þessum hér útmáludu 7 sofnudum Jesú kyrkiu, gangi, þá almennt er yfirlitid, næst vorri øld; þá er mieg uggvænt um ad sannleikinn setie hana til samanburdar, ef ei á adra hlid safnadarins i

Gardes, þá safnadarins i Laodirea. Þvi nær hafa menn raupad meir af upplýsíng sinni, enn á sidstlidnum tídum? og nær hefir, ef ei nákuldi, þá hálfvelgia fyrir vorum mikilvægustu málefnum vída útbreidst? Þó — teikn hinna sídustu tíma fyrirboda, sem þad synist, blídari komandi daga; þá biblían á ný er um hönd höfd og lesinn, og menn taka ad sækia Guds hús. Og hvør er sá hreinskilinn kristinn, er ei med gladværir og innilígu þakklæti til Guds, heilsi, eptir svo lánga nótt, þeim frambrunandi morgunróda.

Ei eru þær ypparligu útmálanir Guds og Jesú hátignar og dýrdar, er bók þessi inniheldur midur skilianligar og vekiandi háleitar hugmindir; þeir ágiætu lofsaungar, er hliómudu gudi og lambinu til dýrdar; þau kroptugu advørunar ord, er hvervetna má finna til ad siá vid þeim óguðligu, og þær hugganir og upphvatníngar sem þeim frómlyndu eru géfnar, og þeir strekudu heil. sannfærtandi vitnisburdir um hvad hvørir þeirra fyrir sig mættu vænta af hinum réttvísa dómara. Einnin eru nokkrar af þeim fyrir vorum augum undarligu og forinniuligu lýsíngum, er koma fyrir í bók þessari, en um hvøriar ei má dæma eptir vorra heldur hinna tída smeck, á þá lund lagadar, ad serhvørium lésara, er skyniad fær hid háleita og fagra, mun forkunnarvel gediast ad. Er ei, t. d.

Guds alvitska og sonarins Jesú hlutdeild i fødurs sins heimugligustu rádslögunum ágiætliga fyrir siónir leidd med líkíngu hinnar innsiglüdu bókar i hendi ens almáttuga; hvørri enginn gat upps lokid utan Jesús Kristr? hvørsu fagurt ei Jesú sanna kyrkia, hennar hætta i baráttunni vid óvini sína og drottins vardveitska yfir henni afmas ladar med þeim i 12 Kap. fyrikomandi (i Intaks agripinu útlistudu) líkíngum, einkum nær vér smindum oss þá dyrdligu konu, er jarteiknar Jesú sonnu kyrkiu gagnstæda hinni babylónisku Púti (17 Kap.) Jesú fordiorfudu kyrkiu! Hvør lesari, er nærir von kristinna manna, gledst ei af ad skoda þá ypparligu afmálun samfélags hinna fullsælu, ena himnesku Jerúsalem? Þessar og þvílíkar líks íngar, hvørra nánasta útþyding ei er vandasøm, og til hvørrar gefnar eru nokkrar leidsögnir i ágripi innihaldsins, geta ei annad enn gladt og gagnad þeim gudliga lesara.

Þótt vér ei med vissu fáum dæmt, til hvørra atburda i Krist. kyrkiu þessarar opinberunar eins stakligu siónir eginliga midi; þá er oss þó svomikid audsært, ad þad er kristindómsins barátta vid hans mørgu og voldugu fiendur og hinn frægi sigur, er hann ad lyktum vinna muni, sem allar þessar líkíngar fyrirmynda. Þetta verdur ávalt op= inberunarinnar høfud-efnisatridi, hvørium sem helst útleggíngarmáta menn fylgia. Pád sem Jesus med fám ordum segir (Math. 16, 18) "þort

helvítanna (giørvalla veldi) skal ei megna að yfirbuga minn søfnuð". Þetta hefir hann fyrir sinn postula með einum fyriburdi eptir annað sannað og fyrir siónir leidt. Myrkranna þ. e. hiátrúar og vantrúarinnar ríki fæst hér, með mørgum ógurligum mindum að reisa sig upp ámóti ríki lióssins er Jesus hefir stiptað, edr gégn hans kyrkiu á jørdunni. Að vísu nýtur hin sídstéda halds og trausts af þeim almáttuga; en Guð gétur ei þolgað friálsrædi giæddar verur til hins góda. Hann áminnir, advarar innbúa jardríkis fyrir sína votta; hann lætur syndarana með refsíngum formerkia sína heil. nærveru. En hinn gamli dreki er óaflátanliga starfsamur i sínum verkiærum; og honum verdur fremur en skyldi, ágengt að vidlenda ríki sitt hér á jørdu, svo ástundum synist við siálft liggia at Kristis kyrkia beri lægri hluta af fundi. Þó vakir Drottinn yfir sínum søfnudi; og ámedan sá fiølmenni flokkur forblindaðra jardarbúa lét fall. ast fram fyrir dyrinu og líknesi þess, og teigaði af lostasemdanna bikar, er hin babylóniska púta skénkti, heyrum vér þó þær frelsudu hirdsveitir at undir, og samsyngia lofsaunga Gudi og lambinu til dyrdar. Og að lyktum, eptir eina snerpusta og mannskiædusta orrustu, vinnur Jesu kyrkia undir merkium síns guddómliga hertoga, frægan sigur á øllum sínum óvinum, nýtur um lánga

tíd fridar á jördu og nær loksins takmarki vonar sinnar, fullsælu á himnum uppi.

Þetta er verkun gjörvalls þess, er lestur bókar þessarar mun afreka hjá trúudum kristnum. Og hvörsu heilladrjúg er hún ei! Hér frædumst vér um það, að Kristi kyrkja að vísu, ámedan hún er á jardríki stödd, sé á öllum öldum umkringd af mörgum og geigvænligum fiandmönnum, að ekkért sé stærra naudsynjaverk Kristins manns, er vardveita vill trú sína og dygd, enn að vaka og biðja, að hann ei falli í freystíngar: en að vér að ödru leyti ei heldur megum láta hugrekki vort gugna af tídanna vondu teiknum né óttast yfir að söfnudur Jesu muni til grunna gánga. Nei — sannleikurinn skal — svo vottar sjálfur Drottinn hér fyrir sínn Postula — einnig á þeim mest fordjörfudu tídum, halda sínum tryggu og einfægu vinum. Og hefir ei þessara Drottins sannmæla stadfesting gjörla synt sig um 18 hundrad ára aldir til vorra daga? um langt myrkranna tímabil, þá hjátrú vásadi í völdum í gjörvöllum kristnudum löndum? vóru margar þúsundir innsiglaðra upplýst er ei beygdu kné fyrir aldarinnar afgudi, margir sannleikans huggrakkir vottar, er Drottni sínum vóru trúir til dauðadægurs. Og á hinni seinni svokölludu upplýsíngar öld, þá vantrúin med hædi og brandi herjadi á Kristi kyrkju, trod Guds orð undir fótum og tældi ótalmarga frá Drottins musteri, lifdu þó allmargir, er heimugliga héldu fast vid þá af spéfuglinum spilladu biblíu og ei svívirdtu sig af játa Krist fyrir heiminum. Vér skulum því ei óttast fyrir að kristindómurinn muni nokkrusinni útlægur gjörr af jördunni.

En skal þá Jesu sanni söfnudur, so lengi veröld stendur, hvervetna vera svo illa vidkominn og nú þunga kjör búa? skal hjátrú og vantrú, sem hingaðtil, ávalt skiptast til að hrekia og halda kristnadra samfélagi innan svo þraungra takmarka? Nei, svarar opinberunin oss, ljóssins ríki skal

ásídan undir herstiórn síns konúngs vinna fullkomin sigur á veldi myrkranna — ad vísu ei í þeirri meiníngu, að Jesu kyrkia á jördu nokkrusinni muni samanstanda af eintómum sannleikans vinum, (að vinna þvílíkann fullkomin sigur, mun fyrst dyrdarríkinu, hinni nýu Jerúsalem audid verda: því illgresid og hveitid mun, eins og Jesus segir, Math. 13, 30. vaxa ásamt upp til kornskurdtímans), heldur soleidis, at Jesu ríki ei alleina, ad svo miklu leyti sem það er synilígt, muni framleingis eittsinn útbreidast yfir giörvalla heimskrínglunu, heldur og einnin ad einn betri andi, en híngadtil verid hefir, muni drottnandi verda medal hans ríkis undirsáta. Þetta synist ad vera hugargrip það er líking hins vegliga sigurs jarteiknar, hvorn Jesus ásídan vinna mun á sínum fiandmönnum; og það þúsundára ríki (sia innihalds ágripid) er þá skal stiptast á jardríki. Hvörsu fagurt er þá ei umhorfs, þá þeir renna augum framleingis til ókominna alda, er hryggiast af ad sia hve vídlendt myrkranna ríki er innan og utan Jesu kyrkiu takmarka! og hve naudsynlig er sú von, ad þó eittsinn ásídan muni hagur manna á jördu batna, til ad vidhalda hugrekki og upplífga idiusemi hiá öllum Jesu sönnu vinum til ad frama hans málefni! efldir af von þessari, bidium vér Gud, med þess óteljanra trúnadar trausti: tilkomi þitt ríki! og í samfylgi ad leggia alla alúd á, ad undirbúa og flyta þeim biarta degi, er ásídan eittsinn mun upprenna yfir Jesu söfnud med gulligum rodli.

Þó formerkium vér allir bædi um oss og í oss, svolengi vér erum hádir þessu jordneska ófullkomna lífi, at baráttan millum andans og holdsins, liósins og myrkursins aldrei getur né mun til lykta leidd verda. En vér væntum eptir nýum himni og nyrri jördu, hvar réttlætid mun búa. Fyrst þar mun Jesu sanni söfnudur, í nýu og dýrdligu ásíandi sia sig ad fullu óhultan fyrir sínum fiand-

mönnum, og, sem kórónadur sigurvegari um eylífd bera laún úr bítum fyri trúlyndi sitt. Þetta er hid algiörfa samfélag réttlátra, sem i niðurlági opinberunarinnar med afmálun hinnar himnesku Jerúsalem er oss fyrir siónir leidd. Ei má oss undarligt þykia, ad einnin hér, sem hvervetna annarstadar i bókinni, alt er afmálad ad eins med þeim myndum, er mannlig augu eru fær um ad skoda; því eins og menn ei géta leidt barnid til skilníngs um hins fullvaxna vegligri störf og lystisemdir, svo kann ei heldur ástand hinna fullsælu skilianligt at giöraz breiskum jardarbúum. Þad eru enar sömu verdugu líkíngar er hvervetna koma fyrir i hinu N. T. t. d. brúdkaupsveitsla (Math. 22, 1 fylg.) giestabod (Math. 8, 11) vinasamsæti, sæklensisins bústadr, paradís (Luc. 23, 43.) sú borg (Ebr. 11, 10) hvörrar höfudsmidur og byggingarmeistari Gud er, o. s. frv. sem Joh. brúkar til ad útmála fyrir oss bústad og hagi hinna fullsælu. Alleina ad Postulinn frá sér numinn afmálar líkíngar þessar og safnar öllu því, er i hinni syniligu náttúru finnist ágiætast og vegligast, fagrast og stórkostligast, sem á einn stad til ad meddeila sínum lesurum, þad sem hann sá i anda, nl. afmálun þeirrar dyrdligu fullsælu, er lángt ber af hinu ædsta ágiæti og lukkublómi á jardríki.

En þad, er vér einkanliga megum athuga i giörvallri þessari afmálun ennar himnesku Jerúsalem, er vér allir skilid fáum og sem Joh. því svo optsinnis strekar, er þetta: ad þángad má eckert saurugt koma (opinb. 21, 8. 27 og 22, 14 15). Til ad giörast medlimr samfélags fullgiörra heilagra, hliótum vér ad hreinsa oss frá saurgun holdsins og andans, og fullenda vorra helgun i Gudsótta: til ad vinna sigurkransinn, hliótum vér fyrst ad hafa hád orrustuna. Allir trygdrofar, hugblendur og gleepamenn, samt smiädrarar og lygarar eru, sem Postulinn vottar, útilokadir frá

hinni heil. borg. Alleina þeir, hværra nøfn á dómsdegi skrifuð standa í lífsins bók, fá aðgáng til lífsins tré. Og engum øðrum gétur heldr, þótt ávertur þess lostætur; því tími og eylífð eru náqvæmliga samtengð. Hvør sem hér á trúar-innar landi, ei er í sameiníngu við Guð, og finnur sína lyst og gleði í hans orði, hvørnveg mun hann þar, á skoðunarinnar landi, géta glaðst af náqvæmari sameiníngu með hønum? Hvør sem vanrækti Guðshús, sem er álíkt og forgarður eylífðarinnar, hvørnin mun hann sundið géta sæluvist í þeirri borg, hvørrar musteri sjálfur hinn almáttugi er og lambið (opinb. 21, 22)? Nei, allareiðu hér má oss borgarréttur á himnum búinn vera, ef oss á þar, í sannvissum fullsælu, ásíðan að þykia vort rétta heimili. Og það er þá að eins þvílíkir Kristnir, er glaðst géta með þeim frá sér numda Postula af þeirri dýrðligu sjón, er hann sá frá því háa fjalli, af þeim ítrekuðu heitorðum, er hønum géfin voru af Drottins engli og af Drottni sjálfum (22, 6 fylg.), um uppfylling þessarar sælu vonar og af því hvetiast til að standa stöðugir til endaloka, hvað þeir ásíðan øðlist lífsins korónu.

Svoleiðis hugleidd og í nýt færð mun Joh. opinberun og það jafnvel sá hluti hennar, er inniheldur spásagnir, þótt víða sé hún myrk og vandskilin, verða oss til sannarligrar uppbyggíngar. Vér megum því ei hneixlast á þeim óskiljanligu mökkum, né fyrir þeirra sakir meina að bókin sé þess ei umkomin að hún postula sé eignuð. Að svo miklu leyti sem hún inniheldur ennþá óuppfylta spádóma, verður hún að vera og mun hún verða klædd myrkum þokuhiúpi, uns stundir líða fram og alt mun ljóst verða. Og það sem þessvegna verður að vera oss óskilianligt, munu kristnir á komandi øldum frá annari sjónarhæð, enn þeirri, er vér nú horfum frá, géta að líta að margt upplýsist æ betur. Vér viljum því láta

oss þann hluta bókarinnar nægia, sem oss er skilianligur; og þá mun hann koma oss, eins og hann ad vissu komid hefir mørgum kristnum á øllum øldum, ad giædúrskum notum; sem máttarstólpi verrar trúar og vonar. Og þetta er sannlliga nægiligt til ad sannfæra oss um bókarinnar háleita ágiæti.

En því verr! margir hafa viliad skilia meir, enn oss ber ad skilia; og því er varla sú bók í biblíunni, er menn hafa misbrúkad svo miøg, sem Jóh. opinberun. Í stad þess oss ber ad brúka Guds ord sem liós vorra fóta og lampa á vorum stigum, edur sem Páll segir (Tim. 3, 16), til lærdóms, til sannfæríngar, til betrunar og uppfrædíngar í réttlætinu, svo hafa ei allfáir af hiegómaligri forvitni lagst afar diúpt og ófyrirsyniu brotid heilann yfir þeim þúngskilda hluta þessarar spámannligu bókar og med því dragast látid frá þeim mørgu liósu, fyrir skynsemd og hiarta svo heilladriúgu stødum bædi í þessari og ødrum bókum heil. ritníngar. Biblian er ein bók edur safn af bókum, løgud fyrir alla þá, er lesa vilia. Í henni getur sérhvor, frá hinum fáfródasta einfeldníngi til hins skynsamasta og lærdasta forvitríngs, fundid hollustu sálarfædu. Opinberunarinnar þúngskildari hluti er ad eins fyri þá lesara, hiá hvorium háleit andágift er samfara margháttudum vísindum, alleina fyri þá eins og hinn heil. tiltóku dur siálfur qvedur ad ordi, sem giæddir eru afbragdsligri speki (opinb. 13, 18); því allareidu af því litla, sem hér er sagt um bók þessa, má hægliga ráda, ad til ad skilia réttiliga þær líkíngar, er koma fyrir í henni og enn fremur, til ad útþýda þær uppá vissa atburdi í Krist kyrkiu, útkrefst diúpsæi frodleikur ei alleina um spámenn hins G. T., heldur og um søgur allra þeirra landa hvar hin kristiliga kyrkia frá ondverdu stadid hefir. Og hvílík andlig drambvísi var þad því ei, nær ástundum sá lesari, er var

snaudur af øllum þessum vissindum, engu að sídur birlaði sér inn að hafa fundið lykilinn að þeim helgidómi, er hinir diúpvitrustu gáfumenn ei megnuðu upp að lúka! En sá dáraskapur var þó einna mestur, að menn optsinnis hafa í opin-berunarbókinni viliað niósnast eptir því tilkomandi og álitt sem viliað brióiast inní leyndardóma hins alvitra! alviturliga hefir Guð dulið oss vorum komandi forløgum; og það er fífldirfska, nær dauðlegir menn voga að ýkia því fortialdi til hliðar, er hylur komandi alda viðburði fyrir aug-um vorum. Og væri það annars mögulígt að nockur manneskia gæti gægst inn fyrir fortialdið og orðið áskynia um Guðs leyndiligu álýktanir: hvørninn uppfyllist þá Guðs vísdómsfulli tilgáng-ur að leyna oss því er áliðan skal framm við oss koma? Gæti það skéð sem grillumenn meina sig færa um, að menn kynnu af opinberuninni að útreikna tíðina til heimsloka og hinnsta dags: svo væri það ei satt er ritningin vottar að dag-ur Drottins muni koma sem þiófur á nóttu. Sé því nú svo varið að opinberunin innihaldi í vöð niðurskipaða spádóma um forløg Jesu kyrkiu frá Jóhannis døgum til síðustu tíða; þá er þetta þó enganveginn svo að skilia, að hér liggi nock-urskonar málverk oss fyrir augum af hvøriu vér fyriséð getum, svo smámunum skipti, allar mark-verðar breytíngar, er liggia fyrir Kristiligri kyrk-iu, samt ákveðna tíð, stað og máta, nær, hvar og hvørnveg þær muni framkoma. Nei, sérhvør spádómur er að vísu, sem Postulinn Petur qveður að orði á (yrr umgétnum stað (2 br. 2, 19) einn lampi, er skín á myrkum stað, uns dagurinn rennur upp, þ. e. uppfyllíngartíðin kemur og upplýsir hann. Nær þessvegna vitrir menn og hóglyndir reyndu til at útþýða Joh. opinberun, þá voru það að eins þeir spádómar í bókinni, er þeir héldu uppfylta vera, sem þeir leytuðust við að útleggia, með því að samanbera þá við fyrri

öldn atburdi í Krists kyrkiu, og sem þeir meintu í ſédum vitrunum ſyrimindada ad vera. En þá ſpádóma, hvørra uppfyllíngartími enn þá ei var kominn, hefir aldrei nokkur ſkynſamur og ſinnugur útleggiari dyrſt ſyriſram ad útleggia né draga fram úr þeirri heil' dimmu, hvørri þeir eru og eiga ad vera umſveipadir. Þad vóru ad eins grillumenn og ſiálſþóttafullir dárar, er ſvoleidis illa léku helgidóminn.

Eins og Jóh. opinberunnarbók er hin ſídſta í ſafni Ginna heil. bóka, ſvo á hún og ad vera ſú ſídſta, er hinn gódi kriſtni les. Hún er einhvør hin þungſkildaſta; og útkiefur þá ei hlutarins náttúra, ad vér ei fyrſt byrium á því ſem þúngſkildaſt er, heldur gaungum frá því léttara til þeſs þúngſkildara? lesáranum verda ad vera þeir G. T. ſpamenn vel kunnir, hann má og vera útbuinn hinum ødrum, ádur umgétnu víſindum og fródleik, ádur enn hann byriar á ſpáſaguainnihaldi bókar þeſſarar En ſé honum vant gáfna og hentugleika til ad nema téd víſindi, þá láti hann ſér nægia med þann hluta bókarinnar, er hann, giæddur gudligu hugarfari, ei ad ſidur gétur ſkilid og ſært ſér í nyt. Og hér mun hann víſsuliga finna margt adrørunar — og huggunar — ord er honum mun ad gagni koma. Svoleidis takmarkadur mun leſtur Johannis opinberunarbókar, þeſſi—áſtøtíngarſteinn ſvo margra grillumanna og hiervitrínga — þéna hinum hógløndu leſara til ſanngrar uppbyggíngar. Skeytt vid heil. ritníngu fullendir þeſſi heil. bók þann rambyggiliga grundvøll, á hvørium Guds kyrkia hefir ſtadid í ſvo mørgum bregdvidrum, og á hvørium hún ſtanda mun til aldaloka, óbiſanlig ſem húſid á hellu bygt.

—C✱C✱C—